Snorra Sturlusonar

# Heimskringla

edur

# Noregs Konunga Søgur.



## I. Bindi.

Leirárgørdum vid Leirá, 1804.

Prentad á kostnad Islands konúnglegu Uppfrædíngar Stiptunar,

af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

# Agrip
af
# Æfisøgu
# Snorra Sturlusonar.

Vor frægi Sagnaskrifari Snorri Sturluson, er fæddr at Hvammi í Hvammssveit, árid 1178. Fadir hans Sturla Þórdarson, almennt kalladr Hvamms-Sturla, og módir hans Gudný Bødvarsdóttir, vóru af ennm gøfiguſtu ættum á Islandi, og ecki eins úngis afkomendr Egils Skallagrimssonar og Hrafnístu manna á þá einu sídu, en Røgnvaldar Mæra-Jarls á hina, heldr teldu þau ætt sína til enna ellztu Konúnga á Nordrlendum, svo sem til þeirra gemlu norsku Heidmarkar og Upplands Konúnga, til Ynglinga, og í ka svo til Ragnars Konúngs Lodbrókar eda hinnar dønsku og svensku Konúnga ættar. Prévetr kom Snorri til ens lærda Jóns Loptssonar í Odda á Rángárvøllum, og lagdi þar grundvøllinn til þess lærdóms og mikla vísinda, er hann sídan ávallt dýrkadi. Þessi Jón Loptsson var á þeim tíma einhverr hinn lærdasti madr á Islandi, og høfdíngi mikill; hann var sonarsonr

Sæmundar Prests ens Fróda, en módir hans Þóra var ockta dóttir Magnúsar Konúngs Barfóts. Hjá Jóni dvaldi Snorri í 16 ár, edr til þess Jón deydi, árid 1197, og hafdi hann því þá bestu hentugleika til at dýrka sínar lærdóms ydnir, og útvidka þær dæilegu sinnis-gáfur, er hann af náttúrunni var gæddr med, einkum í því, at kynna sér enna gomlu skálda qvædi og drápur, og líka svo Sæmundar og Ara Fróda og fl. markverdu sagnafrædi.

Eptir dauda Jóns giptist Snorri Herdísi dóttur Bersa Prests ens Audga frá Borg á Myrum. Snorri var madr fátækr, því fødrarfr hans var einúngis, eptir núverandi penínga reikníngi, metinn fyrir hér um 160 rdl.; en med giptíngu þessari eignadist hann hérumbil 4000 rdl. sem lagdi grundvöllinn til hans mikla fjármegnis sídarmeir; var þat mælt, at hann, nærst Sæmundi Jónssyni, Loptssonar í Odda, væri á þeim tíma hinn ríkasti madr á landi hér; hafdi hann mikinn part landsmanna í hlýdni vid sig, og mætti á stundum á Alþíngi med jafnvel fleiri enn 8 eda 900 vopnadra manna. Hann átti 6 hofudból, ank annara minni, á hverjum hann héllt þvílíkann fjølda qvikfjár, at þá hann á einu sínu høfudbóli misti 120 géldneyti, áleit hann þat sem lítilvægi, í tilliti til ens mikla fjølda hann átti annarstadar. Snorri bjó fyrst hjá módur sinni í Hvammi, og sídan í Odda hjá Sæmundi Jónssyni, vid hvers óspektir hann þess

vegna

vegna bendladist; en at tengdafødr hans daudum, árid 1202, nam hann sér bústad á Borg á Mýrum, sem var erfdafé konu hans, en flutti þadan skømmu seinna, edr fyrir 1209, at Reykholti í Borgarfjardar sýslu, er hann at nockru leiti tileinkadi sér sem erfda-góts, en fékk hitt til kaups af egendum. Ból þetta hýsti Snorri forkunnar vel, umgirdti þess hús og kirkju med háreistu virki, til trausts og varnar í ófridar tilfellum, og veitti vatni at húsum heim um leynirennur nockrar, er hann lét gjøra af Tóphsteini, frá hverum þeim, er þar í grend liggja og Skribla eru kalladir, í laug upphladna af Tóphsteini og ødru heggnu grjóti, sem enn er Snorra-laug kølluð, legd med steinbotni og beckjum umhverfis; hefir hún nærstum óroskud og lítid umbætt vid lidi varad hér um 600 ár — minnismerki maklegast miklum manni, hugvitsríkum og byggíngar kunnstarinnar og hennar vísinda einlægum elskara, manni, er képptist mikid eptir því skrautlega, einkum í tilliti til bygginga, og sem hafdi efni nóg til at framqvæma sínar fyrirtektir — hvílikum, sem Snorri Sturluson var. —

Med þessu, og med sínum mikla lærdómi, fjármegni og myndugleika, ávann Snorri sér svo mikit álit í sínu fedrlandi, at hann, árit 1213, hófst til þess tignar embættis, at vera allsherjar Løgmadr á Íslandi; en hann gjørdi sig og brátt nafnkunnann og frægann, einkum fyrir skáldskapar list sína, í ødrum løndum. Fyrst

orti hann Drápu til heidurs enum mektuga Jarli Hákoni Galda, í Noregi, hvørja hann sendi honum hèr um 1213; líkadi Jarli svo vel Drápan, at hann í skáldalaun sæmdi Snorra stórgjøfum, og baud honum til Noregs med føgrum ordum og lofunum. Þetta slóst at vísu af um hríd, søkum dauda Jarls, ér bar at árit eptir, en þo géck ferd hans til Noregs fram, árit 1218, hvar Snorri vissi at koma sér í mjúkinn, ecki einúngis hjá enum nafnfræga Skúla Jarli, heldr og hjá hinum þá únga, en sídar mikla og nafntogada Hákoni Konúngi Hákonarsyni. Hjá Skúla Jarli dvaldi nú Snorri vetrinn eptir, tók sér sídan reisu á hendur til Vestur Gautlands, til fundar vid eckju ens ádr áminnsta Hákonar Jarls Kristínu, sem þá var gipt Askéli Løgmanni þar, var honum þar vel fagnad, einkum vegna drápu þeirrar, er hann hafdi ort henni til heidurs, og fyrir hvørja hann nú þádi í laun, auk annara rausnar gjafa, merki þat, er Eiríkr Konúngr Knútsson í Svíþjód borit hafdi í bardaga móti Sverkir Konúngi. Ad álidnu sumri ferdadist hann aptr til Noregs, hèllt sig vetrinn eptir í hird Skúla Jarls, og var um þær mundir hafinn af Hákoni Konúngi Hákonarsyni, fyrst til Dróttseta, hvørs sýslan var at nockru leiti en sama, sem Bordsída-meistara (Hofmarskalks) í Konúnga-høllum nú á tímum, og þar eptir til Lénsmanns, hvar á móti hann tókst á hendur, at koma því í verk fyrir Konúng, er þessi hafdi í sinni vid Island. Herfør

þeirri,

þeirri, er Norskir um þær mundir gengu þúngbúnir med at stofna til Islands, og hverrar frumqvødull og hvatamadr Skúli Jarl þá einkum var, gat Snorri med fortølum sínum afvendt, fyrst hjá Dagfinni bónda, vildasta vini Hákonar Konúngs, og þar eptir hjá Konúngi sjálfum, sem kom Jarli frá ætlun sinni, undir því skilordi: at Snorri sjálfr lofadi, med eginni og brædra sinna tilstyrk, at koma landinu án hernadar til hlýdnis vid Konúng, hverju til sønnunar Snorri qvadst senda mundi son sinn Jón Murt í gisling til Noregs, og skyldi hann uppalast í hird Jarls. At skilnadi var Snorri útleistr med mørgum veglegum gjøfum, einkum sæmdi Jarlinn hann med fegru og vel búnu skipi, fyrir hvert hann lét sitt þacklæti í ljósi med snoturri vísu. Eptir útkomu sína til Islands, árit 1220, efndi Snorri at því leiti lofordid, at hann sendi þegar áminnstann son sinn árit eptir til Noregs, en at ødru leitinu, sem þó á mestu stód, vard litid edr eckért ágengt, hvert sem því-heldr hafa valdid innbyrdis ósþektir þær, er um þær mundir gengu í landinu, og vid hverjar hann ávallt bendladi sig, jafnvel í gégn sínum egin brædrum og náfrændum, ellegar hann, sakir eginn hagnadar, ætlad hefir sér at leika á landsmenn sína undir eins og sjálfann Konúnginn, svo sem Snorri var einhverr hinn vidsjálasti madr, undirførull, laus í vináttu, ótryggr, fé- og metorda-gjarn; auk þessa var hann madr rádríkr, hefndargjarn,

 laus-

lausſinna og heldr ertinn í ſkapi, lá hann því í ſifelldum deilum, nú um godords forſæti, nú um jardir og faſteignir edr annad erfda-fé, er hann ná vildi undir ſig, vid brædr ſína Þórd og Sighvat, vid bródrſon ſinn Sturla, dóttrurmenn Giſſr, Kolbein og Þorvald, ſon ſinn Urækju, ſtjúpſyni Klæng og Orm, og vid ſon fóſtra ſíns, ſinn velgjörda mann Sæmund Jónsſon, at ödrum ótöldum. Med þeſſu var hann ollandi margfalds ofríkis, ſífellds ófridar, og at lyktum ſíns egin falls og dauda.

Eins og Snorri var laus og hviklyndr í ödru, ſvo og líka í kiærleiks-málum og ektaſkap. Líkaſt er og ſönnu næſt at hann yfirgéfid hafi konu ſína Herdíſi er hann fyrſt ektadi, og at hún lifad hafi, þegar hann á ný inngéck nockurskonar ektaſkapar ſamlifi, med Hallveigu nockurri Ormsdóttur, ríkri eckiu, er ádur verid hafdi kona Biörns Þorvaldsſonar, einhvers ens meſta fiandmanns hans; þetta ſkédi árid 1224, um ſama leitid ſem hann héldt brullaup til dóttur ſinnar Ingibiargar og Giſſurar Þorvaldsſonar í Reykholti, hvert ból hann þá fé́ck til fulls keypt og til ſíń affalad af Magnúſi Preſti og Hallfridi konu hans, ſem vid brullaupid vórú áſamt fleirum merkis-mönnum og frændum hans, þá var og ſamid ſkjal eitt yfir kirkju-egnir þar og adra hennar muni, ſem enn þá mun vera vid lídi og vardveitaſt medal Reykholts kirkju bréfa, er þat haldit at vera hit ellzta ſkjal, ſem finnſt á Islandi. Alls

Alljafnt vorudu nú og heldr jukust óspektirnar i Jslandi, og áminstar giptíngar løgdu tundur ad nýjum ófridar-eldi, vid hvørn Snorri vard ridinn, edr søkum fégyrni sinnar, blés sjálfur ad, vid Stjúp- og Tengda-syni sína, ser til óhamíngju í ellinni og um sídir til ofríkisfulls daudadaga. Øllum þremur dœtrum hans var burtskúfad af mønnum þeirra, sem nú vóru hans ørgustu fjandmenn ordnir, og hér um árid 1236 risu bædi bródir hans Sighvatur og þessa sonr Sturla, upp á móti honum; høfdu þeir fedgar Snorri og Urœkja med ýmislegum ójøfnudi svo ert þá upp í gégn sér, ad þeir ráku hann þegar frá øllum eignum hans. Nú tók Snorri þat rád at sigla til Noregs árid 1237, en kom þángad í honum óhentugri tíd, rétt um þad leitid, er hans vildar-madr og velgjørari Skúli Jarl, sem nú var kalladur Hertogi, stód reidubúinn ad hefja sig til Konúngs upp á móti dóttur-manni sínum Hákoni Konúngi. Snorri géck nú í sveit med Hertoganum ásamt syni sínum Urœkju,. er þá og líka var rekinn burt af Jslandi; héldt hann sig vetrinn eptir vid Hertogans hird í Oslo, fylgdi honum þadan til Þrándheims, og flutti þar drápu eina, vidvíkjandi óspektum þeim, er þá vóru med Konúngi og Hertoganum, líklega til vildar ennm sídartalda, en til nidrunar Konúngs-mønnum, einkum Gauta Jónssyni, vildar-manni Konúngs. En svo miklar sœmdir, sem Snorri fyrrum ávann sér med lof-qvœdum sínum, einu til Hákonar Konúngs, og 2ur til

Skúla Hertoga, af hverjum annad nefn̂ist Bragar-bót, svo mikla óvild og óheill bakadi hann sér nú med þessu sínu framferdi. Af Hertoganum var hann at sennu hafinn til Jarls tignar, án efa yfir Islandi, og greidd fer hans þángad med Hertogans egin skipi, er hann gaf honum at skilnadi, en er Snorri var albúinn til Islands ferdar, kom honum bréf og bodskapr Konúngs, sem hardlega bannadi honum ferina. Engu ad sídur héldt þó Snorri áfram ferdinni til Islands 1239, og nam sér á ný bólfestu í Reykholti, hvar hann sídan skamma stund ríkti; því Gissur Jarl Þorvaldsson, fyrrum dóttur-madur, nú fjandmadur Snorra, eptir undirlagi Hákonar Konúngs, rédist fyrst óværum á móti honum á Alþingi, og þegar þat ecki tókst, fann Gissur sér til orsaka órétt þann, er Snorri gjørdi stjúp-sonum sínum, hværra fødurbródir Gissur var, at rádast á hann heima í Reykholti, hvar Gissur, vid 70 manna, yfirféll hann óværum nærstu nótt eptir Maríu-Messu um haustid, edr þann 22anu Septembr., og lét vinna á honum, þá 63 ára gamlum.

Tíma-

# Tíma-tal
til upplýsingar
## Noregs Konúnga Søgum.

Ári fyrir Krists fædíngu.

105. fæddist Odinn.
90. . . Njørdur.
75. . . Skjøldur.
65. . . Freyr. Gjerdur.
40. Koma Odins á vor Nordurlønd.
35. fæddist Semíngur.
32. . . Fjølnir.
17. . . Fródi I.

Ári eptir Krists fædíngu.

1. fæddur Svegdir.
34. . . Vanlandi.
45. . . Drífa.
67. . . Visburr.
100. . . Domaldi.
127. . . Danp.
133. . . Domarr.
148. . . Drótt.
166. . . Dyggvi.
170. . . Dan Mikilláti.
191. . . Dagur.
216. . . Agni.
220. . . Frosti.
235. . . Fródi III.
241. . . Alrekur.
245. . . Skjálf.
262. . . Gudlaugur.
265. . . Yngvi II.
267. . . Alfur.
290. . . Jørundur.

290

Ártal Kristo.

290. fæddur Hálfdan I.
292. . . Hugleikur.
295. . . Haki. Gylaugur.
300. . . Hagbardur.
300. . . Fridleifur III.
310. . . Starkadur II.
316. . . Án.
338. . . Áli.
370. . . Fródi IV. Frækni.
385. . . Egill.
391. . . Øgvaldur Rogalands Kouúngur.
419. . . Ottar Vendelkráka.
438. . . Helgi.
446. . . Adils.
460. . . Áli Upplendíngur.
465. . . Godgjestur.
479. . . Hrólfur Kraki.
485. . . Eysteinn.
510. . . Sølvi úr Njardey.
518. . . Ingvarr.
551. . . Braut-Ønundur.
554. . . Hálfdan.
565. . . Gudraudur.
577. . . Hjørvardur Ylfíng.
580. . . Ingjaldur.
587. . . Ivar Vidfadmi.
600. . . Ása.
613. . . Olafur Trjetelgja.
620. . . Sólveig edur Sølva.
630. . . Eysteinn Hardrádi.
646. . . Ingjaldur.
658. . . Hálfdan Hvítbeinn.
663. . . Ása Eysteins dóttir.
677. . . Eiríkur Agnars son.
691. . . Gudraudur.
705. . . Eysteinn

Ártal Krists.

705. fæddur Skjöldur Konúngur.
710. . . Hildur Eiríks dóttir.
710. . . Dagur Konúngur á Vestmæri.
738. . . Hálfdan Mildi.
738. . . Alfarinn Konúngur.
743. . . Hlíf Dags dóttir.
770. . . Eysteinn Konúngur.
771. . . Alfgeir Konúngur.
771. . . Gudreydur Konúngur Mikilláti.
774. . . Alfhildur Alfarins dóttir.
804. . . Olafur, Geirstada-Alfur.
805. . . Gandálfur Konúngur.
806. . . Högni Konúngur.
823. . . Hálfdan Svarti.
824. deydi Gudrødur Konúngur.
832. fæddist Ragnhildur módir Haralds Hárfagra.
833. . . Rögnvaldur Heidumhærri.
841. vard Hálfdan Svarti Konúngur á Øgdum og Vestfold.
847. deydi Sigurdur Konúngur Hjörtur.
851. vard Hálfdan Konúngur í Sogni.
852. fieck hann Ragnhildar dóttur Sigurdar Hjartar.
853. fæddist Haraldur Hárfagri.
861. fann Naddoddur Island.
863. deydi Hálfdan Konúngur, í hans stad kom Haraldur.
864. kom Gardar vid Island.
865. Orustа Haralds vid Gandálf Konúng og adra.
866. lagdi Haraldur undir sig Alfheima.
867. fór hann herførum um Þrándheim.
867. sigldi Flóki til Islands.
869. eignadist Haraldur Naumdæla fylki; ektadi Asu.
870. þvíngadi hann Vermaland til hlýdni.
870. kom Ingólfur til Islands.
871. fór Haraldur herførum um Vestur-Gautland, og sigradi Gauta í orrustu.

872.

## Ártal Krists.

872. fieck hann Snæfridar; önnur herför hans um Prándheim.
875. nam Ingólfur fyrstur Ísland.
880. giptist Haraldur Gydu.
881. lagdi hann undir sig med herskyldi Nordmæri og Raumsdal.
882. eignadist hann Sunnmæri.
883. inntók hann Fyrda-fylki.
885. vard hann Herra alls Noregs ad unnum sigri í Hafursfjardar orrustu.
886. fór hann yfir Hálogaland.
888. fór hann herförum um Vesturhaf.
890. skorid hár Haralds Konúngs, og hann þá kalladur enn Hárfagri.
891. fiell Þórólfur á Hálogalandi.
891. komu þeir Qvöldúlfur og Skallagrímur til Íslands, eptir fall tveggja sona Guttorms Hertoga.
893. fiell Rögnvaldur Mæra-Jarl.
894. giptist Haraldur Konúngur Ragnhildi.
895. herjadi Haraldur Konúngur á Orkneyjar.
895. var Gaungu-Rólfur gjørdur útlagi og rekinn burt af Noregi.
896. kom hann til Neustria edur Normandíu.
898. fæddist Eiríkur kalladur Blódöx.
903. skipti Haraldur ríki med sonum sínum.
910. fór Eiríkur Blódöx í Víkingu.
918. fieck hann Gunnhildar.
920. drap hann bródur sinn Björn er kalladur var Farmadur.
923. fæddist Hákon sídar kalladur Adalsteins-fóstri.
931. var hann sendur í England til Adalsteins Konúngs.
932. þridja herför Haralds Konúngs um Vesturhaf.
933. fieck hann ríkid edur einvaldsdæmid í hendur Eiríki syni sínum.
934. fæddist Haraldur, sídar kalladur Gráfeldur.
935. deydi Hálfdan Svarti Prándheims Konúngur.

936.

Ártal Krists.

936. deydi Haraldur Hárfagri.
937. drap Eiríkur brædur sína Gudraud og Olaf.
937. var Hákon Adalsteins-fóstri tekinn til Konúngs af Prændum.
938. var Eiríkur Blódøx rekinn frá landi og ríki í Noregi.
938. fæddist Hákon Jarl Sigurdsson.
939. vard Eiríkur Konúngur á Nordymbralandi.
940. setti Hákon Konúngur Gulaþings-løg.
941. deydi Adalsteinn Konúngur.
943. jók Hákon Konúngur veldi sitt med Jamtalandi og nockrum hluta Helsíngjalands.
952. fiell Eiríkur Konúngur Blódøx í orrustu.
953. gjørdu Eiríks synir Haraldur og brædur hans óspektir í Noregi.
955. herjadi Hákon Konúngur á Danmørku.
956. leitadist hann vid ad innleida kristin trúarbrøgd í Noreg.
957. inntóku Eiríks synir nockurn hluta af Víkinni. Hákon Konúngur sigradi þá og Danska í orrustu á Øgvaldsnesi.
958. vañ hañ sigur á þeim í añari orrustu vid Frædey.
958. fæddist Haraldur Konúngur Grænski, fadir Olafs Helga.
963. var Hákon Konúngur særdur til ólífis í orrustu á eyjunni Stord og dó. Eiríks synir urdu Konúngar í Noregi.
965. fiell Sigurdur Jarl.
968. herjadi Ottó I. Keisari á Danmørku.
968. fæddist Sigmundur Brestisson.
969. drápu Eiríks synir Konúngana Tryggva og Gudraud.
969. fæddist Olafur Tryggvason.
969. fæddist Eiríkur Jarl Hákonarson.
970. flýdi Hákon Jarl til Danmerkur.
971. kom hann aptur til Prándheims.

972.

## Árstal Krists.

972. kom Olafur Tryggvason til Eistlands.
974. var Klyppur Hersir sendur til Englands af Sigurdi Kongúngi.
975. fiell Sigurdur Kongúngr. Var þá mikid hallæri í Noregi.
976. fór Hákon Jarl burt til Danmerkur. Ottó II. Keisari herjadi á Danmørku.
977. fiell Haraldur Kongúngur Gráfeldur.
978. nádi Haraldur Gormsson undir sig Noregs ríki. Hákon verd Noregs Jarl.
978. kom Olafur Tryggvason til hirdar Valdimars Hólmgarda Kongúngs.
979. tók Ragnfredur Kongúngr aptur undir sig part af Noregi.
980. var hann yfirunninn í orrustu og neyddur til adflýa burt af Noregi.
981. drap Eiríkur Skopta.
982. herjadi Haraldur Gormsson á Noreg.
986. fieck Olafur Tryggvason Geyru.
988. herjadi Ottó III. á Danmørku.
989. deydi Geira kona Olafs Tryggvasonar,
990. deydi Haraldur Gormsson.
993. var Olafur Tryggvason skírdur.
993. fæddist Olafur Helgi.
994. Orrusta Hákonar Jarls vid Jómsvíkinga.
996. drepinn Hákon Jarl; Olafur Tryggvason vard Noregs Kongúngur.
998. var Olafur Helgi skírdur
1000. Svoldar orrusta, þá Olafur Kongúngur svipt-ist lífi og ríki.

# Konúnga Søgur.

## Formálinn.

Á bók þessi lét ek rita fornar frásagnir um hofdíngja þá, er ríki hafa haft á nordrløndum, ok á danska túngu hafa mælt, sva sem ek hefir heyrt fróda menn segja: sva ok nockorar kynqvíslir þeirra, eptir því sem mér hefir kennt verit: sumt þat er finnz i lángfedga tali því, er Konúngar hafa rakit kyn sitt, eda adrir stórættadir menn: en sumt er ritat eptir fornum qvædum eda søguljódum, er menn hafa haft til skemtanar sér. Nú þó at vér vitum ecki sannindi á því, þá vitum vér dæmi til þess, at gamlir frædimenn

menn hafa slíkt fyrir satt haft. Þjóðólfr enn fródi úr Hvini var skáld Haralds ens Hárfagra, hann orti ok qvædi um Rögnvald Konúng Heidum hærra, þat er kallat er Ynglínga tal. Rögnvaldr var son Olafs Geirstada-álfs, bródr Hálfdanar svarta. Í þessu qvædi eru nefndir 30 lángfedgar hans, ok sagt frá dauda hvers þeirra ok legstad. Fjölnir er sá nefndr, er son var Yngvifreys, þess er Svíar hafa blótad lengi sidan: af hans nafni eru Ynglíngar kalladir. Eivindr Skáldaspillir taldi ok lángfedga Hákonar Jarls ins rika í qvædi því er Háleygja-tal heitir, er ort var um Hákon. Sæmingr er þar nefndr son Yngvifreys; sagt er þar ok frá dauda hvörs þeirra ok haugstad. Eptir Þjódólfs sögn er fyrst ritin æfi Ynglínga, ok þar vidaukit eptir sögn fródra manna. En fyrsta öld er köllut Bruna-öld, þá skyldi brenna alla dauda menn, ok reisa eptir Bauta-steina; en sidan er Freyr hafdi heygdr verit at Uppsölum, þá gjördu margir höfdingjar ecki sidr hauga

enn.

enn bautasteina, til minníngar eptir frændur sina; en sidan er Danr enn mikilláti Dana Konúngr lét sèr haug gjøra, ok baud sik þannig bera daudann med Konúngs skrúdi ok herbúnadi, ok hest hans vid ǫllu sǫdulreidi, ok mikit fè annat; en hans ættmenn gjǫrdu margir sva sidan, ok hófz þar Haugs-ǫld í Danmǫrku; en lengi sidan hèllz Bruna-ǫld med Svíum ok Nordmǫnnum. En er Haraldr enn Hárfagri var Konúngr í Noregi, þá bygdiz Island. Med Haraldi vóru skáld, ok kunna menn enn qvædi þeirra, ok allra Konúnga-qvædi þeirra er sidan hafa verit at Noregi, ok tokum vèr þar mest dæmi af því, er sagt er í þeim qvadum, er qvedin vóru fyrir sjálfum hǫfdingjunum, eda sonum þeirra: tǫkum vèr þat allt fyrir satt, er í þeim qvædum finnz um ferdir þeirra eda orustur. En þat er háttr skálda at lofa þann mest, er þá eru þeir fyrir; en engi mundi þat þora, at segja sjálfum honum þau verk hans, er allir þeir er heyrdi, vissi at hègómi væri ok skrǫk. ok sva sjálfr hann: þat væri þá hád en ecki lof.

## Frá Ara presti enum Fróda.

Ari prestr inn Fródi Þorgilsson Gellissonar, ritadi fyrstr manna hér á landi at norrænu máli frædi, bædi forna ok nýa: ritadi hann mest í upphafi sinnar bókar.um Islands bygd ok lagasetning; sídan frá løgsøgu-mønnum, hvørsu lengi hvørr hafdi sagt; ok hafdi þat ára-tal fyrst til þess er kristni kom á Island; en sídan allt til sinna daga. Hann tók þar ok vid mørg ønnur dæmi, bædi Konúnga æfi í Noregi ok Danmørk, ok sva á Englandi; edr enn stór-tídindi er gjørz høfdu hér á landi. Ok þykir mørgum vitrum mønnum hans søgn øll merkiliguz: var hann forvitri ok sva gamall, at hann var fæddr næzta vetr eptir fall Haralds Sigurdarsonar. Hann ritadi, sem hann siálfr segir, æfi Noregs Konúnga, eptir søgu Odds Kollssonar Hallssonar af Sidu: en Oddr nam at Þorgeiri Afrádskoll, þeim manni er vitr var, ok sva gamall, at hann bjó þá undir Nidarnesi, er Hákon Jarl enn ríki var drepinn. J þeim sama stad lét Olafr Konúngr Trygg-

va-

vason efna til kaupángs, þar sem nú er. Ari prestr Þorgilsson kom 7 vetra gamall í Haukadal, til Halls Þórarinssonar; ok var þar 14 vetr. Hallr var madr stórvitr ok minnigr; hann mundi þat er Þángbrandr prestr skírdi hann þrevetrann: þat var vetri fyrr enn kristni væri løgtekin á Islandi. Ari var 12 vetra gamall, þá er Isleifr biskup andadiz. Hallr fór milli landa, ok hafdi félag Olafs Konúngs ens Helga, ok feck af því uppreist mikla: var honum því kunnigt um Konúngs-ríki hans. En er Isleifr biskup andadiz, var lidit frá falli Olafs Konúngs Tryggvasonar nær 80 vetra. Hallr andadiz 9 vetrum sídar enn Isleifr biskup; þá var Hallr at vetra-tali nírædr ok fjøgra vetra (hann hafdi gjørt bú í Haukadal prítogr, ok bjó þar 64 vetra), sva ritadi Ari. Teitr son Isleifs biskups var med Halli í Haukadal at fóstri, ok bjó þar sídan; hann lærdi Ara prest, ok marga frædi sagdi hann honum, þá er Ari ritadi sídan. Ari nam ok marga frædi at Þurídi dóttur Snorra Goda: hún var spøk at

viti: hún mundi Snorra fødur sinn: en hann var þá nær hálf fertugr er kristni kom á Island; en andadiz einum vetri eptir fall Olafs Konúngs ens Helga. Því var ecki undarligt, at Ari prestr væri sannfródr at fornum tidindum, bædi hér ok utanlands, at hann var sjálfr námgjarn ok vitr ok minnugr, en hafdi numit at gømlum mønnum ok vitrum. En qvædin þykja mér síz úr stad færd, ef þau eru rétt qvedin, ok skynsamliga upptekin.

Yng-

# I.

# Ýnglínga Saga.

## Kap. I.

### Hér segir frá landa skipan.

Sva er sagt, at kríngla heimsins, sû er mannfólkit byggir, er mjøk vagskorin: gánga höf stór úr útsjánum inn í jørdina. Er þat kunnigt, at haf gengr af Njørvasundum, ok allt út til Jórsala-lands. Af hafinu gengr lángr hafsbotn til landnordrs, er heitir Svartahaf; sá skilr heims þridjúngana: heitir fyrir austan Asia, en fyrir vestan kalla sumir Európa, en sumir Enea. En nordan at Svartahafi gengr Svíþjód in mikla eda in kalda. Svíþjód ena miklu kalla sumir menn ecki minni enn Serkland hit mikla; sumir jafna henni vid Bláland hit mikla. Hinn nyrdri lutr Svíþjódar liggr óbygdr af frosti ok kulda, sva sem hinn sydri lutr Bláland er audr af sólar-bruna. Í Svíþjód eru stór hérut mørg: þar eru ok margskonar þjódir undarligar, ok margar túngur: þar eru risar, ok þar eru

dvergar; þar eru ok blámenn. Þar eru dýr ok drekar furdulega stórir. Ur nordri frá fiøllum þeim, er fyrir utan eru bygd alla, fellr á um Svíþjód, sú er at réttu heitir Tanais; hún var fordum køllut Tanaqvísl edr Vanaqvísl; hún kémur til siávar inn í Svarta-haf. Í Vanaqvíslum var þá kallat Vanaland, edr Vanaheimr; sú á skilr heims-þridjúngana; heitir fyrir austan Asía, en fyrir vestan Evrópa.

## Kap. II.

### Frá Asía mønnum.

Fyrir austan Tanaqvísl í Asía, var kallat Asa-land edr Asa heimr; en høfutborgina, er í var landinu, kølludu þeir Asgard. En í borginni var høfdíngi sá, er Odinn var kalladr, þar var blótstadr mikill. Þat var þar sidr at 12 hofgodar vóru æztir: skyldu þeir ráda fyrir blótum ok dómum manna í milli; þat eru Díar kalladir edr drottnar; þeim skyldi þiónustu veita allt fólk ok lotníng. Odinn var her-madr mikill ok mjøk vídførull, ok eignadiz mørg ríki: hann var sva sigrsæll, at í hverri orustu feck hann gagn. Ok sva kom at hans menn trúdu því, at hann ætti heimilann sigr í hverri orustu. Þat var háttr hans ef hann sendi menn sína til orustu, edr adrar sendifarar, at hann lagdi ádr hendur í høfut þeim, ok gaf þeim bjanak: trúdu þeir at þá mundi vel faraz. Sva var ok um hans

menn,

menn, hvar sem þeir urdu í naudum staddir, á siá eda á landi, þá kølludu þeir á nafn hans, ok þóttuz jafnan fá af því fró: þar þóttuz þeir ega allt traust er hann var. Hann fór opt sva lángt í brot, at hann dvaldiz í ferdinni mørg misseri.

## Kap. III.

### Frá brædrum Odins.

Odinn átti tvo brædr, hét annar Ve, en annar Vilir. Þeir brædr hans stýrdu ríkinu, þá er hann var í brottu. Þat var eitt sinn, þá er Odinn var farinn lángt í brot, ok hafdi lengi dvaliz, at Asium þótti ervænt hans heim; þá tóku brædur hans at skipta arfi hans; en konu hans Frigg gengu þeir bádir at ega. En litlu sídar kom Odinn heim, tók hann þá vid konu sinni.

## Kap. IV.

### Ofridr vid Vani.

Odinn fór med her á hendr Vønum; en þeir urdu vel vid, ok vørdu land sitt, ok hafdu ymsir sigr; herjudu hvarir land annara, ok gerdu skada á. En er þat leiddiz hvarumtveggjum, legdu þeir milli sín sættarstefnu, ok gérdu frid, ok selduz gislar; fengu Vanir sína ena ágæstu menn, Njørd hinn audga, ok son hans Frey; en Æsir þar í mót þann er Hænir hét,

ok kølludu hann allvel til høfdíngja fallinn. Hann var mikill madr ok hinn vænsti: med honum sendu Æsir þann er Mímir hét, hinn vitrasti madr; en Vanir fengu þar á mót þann, er spakastr var í þeirra flocki, sa hét Qvásir. En er Hænir kom í Vanaheim, þá var hann þegar høfdíngi gørr; Mimir kenndi honum ráð øll. En er Hænir var staddr á þíngum edr stefnum, sva at Mímir var ecki nær, ok kæmi nockur vandamál fyrir hann, þá svaradi hann æ enn sama: rádi adrir, qvad hann. Þá grunadi Vani, at Æsir mundi hafa falsad þá í mannaskiptinu. Þá tóku þeir Mími ok hálshjuggu, ok sendu hefudit Ásum. Odinn tók hefudit, ok smurdi urtum þeim er ecki mátti fúna, ok qvad þar yfir galdra; ok magnadi sva, at þat mælti vid hann, ok sagdi honum marga leynda luti. Njørd og Frey setti Odinn blótgoda, ok vóru þeir Díar med Ásum. Dóttir Njardar var Freya; hún var blótgydja, ok hún kenndi fyrst med Ásum seid, sem Vønum var titt. Þá er Njørdr var med Vønum, þá hafdi hann átta systur sína; því at þat vóru þar løg: vóru børn þeirra Freyr ok Freya: en þat var bannat med Ásum, at byggja sva náit at frændsemi.

## Kap. V.

### Odinn skipti ríki. ok frá Gefjon.

Fjallgardr mikill gengr af landnordri til útsudurs; sá skilr Svíþjód ena miklu, ok

önnur ríki: fyrir sunnan fiallit er ecki lángt til Tycklands; þar átti Odinn eignir stórar. I þann tíma fóru Rumverja hefdíngjar vída um heiminn, ok brutu undir sik allar þiódir. En margir hefdíngjar flýdu fyrir þeim ofridi af eignum sínum. En fyrir því at Odinn var forspár ok fiölkunnigr, þá vissi hann at hans afqvæmi mundi, um nordrálfu heimsins byggja. Þá setti hann brædur sína Ve ok Vila yfir Asgard; en hann fór ok Diar allir med honum ok mikit mannfolk annat. Fór hann fyrst vestr í Gardaríki, ok þá sudr í Saxland. Hann átti sonu marga: hann eignadiz ríki vída um Saxland, ok setti þar sonu sína til landzgæzlu. Þá fór hann nordr til siávar, ok tók sér þar bústad í ey einni; þar heitir nú Odinsey í Fióni. Þá sendi hann Gefion nordr yfir sundit á landa leitan: þá kom hún til Gylfa, ok gaf hann henni eitt plógsland. Þá fór hún í Jotunheima, ok gat þar 7 sonu vid jotni nockorum; hún brá þeim í yxna-líki, og færdi þá fyrir plóginn, ok dró landit út á hafit, ok vestr gégnt Odinsey, ok er þat land kallat Selund: þar bygdi hún sídan. Hennar fékk Skjoldr son Odins; þau bjuggu at Hleidru. Þar er vatn edr siár eptir, þat er kallat Lögrinn. Sva liggja firdir í leginum í Svíaríki, sem nes í Selundi. Sva qvad Bragi hinn gamli:

Gefjon dró frá Gylfa
Glod diúprodul audla

Sva at af renni roknum
Rauk Danmarkar auka.
Bárú yxn ok átta
Enni túngl þar er gengu
Fyrir vineyar vidri
Valrof fiegur hofut.

En er Odinn spurdi at gódir landskostir vóru austr at Gylfa, fór hann þannok, ok gørdu þeir Gylfi sætt sína, þvíat Gylfi þóttiz engi krapt til hafa til mótstødu vid Asana. Margt áttuz þeir Odinn vid ok Gylfi í bregdum ok sjónhverfingum, ok urdu Æsir jafnan ríkri. Odinn tók sér bústad vid leginn, þar sem nú eru kalladar fornu Sigtúnir, ok gërdi þar mikit hof ok blót, eptir sidvenju Asanna. Hann eignadiz þar lønd svo vítt, sem hann lët heita Sigtúnir: hann gaf bústadi hofgodunum: Njørdr bjó í Nóatúnum; en Freyr at Uppsølum; Heimdallr at Himinbjørgum; Þór á Þrúdvángi; Baldr á Breidabliki: øllum fëck hann þeim góda bústadi.

## Kap. VI.

### Frá atgërvi Odins.

Þá er Asa-Odinn kom á nordrlønd, ok med honum Díar; er þat sagt med sannindum, at þeir hófu ok kënndu íþróttir þær, er menn hafa lengi sídan medfarit. Odinn var

gøfgaſtr af øllum, ok at honum námu þeir allar íþróttirnar: því at hann kunni fyrſtr allar ok þó fleſtar. En þat er at ſegja fyrir hvørja ſok hann var ſva mjøk tignadr, þá báru þeſſir lutir til: at hann var ſva fagr ok gøfuligr álitum, þá er hann ſat med vinum ſínum, at øllum hló hugr vid; en þá er hann var í her, þá ſýndiz hann grimmligr ſínum óvinum. En þat kar til þeſs, at hann kunni þær íþróttir, at hann ſkipti litum ok líkjum, á hvørja lund er hann vildi: ønnur var ſú, at hann taladi ſva ſnjallt ok ſlétt, at øllum er áheyrdu, þótti þat eina ſatt; mælti hann allt hendíngum, ſva ſem nú er þat qvedit, er ſkáldſkapr heitir. Hann ok hofgodar hans heita ljóda ſmidir, því at ſú íþrótt hófz af þeim í Nordrløndum. Odinn kunni ſva gera, at í orruſtu urdu óvinir hans blindir, eda daufir, eda óttafullir; en vopn þeirra bitu ecki heldr enn vendir: en hans menn fóru brynjulauſir, ok vóru galnir ſem hundar edr vargar, bitu í ſkjøldu ſína, vóru ſterkir ſem birnir eda griduúngar: þeir drápu mannfólkit, en hvartki eldr né járn orti á þá: þat er kallat berſerksgángr.

## Kap. VII.

### Frá íþróttum Odins.

Odinn ſkipti hømum; lá þá búkrinn ſem ſofinn eda daudr, en hann var þá fugl eda dýr, fiſkr eda ormr, ok fór á einni ſvipſtund á fjarlæg lønd, at ſínum erindum edr ann-

annara manna. Þat kunni hann enn at gera med ordum einum, at slöckva eld, ok kyrra sjá, ok snúa vindum, hverja leid er hann vildi. Odinn átti skip þat er Skídbladnir hét, er hann fór á yfir hef stór; en þat mátti vefja saman sem dúk. Odinn hafdi med sér hofut Mímis, ok sagdi þat honum mørg tídindi ór ødrum heimum: en stundum vakti hann upp dauda menn úr jerdu, edr settiz undir hánga: fyrir því var hann kalladr drauga-drottinn edr hánga-drottinn. Hann átti ok hrafna tvo, er hann hafdi tamit vid mál, flugu þeir vída um lønd, ok sögdu honum mørg tídindi: af þessum lutum vard hann stórliga fródr. Allar þessar íþróttir kenndi hann med rúnum ok ljódum, þeim er galdrar heita; fyrir því eru Æsir kalladir galdra smidir. Odinn kunni þá íþrótt er mestr máttr fylgdi, og framdi sjálfr, er seidr heitir: en af því mátti hann vita ørleg manna ok óordna luti, sva ok at gøra mennum bana edr óhamíngju, edr vanheilindi, sva ok at taka frá mennum vit edr afl, ok gefa ødrum; en þessi fjølkyngi, er framit er, fylgir sva mikil ergi, at ecki þótti karlmønnum skammlaust vid at fara; ok var gydjunum kennd sú íþrótt. Odinn vissi of allt jardfé, hvar fólgit var, ok hann kunni þau ljód er upplaukz fyrir honum jørdin, ok bjørg ok steinar, ok haugarnir, ok batt hann med ordum einum þá er fyrir bjuggu, ok gèck inn ok tók þar slíkt er hann vildi. Af þessum kreptum vard hann mjøk frægr, óvinir

hans

hans óttuduz hann, en vinir hans treystuz honum, ok trúdu á krapt hans ok á sjálfann hann; en hann kènndi flestar íþróttir sínar blótgodunum; vóru þeir nærst honum um allann fródleik ok fjølkyngi. Margir adrir námu þó mikit af; ok hefir þadan af dreifz fjølkyngin vida, ok haldiz lengi. En Odinn ok þá høfdíngja 12 blótudu menn, ok kølludu god sín, ok trúdu á lengi sídan. Eptir Odins nafni var kallадr Audon, ok hètu menn sva sonu sína; en af Þórs nafni er kalladr Þórir edr Þórarinn; edr dregit af ødrum heitum til, sva sem Steinþór edr Hafþór, edr enn breytt á fleiri vega.

## Kap. VIII.

### Lagasetníng Odins.

Odinn setti løg í landi sínu, þau er gengit høfdu fyrr med Asum, sva setti hann, at alla dauda menn skyldi brenna, ok bera á bál med þeim eign þeirra: sagdi hann sva at med því líkum audæfum skyldi hverr koma til Valhallar sem hann hafdi á bál: þess skyldi hann ok njóta, er hann sjálfr hafdi í jørd grafit: en øskuna skyldi bera út á sjá, edr grafa nidr í jørd. En eptir gøfga menn skyldi haug géra til minníngar. En eptir alla þá menn, er nockot manns mót var at, skyldi reisa bautasteina; ok hèllz sá sidr lengi sídan. Þá skyldi blóta í móti vetri til árs; en at midjum vetri blóta til gródrar; et þridia at sumri; þat var sigrblót. Um

alla

alla Svíþjóð gulldu menn Odni skattpenníng fyrir nef hvert; en hann skyldi verja land þeirra fyrir úfridi, ok blóta þeim til árs.

## Kap. IX.

### Kvanfáng Njardar.

Njördr fékk konu þeirrar er Skadi hét, hún vildi ecki vid hann samfarar, ok giptiz síðan Odni, áttu þau marga sonu: einn þeirra hét Sæmíngr, um hann orti Eyvindr Skáldaspillir þetta:

15 Hann skjald blætr    Skatna vinr
Skattfæri gat    Ok Skadi bygdu.
Ása nidr    Sævar beins
Vid jarnvidju    Ok sonu marga
Þá er þau meirr    Ondr dys
J Mannheimum    Vid Odni gat.

Til Sæmings taldi Hákon Jarl hinn Ríki lángfedga kyn sitt. Þessa Svíþjóð kölludu þeir Mannheima, en hina miklu Svíþjóð kölludu þeir Godheima; úr Godheimum sögdu þeir mörg tídindi, ok mörg undur.

## Kap. X.

### Daudi Odins.

Odinn vard sóttdaudr í Svíþjóð; ok er hann var at kominn bana, lét hann marka

sik

sik geirs oddi, ok eignadi sèr alla vapnbitna menn: sagdi hann sik mundo fara í Godheim, ok fagna þar vinum sínum. Nú hugdu Svíar, at hann væri kominn í hinn forna Asgard, ok mundi þar lifa at eylífu. Hófz þá at nyu átrúnadr vid Odinn, ok áheit. Opt þótti Svíum hann vitraz sèr, ádr stórar orrustur yrdi; gáf hann þá sumum sigr, en sumum baud hann til sín: þótti hvarttveggi kostr gódr. Odinn var brendr daudr, ok var sú brenna gjør allveglig. Pat var trúa þeirra, at því hærra sem reykinn lagdi í loptit upp, at því háleitari væri sá í himninum, er brenna átti; ok þess audgari, er meira fè brann med honum.

## Kap. XI.

### Frá Nirdi.

Njørdr af Nóatúnum gèrdiz þá valdsmadr yfir Svíum, og hèllt upp blótum; hann kølladu Svíar þá drottinn sinn, tók hann þá skattgjafir af þeim. A hans døgum var fridr allgódr, ok allskonar ár sva mikit, at Svíar trúdu því, at Njørdr rèdi fyrir ári, ok fyrir fèsælu manna. A hans døgum dó flestir Díar, og vóru allir brendir ok blótad.r sídan. Njørdr vard sóttdaudr, lèt hann ok marka sik Odni ádr hann dó: Svíar brendu hann, ok grètu allir mjøk yfir leidi hans.

## Kap. XII.

### Daudi Freys.

Freyr tók þá vid ríki eptir Njörd, var hann kalladr drottinn yfir Svíum, ok tók skattgjafir af þeim; hann var vinsæll ok ársæll sem fadir hans. Freyr reysti at Uppsölum hof mikit, ok setti þar höfutstad sinn; lagdi þar til allar skyldir sínar, lönd ok lausaun eyri: þá hófz Uppsala audr, ok hefir haldiz æ sídan. Á hans dögum hófz Fróda fridr; þá var ok ár um öll lönd: kéndu Svíar þat Frey, var hann því meir dýrkadr enn ønnur godin, sem á hans dögum vard landsfólkit audgara enn fyrr, af fridinum ok ári. Gerdur Gymisdóttir hét kona hans; sonr þeirra hét Fjölnir. Freyr hét Yngvi ödru nafni; Yngva nafn var sídan lengi haft í hans ætt fyrir tignar nafn: ok ynglíngar vóru sídan kalladir hans ættmenn. Freyr tók sótt; en er at honum leid sóttin, leitudu menn sér ráds, ok létu fá menn til hans koma; en bjuggu haug mikinn, ok léto dyr á, ok 3 glugga. En er Freyr var daudr, báru þeir hann leyniliga í hauginn, ok sögdu Svíum at hann lifdi, ok vardveittu hann þar 3 vetr, en skatt öllum helltu þeir í hauginn, í einn glugg gullinu, en í annann sylfrinu, í hinn þridja eyrpeníngum. Þá hellz ár ok fridr.

Kap.

## Kap. XIII.

### Frá Freyu ok dætrum hennar.

Frèya hèllt þá upp blótum, þvíat hún ein lifdi þá eptir godanna, ok vard hún þá hin frægasta, svo at med hennar nafni skyldi kalla allar kónor tignar, sva sem nú heita frúvor. Svo heitir ok hver freya yfir sinni eigu, en sú húsfreya er bú á. Freya var heldr marglynd; Odr hét bóndi hennar; dætur hennar hètu Hnoss ok Gersimi; þær vóru fagrar mjøk: af þeirra nafni eru sva kalladir hinir dyrstu gripir. Þá er allir Svíar vissu at Freyr var daudr, en hèllz ár ok fridr, þá trúdu þeir at sva mundi vera, medan Freyr væri á Svíþjód, ok vildu ecki brenna hann, ok kølludu hann veraldar god, blótadu hann mest til árs ok fridar alla æfi sídan.

## Kap. XIV.

### Daudi Fjølnis Konúngs.

Fjølnir son Yngvifreys réd þá fyrir Svíum og Uppsala audi; hann var ríkr ok ársæll ok fridsæll: þá var Fridfródi at Hledru; þeirra í millum var vinfengi mikit ok heimbod. Þá er Fjølnir fór til Fróda á Selund, þá var þar fyribúin veizla mikil, ok bodit til vída um lønd. Fródi átti mikinn húsabæ; þar var gért ker mikit margra álna hátt, ok okat med stórum timburstockum; þat stód í undirskemmu,

en lopt var yfir uppi, ok opit gólfþilit, sva at þar var nidr hellt leginum; en kérit blandit fullt mjadar; þar var dryckr furdu sterkr. Um kveldit var Fjølni fylgt til herbergis í et nærsta lopt, ok hans sveit med honum. Um nóttina geck hann út í svalir at leita sér stadar; var hann svefn-ærr ok dauda druckinn: en er hann sneriſt aptr til herbergis, þá géck hann fram eptir svølunum ok til annara lopt dyra, ok þar inn; misti þá fótum, ok féll í mjadar-kérit, ok týndiz þar. Sva segir Þjódólfr hinn hvinverski:

Vard framgengt
Þar er Fródi bjó
Feigdar ord
Er at Fjølni kom:
Ok sikling
Svigdis geira
Vagr vindlauſs
Of vida ſkyldi.

## Kap. XV.
### Frá Svegdi.

Svegdir tók ríki eptir fødur sinn; hann strengdi þess heit at leita Godheims, ok Odins ens gamla; hann fór med 12 menn vída um heiminn, hann kom út í Tyrkland ok í Svíþjód ena miklo, ok hitti þar marga frændur sína, ok var í þessi før 5 vetr. Þá kom hann aptr til Svíþjódar, dvaldiz hann þá enn heima um hríd. Hann hafdi fengit konu þá er Vana hét, út í Vanaheimi, var þeirra son Vanlandi. Svegdir fór enn at leita Godheims; ok í austanverdri Svíþjód

hét

hét bær mikill at Steini, þar er steinn sva mikill sem stórt hús. Um kveldit eptir sólar fall, þá er Svegdir gêck frá dryckju til svefnbúrs, sá hann til steinsins, at dvergr sat undir steininum: Svegdir ok hans menn vóru mjøk drucknir, ok runnu til steinsins: dvergrinn stód í durom, ok kalladi á Svegdi, bad hann þar inn gánga, ef hann vildi Odinn hitta. Svegdir ljóp í steininn; en steinninn laukz þegar aptr, ok kom Svegdir ecki aptr. Svą segir Þjódólfr hinn hvinverski.

| | |
|---|---|
| En dag-skjarr | Dulsa kour |
| Durnis nidja | Epr dvergi ljóp: |
| Salvordodr | Ok salbjartr |
| Svegdi velti; | Þeirra Søkmímis |
| Þá er í stein | Jotun-bygdr |
| Enn stórgedi | Vid jøfri gein. |

## Kap. XVI.

### Frá Vanlanda.

Vanlandi hét sonr Svegdis, er ríki tók eptir hann, ok réd fyrir Uppsala aud: hann var hermadr mikill, ok hann fór vída um lønd. Hann þá vetrvist á Finnlandi med Snjá hinum gamla, ok feck þar dóttur hans Drífu. En at vari fór hann á brott, en Drífa var eptir; ok hét hann at koma aptr á þriggja vetra fresti; en hann kom ecki á 10 vetrum. Þá sendi Drífa eptir Huld seidkonu, en sendi Visbur, son þeirra Vanlanda, til

Svíþjóðar. Drífa keypti af Huld seidkonu, at hún skyldi síða Vanlanda til Finnlands, edr deyda hann at ødrum kosti En er seidr var framidr, þá var Vanlandi at Uppsølum: þá gérdi hann fúsann at fara til Finnlands: en vinir hans og rádamenn bønnudu honum, ok søgdu at vera mundi fjølkyngi Finna í farfýsi hans. Þá gérdiz honum svefnhøfugt, ok lagdiz hann til svefns. En er hann hafdi litt sofnad, kalladi hann, ok sagdi, at mara trad hann. Menn hans fóru til ok vildu hjálpa honum; en er þeir tóku uppi til høfudsins, þá trad hún fótleggina, sva at nær brotnudu: þá tóku þeir til fótanna, þá kafdi hún høfudit, sva at þar dó hann. Svíar tóku lík hans, ok var hann brendr vid á þá, er Skúta heitir. Þar vóru settir bautasteinar hans. Sva segir Þjódólfr:

Enn á vit
Vilja bródur
Vitta vettr
Vanlanda kom;
Ok trøll-kund
Of troda skyldi
Lids Grímhildr
Ljóna baga;
Ok sá brann
Á bedi Skútu
Men-gløtudr
Er mara qvaldi.

## Kap. XVII.

### Daudi Visburs.

Visburr tók arf eptir Vanlanda fødur sinn.; hann géck at eiga dóttur Audaens audga, ok gaf henni at mundi 3 stórbæi,

ok gullmen. Pau áttu tvo sonu Gísl ok Öndur. En Visburr lét hana eina, ok feck annarar konu; en hún fór til fødur síns med sonu sína. Visburr átti son er Domaldi hét; stjúpmódir Domalda lét sída at honum ógæfu. En er synir Visburrs vóru 12 vetra ok 13, fóru þeir á fund hans, ok heimtu mund módur sinnar; en hann vildi ecki gjalda. Pá mæltu þeir, at gullmenit skyldi verda at bana hinum besta manni í ætt hans, ok fóru í brott ok heim. Pá var enn fengit at seid, ok sídit til þess, at þeir skyldu mega drepa fødur sinn. Pá sagdi Huldur vølva þeim, at hún mundi sva sída, ok þat med, at ættvíg skyldu ávallt vera í ætt þeirra Ynglinga sídan: þeir játtu því. Eptir þat samnodu þeir lidi, ok komu at Visburr um nótt á óvart, ok brendu hann inni. Sva quad Pjódólfr:

Ok Visburs
Vilja byrdi
Sævar nidr
Svelgja knátti,
Pá er meinþjóf
Markar øttu
Setr verjendur
A sinn fødur;
Ok allvald
I aren-kjóli
Glóda garmr
Glymjandi beit.

## Kap. XVIII.

### Daudi Domalda.

Domaldi tók arf eptir fødur sinn Visbur, ok réd løndum. A hans døgum gjørdiz í Svíþjód sulltr mikill ok seyra. Pá efldo

Svíar blot stór at Uppsølum; it fyrsta haust blótudu þeir yxnom, ok batnadi ecki árferd at heldr. En annat haust hófu þeir mannblót, en árferd var sem edr verri. En et þridja haust komu Svíar fjølmennt til Uppsala, þá er blót skyldu vera: þá áttu høfdingjar rádagjørd sína, ok kom þat ásamt med þeim, at hallærit mundi standa af Domalda konúngi þeirra; ok þat med, at þeir skyldu honum blóta til árs sèr ok veita honum atgaungu ok drepa hann, ok rjóda stalla blódi hans, ok sva gérdu þeir. Sva segir Þjódólfr:

Hitt var fyrr  
At fold rudu  
Sverdberendur  
Sínum drottni;  
Ok land her  
A lífs vonann

Dræyrug vapn  
Domalda bar.  
Þá er ár-gjørn  
Jóta dólgi  
Svía kind  
Of sóa skyldi.

## Kap. XIX.

### Daudi Domars.

Domarr hét sonr Domalda, er þar nærst réd ríki; hann réd lengi fyrir londum, ok vard þá gód árferd og fridr um hans daga. Frá honum er ecki sagt annat, enn hann vard sóttdaudr at Uppsølum, ok var færdr á Fyrisvøllu, ok brendr þar á árbackanum, ok eru þar bautasteinar hans. Sva segir Þjódólfr:

Ok ek þess opt  
Of Yngva hrær

Fróda menn  
Of fregit hafda,

Hvar

Hvar Domarr
A dynjanda
Bana hálfs
Of borin væri.

Nú ek þat veit
At verk bitinn
Siølnis nidr
Vid Fhri brann.

## Kap. XX.

### Daudi Dyggva.

Dyggvi hét son hans, er þar nærst réd løndum, ok er frá honum ecki sagt annat, enn hann vard sóttdaudr. Sva segir Þjódólfr:

Kvedkat ek dyl
Nema Dyggva hræ
Glitnis gná
At gamni hefir;
Þvíat jódís
Ulfs ok narfa

Konúngmann
Kjósa skyldi.
Ok all-vald
Yngva þjódar
Loka mær
Of leikinn hefir.

Módir Dyggva var Drótt, dóttir Danps Konúngs, sonar Rigs, er fyrstr var Konúngr kalladr á danska túngu: hans áttmenn høfdu ávallt sídan Konúngs nafn fyrir et æzta tignar nafn, Dyggvi var fyrstr Konúngr kalladr sinna ættmanna; en ádr vóru þeir drottnar kalladir: en konur þeirra drottníngar, en drótt hyrdsveitin. En Yngvi edr Ynguni var kalladr hverr þeirra ættmanna alla æfi, en Ynglíngar allir saman. Drótt drottníng var systir Dans Konúngs ens mikil-láta, er Danmørk er vidkénnd.

## Kap. XXI.

### Frá Dag spaka.

Dagr hét son Dyggva Konúngs, er konúngdóm tók eptir hann; hann var mâdr svo spakr, at hann skildi fugls-rödd: hann átti spørr einn, er honum sagdi mørg tídindi; flaug hann á ymsi lønd. Þat var eitt sinn, at spørrinn flaug á Reidgotaland, á bæ þann, er á Vørva heitir; hann flaug í akr karls, ok fêck þar matar. Karl kom þar, ok tók upp stein, ok laust spørrinn til bana. Dagr Konúngr vard ílla vid, er spørrinn kom ecki heim; gêck hann þá til sonar blóts, til fréttar, ok feck þau svør, at spørr hans var drepinn á Vørva. Sidan baud hann út her miklum, ok fór til Gotlands. En er hann kom á Vørva, gêck hann upp med her sinn ok herjadi: fólkit flýdi víds vegar undan. Dagr Konúngr sneri herinum til skipa er qvøldadi, ok hafdi drepit margt fólk, ok margt handtekit. En er þeir fóru yfir á nockra, þar sem heitir Skjótans-vad edr Vapna-vad, þá rann fram úr skógi einn verkþræll á árbackann, ok skaut heytjúgu í lid þeirra, ok kom í høfut Konúngi skotid: féll hann þegar af hestinum, ok fêck bana: fóru menn hans aptr til Svíþjódar. Í þann tíma var sá høfdíngi gramr kalladr, er herjadi, en hermennirnir gramir. Sva segir Þjódólfr.

Frá ek at Dagr Frægdar-fús
Dauda ordi Of fara skyldi.

Þá

Þá er valteins
Til Vørva-kom
Spakfrømuðr
Spørs at hefna.
Ok þat orð
A austr-vega

Vísa ferð
Frá vígi bar,
At hann gram
Of geta skyldi
Sleyngu þref
Sleipnis verðar.

## Kap. XXII.
### Frá Agna.

Agni hét sonr Dags, er Konúngr var eptir hann, ríkr maðr ok ágætr, hermaðr mikill, atgérvi maðr mikill um alla luti. Þat var eitt sumar, er Agni Konúngr fór með her sinn á Finnland, gékk þar upp ok herjaði. Finnar drógu saman lið mikit, ok fóru til orrustu. Frosti er nefndr høfdíngi þeirra. Varð þar orrosta mikil, ok fékk Agni Konúngr sigr; þar féll Frosti, ok mikit lið með honum. Agni Konúngr fór herskildi um Finnland, ok lagði undir sik, ok fékk stórmikit herfáng. Hann tók ok hafði með sér Skjálf dóttur Frosta, ok Loga bróður hennar. En er hann sigldi austan, lagði hann til Stocksunda; hann setti tjøld sín suðr á fitina: þar var þá skógr. Agni Konúngr átti þá gullmenit, þat er Visburr hafði átt. Agni Konúngr gékk at eiga Skjálf; hún bað hann at gêra erfi eptir feður sinn. Hann bauð þá til sín mørgum ríkismønnum, ok gerði veitslu mikla; hann var allfrægr orðinn af før þessi:

þá vóru þar dryckjur miklar. En er Agni Konúngr gerdiz druckinn, þá bad Skjálf hann gæta vel mensins, er hann hafdi á hálsi: hann tók til, ok batt ramliga menit á háls sér, ádr hann gengi at sofa; en landtjaldit stód vid skóginn, ok hátt tré yfir tjaldinu, þat er skýla skyldi vid sólar-hita. En er Agni Konúngr var sofnadr, þá tók Skjálf snæri, ok festi undir menit; menn hennar slógu þá landtjald-staungunum, en køstudu lykju snærisins upp í limar trésins; drógu sídan, sva at Konúngr héck næst uppi vid limar, ok var þat hans bani. Skjálf ok hennar menn ljópu á skip, ok réru í brott. Agni Konúngr var þar brendr, ok er þar sídan køllut Agna-fit, á austanverdum taurinum, vestr frá Stockssundi. Sva segir Þjódólfr:

| | |
|---|---|
| Þat tel ek undr | Loga dís |
| Er Agna herr | At lopti hóf. |
| Skjálfar rád | Hinn er vid taur |
| At køpum þóttu; | Temja skyldi |
| Þá er gæding | Svalan hest |
| Med gullmeni | Signýar vers. |

## Kap. XXIII.

### Frá Alreki ok Eiríki.

Alrekr ok Eiríkr hétu synir Agna, er Konúngar vóru eptir hann: þeir vóru ríkir menn ok hermenn miklir, ok íþrótta-menn. Þat var sidvenja þeirra, at rída hesta, temja bædi vid gáng

gáng ok við laup; kunnu þeir þat allra manna bezt; lögðu þeir á þat et mesta kapp, hverr betr reið, eðr betri hesta ætti. Þat var eitt sinn, at þeir bræðr riðu tveir frá ödrum mönnum með hina beztu hesta sína, ok riðu út á völlu nockora, ok komu ecki aptr: var þeirra leita farit, ok funnuz þeir báðir dauðir, ok lamit höfut á báðum; en ecki vapn höfðu þeir nema bitlana af hestonum, ok þat hyggja menn at þeir hafi drepiz þar með. Sva segir Þjóðólfr:

Fiell Alrekr
Þar er Eiríki
Bróður vapn
At bana urðu.
Ok hnack-mars með
Höfutfetlum
Dags frændur
Of drepaz kváðu.
Fráat maðr áðr
Eykja gærvi
Freys afspríng
I fólk hafa.

## Kap. XXIV.
### Frá Alfi ok Yngva.

Yngvi ok Alfr vóru synir Alreks, er konúngdóm tóku í Svíþjóð þar næz. Var Yngvi hermaðr mikill ok allsigrsæll; friðr ok íþróttamaðr hinn mesti, sterkr ok hinn snarpasti í orrostum, mildr af fé, ok gleðimaður mikill: af sliku öllu varð hann frægr ok vinsæll. Alfr Konúngr bróðir hans sat at löndum, ok var ecki í hernaði; hann var kallaðr Elfsi: hann var maðr þegull, riklundaðr ok óþýðr. Móðir hans hét Dageiðr, dóttir Dags Konúngs ens ríka, er Döglíngar eru frákomnir. Alfr Konungr átti

átti konu er Bera hêt, qvenna frídust ok skörúngr mikill, gledimadr hinn mesti Yngvi Alreksson var þá enn eitt haust kominn úr víkíngu til Uppsala, ok var þá hinn frægsti; hann sat opt vid dryckju lengi um qvøldum: Alfr Konúngr geck opt snimma at sofa. Bera drottníng sat opt lengi á qveldum, ok tøludu þau Yngvi sér gaman. Alfr rœddi opt um vid hana, at hún skyldi ecki sitja svo lengi um aptna; bad hana fara fyrr at sofa, sagdi at hann vildi ecki vaka eptir henni. Hún segir: at sú kona væri sæl, er heldr skyldi ega Yngva enn Alf: hann reiddiz því mjøk, er hún mælti þat opt. Eitt qvøld geck Alfr inn í høllina, þá er þau Yngvi ok Bera sátu í hásæti ok tøluduz vidr; hafdi Yngvi um kné sér mæki; menn vóru mjøk drucknir, ok gáfu engan'n gaum at Konúngrinn kom inn. Alfr Konúngr geck at hásætinu, brá sverdi undan skickjo, ok lagdi í gêgnum Yngva bródur sinn: Yngvi ljóp upp, ok brá mækinum, ok hjó Alf banahøgg, og féllu þeir bádir daudir á gólfit. Vóru þeir Alfr ok Yngvi heygdir á Fyris-vøllum. Sva segir Þjódólfr:

Ok vard hinn
Er Alfr of vá
Vordr vestallz
Ofvepinn liggja;
Er døglíngr
Drærgann mæki
Ofund gjarn
A Yngva raud.

Vara þat bært
At Bera skyldi
Valsæfendur
Vígs of hvetja;
Þá er, brædur tveir
At bønum urduz
Ofurfendir
Of afbrýdi.

Kap.

## Kap. XXV.

### Fall Hugleiks Konúngs.

Hugleikr hét son Alfs, er konúngdóm tók yfir Svíum, eptir þá brædur, þvíat synir Yngva vóru þá børn at aldri. Hugleikr Konúngr var engi hermadr, ok sat hann at løndum í kyrrsæti: hann var audigr mjøk, ok kalladr heldr sínkr af fé. Hann hafdi mjøk í hýrd sinni allskonar leikara, harpara ok gígjara ok fidlara; hann hafdi ok med sér seidmenn ok allskonar fjølkunnigt fólk. Haki ok Hagbardr hétu brædur tveir, ok vóru ágætir mjøk, þeir vóru sjá-konúngar, ok høfdu lid mikit; fóru stundum bádir samt, en stundum sér hvarr þeirra: margir kappar vóru med hvarumtveggjum þeirra. Haki Konúngr fór med her sinn til Svíþjódar, á hendur Hugleiki Konúngi, en Hugleikr Konúngr samnadi her fyrir: þá komu til lids vid hann brædur tveir, Svipdagr ok Geigadr, ágætir menn bádir, ok hinir mestu kappar. Haki Konúngr hafdi med sér 12 kappa: þar var þá Starkadr hinn gamli med honum: Haki Konúngr var ok hinn mesti kappi. Þeir hittuz á Fýris-vøllum; vard þar orrosta mikil; féll brátt lid Hugleiks Konúngs. Þá sóttu fram kapparnir Svipdagr ok Geigadr; en kappar Haka gengu 6 á móti hvarum þeirra, ok urdu þeir handteknir: þá geck Haki Konúngr inn í skjaldborg at Hugleiki Konúngi, ok drap hann þar, ok sonu hans tvo. Eptir þat

þat flýdu Svíar, en Haki Konúngr lagdi nú lønd undir sik, ok gørdiz Konúngr yfir Svíum. Hann sat þá at løndum 3 vetr; en í þvi kyrr-sæti fóru kappar hans frá honum, ok í víking, ok fengu sér sva fjár.

## Kap. XXVI.

### Daudi Gudlaugs Konúngs.

Jørundr ok Eiríkr vóru synir Yngva Alreksſonar; þeir lágu úti á herſkipum þessa hríd alla, ok vóru hermenn miklir. A einu sumri herjudu þeir í Danmørk, ok þá hitto þeir Gudlaug Háleyja Konúng, ok áttu vid hann orrostu; ok lauk sva at ſkip Gudlaugs var hrodit, en hann vard handtekinn: þeir fluttu hann til lands á Straumeyarnes, ok heingdo hann þar: urpu menn hans þar haug eptir hann. Sva ſegir Eyvindr Skálda-ſpillir:

En Gudlaugr
Grimman tamdi
Vid ofrkapp
Anſir konúnga
Sigars jó,
Er synir Yngva
Menglotud
Vid meid reido.

Ok ná-reidr
A nesi drupir
Vinga meidr
Þar er víkur deilir.
Þar er fjølkynt
Um fylkis hrær
Steini merkt
Straumeyarnes.

Kap.

## Kap. XXVII.

### Frá Haka Konúngi.

Eirikr ok Jørundr brædur urdo af verki þessu frægir mjøk, þóttuz þeir miklu meiri menn enn ádr. Þeir spurdo at Haki Konúngr í Svíþjód hafdi sendt frá sér kappa sína; þá halda þeir til Svíþjódar, ok draga sídan her at sér. En er Svíar spýrja at Ynglíngar erú þar komnir, fer fjøldi lids til þeirra. Sídan leggja þeir í Løginn upp, ok halda til Uppsala, á hendur Haka Konúngi; en hann fer í móti þeim á Fýrisvøllo, ok hafdi lid miklo minna: vard þar mikil orrusta, gêck Haki Konúngr fram sva hart, at hann felldi alla, þá er honum vóru næztir, ok at lyktum felldi hann Eirik Konúng, ok hjo nidr merki þeirra brædra. Þá flýdi Jørundr Konúngr til skipa, ok allt lid hans. Haki Konúngr fêck sva stór sár, at hann sá at hans lífdagar mundo ecki lángir verda: þá let hann taka skeid er hann átti, ok lét hlada daudum mønnum ok vapnom, lét þá flytja út til hafs, ok leggja stýri í lag, ok draga upp segl, en leggja eld í týr-vid, ok gøra bál á skipinu. Vedr stód af landi: Haki var þá atkominn dauda edr daudr, er hann var lagidr á bálit: gêck skipit logandi út um eyar í haf, ok vár þetta allfrægt lengi sídan.

## Kap. XXVIII.

### Daudi Jørundar.

Jørundr son Yngva Konúngs vard Konúngr at Uppsölum, hann réd þá löndum, ok var optliga á sumrum í hernadi. A einhverju sumri fór hann med her sinn til Danmerkur; hann herjadi um Jótland, ok fór um hanstit inn í Limafjørd, ok herjadi þar; hann lá lidi sínu í Oddasundi. Þá kom þar med her mikinn Gylaugr Háleya Konúngr, sonr Gudlaugs Konúngs, er fyrr var gétit; hann leggr til orrustu vid Jørund. En er landsmenn urdu þess varir, drífa þeir til úr öllom áttom, bædi med stórom skipom ok smám; verdr þá Jørundr Konúngr ofrlidi borinn, ok hrodit skip hans; hljóp hann þá á sund, ok vard hann handtekinn, ok leiddr á land upp: lét þá Gylaugr Konúngr reisa gálga, leidir hann Jørund þar til, ok lætr hengja hann, lykur sva hans æfi. Sva segir Þjódólfr:

Vard Jørundr
Hinn er endr of dó
Lífs of lattr
J Limafirdi.
Þá er hábjóstr
Horva sleipnir

Bana Gudlaugs
Of bera skyldi;
Ok Hagbards
Hersa valdi
Haudno leif
At hálsi geck.

## Kap. XXIX.

### Daudi Ans Konúngs.

Ön edr Ani hét sonr Jørundar, er Konúngr var yfir Svíum eptir födur sinn;

hann var vitr madr ok blótmadr mikill; engi var hann hermadr, ok sat at løndum. J þann tíma er þessir Konúngar vóru at Uppsølum, er nú var fráságt, var yfir Danmørku fyrst Danr hinn Mikil-láti; hann vard allgamall: þá sonur hans Fródi hinn Mikil-láti, edr hinn Fridsami: þá hans synir Hálfdan ok Fridleifr; þeir vóru hermenn miklir. Hálfdan var ellri, ok fyrir þeim of allt: hann fór med her sinn til Svíþjódar á hendur Ön Konúngi, ok átto þeir orrostor nockorar, og hafdi Hálfdan jafnan sigr; ok at lyktum flýdi Ön Konúngr í vestra Gautland: þá hafdi hann verit Konúngr yfir Uppsølum 25 vetra. Hann var ok í Gautlandi 25 vetra, medan Hálfdan Konúngr var at Uppsølum. Hálfdan Konúngr vard sóttdaudr at Uppsølum, ok er hann þar heygdr. Eptir þat kom Ön Konúngr enn til Uppsala, þá var hann sextugr. Þá gërdi hann blót mikit, ok blet til lánglífis sèr, ok gaf Odni son sinn, ok var honum blótinn. Ön Konúngr fèck þau andsvør af Odni, at hann skyldi enn lifa 60 vetra: Ön var þá enn Konúngr at Uppsølum fimm vetra ok tuttugu. Þá kom Ali hinn Frækni med her sinn til Svíþjódar, sonr Fridleifs Konúngs, á hendur Ön Konúngi, ok átto þeir orrustur, ok hafdi Ali jafnan sigr. Þa flýdi Ani Konúngr í annad sinn riki sitt, ok fór í vestra Gautland. Ali var Konúngr at Uppsølum 25 vetor, ádr Starkadr hinn Gamli drap

C 2 hann.

hann. Eptir fall Ala fór Ön Konúngr enn aptr til Uppsala, ok réd þar ríkinu enn 25 vetor. Þá gérdi hann blót mikit til lánglífis sér, ok blótadi ødrum syni sínum: þá svarar Odinn honum, at hann skyldi æ lifa, medan hann gæfi Odni son sinn et tiunda hvert ár, ok þat med, at hann skyldi heiti gefa nockoru héradi í landi sínu, eptir tølu sona sinna, þeirra er hann blótadi til Odins. En þá er hann hafdi blótat 7 sonum sínum, þá lifdi hann 10 vetr, sva at hann mátti ecki gánga, var hann þá á stóli borinn. Þá blótadi hann ennm 8da syni sínum, ok lifdi hann þá enn 10 vetra, ok lá þá í kør. Þá blótadi hann enn ennm 9da syni sínum, ok lifdi þá enn 10 vetra: þá dráck hann horn sem lébarn. Þá átti hann einn son eptir, ok vildi hann þá blóta þeim, ok þá vildi hann gefa Odni Uppsali, ok þau hérud er þar liggja til, ok láta kalla þat tiunda-land. Sviar bønnudu honom þat, ok vard þá ecki blót. Sidan andadist Ön Konúngr, ok er hann heygdr at Uppsølum. Þat er sídan kellut Ana-sótt, er madr deyr verklaus af elli. Sva segir Þjódólfr:

Knátti endr | Odru sinni.
At Uppsølum | Ok sveiduds
Ana sótt | At ser hverfdi
Ön of standa; | Mækis lut
Ok þrálífr | Enn mjóvara.
Þyggia skyldi | Er okfeins
Jóds adal | Atúnga rjódr

Løg-

Løgdís odd
Liggjandi drack.
Máttit hárr
Mæki hiardar
Austr-konúngr
Upp of halda.

## Kap. XXX.

### Frá Egli Tunna dólgi.

Egill hét son Ons hins Gamla, er Konúngr var eptir fødur sinn í Svíþjód; hann var engi hermadr, ok sat at løndum í kyrrsæti. Tunni hét þræll hans, er verit hafdi med Ana hinum Gamla, rádagjørdamadr ok féhyrdir hans. En er Ani var andadr, þá tók Tunni of lausafjár ok gróf í jørd nidr. En er Egill var Konúngr, þá setti hann Tunna med þrælum ødrum: hann kunni því stórilla, ok ljóp í brott, ok med honum margir þrælar, ok tóko þá upp lausaféit er Tunni hafdi fólgit; gaf hann þat mønnum sínum, en þeir tóko hann til høfdíngja. Sídan dreif til hans mart íllþýdis fólk; lágu þeir úti á mørkum, en stundum hljópu þeir í hérod, ok ræntu menn eda drápu. Egill Konúngr spurdi þetta, ok fór at leita þeirra med lidi sínu; en er hann hafdi tekit sér náttstad á einni nótt, þá kom þar Tunni med lidi sínu; ok ljóp á þá óvara, ok drápu lid mikit af Konúngi. En er Egill Konúngr vard var vid úfrid, þá snériz hann til vidtoku, ok setti upp merki sitt; en lid flýdi margt frá honum, þvíat þeir Tunni sóttu at djarft: sá þá Egill Konúngr

engann annann sinn kost enn flýa. Þeir Tunni ráku þá flóttann allt til skógar; sídan fóro þeir aptr í bygdina, herjudo ok rændu, ok fengu þá enga mótstødu. Fé þat allt er Tunni tók í héradinu, gaf hann lidsmonnum sínum; vard hann af því vinsæll ok fjølmennr. Egill Konúngr samnadi her, ok fór til orrosto í móti Tunna; þeir børduz, ok hafdi Tunni sigr, en Egill Konúngr flýdi, ok lét lid mikit. Þeir Egill Konúngr ok Tunni áttu 8ta orrostur ok hafdi Tunni sigr í øllum. Eptir þat flýdi Egill Konúngr landit, ok hélt til Danmerkur í Selund, til Fróda hins Frœkna: hann hét Fróda Konúngi til lids skatti af Svíum: fékk þá Fródi honum her ok kappa sína; fór þá Egill Konúngr til Svíþjódar. En er Tunni spyr þat, fór hann í móti honum med lid sitt; vard þá orrusta mikil: þar féll Tunni, en Egill Konúngr tók þá vid ríki sínu, en Danir fóru aptr. Egill Konúngr sendi Fróda Konúngi gódar gjafir ok stórar, á hverjom misserum, en gallt engann skatt Dønum, ok héllz þó vinfengi þeirra Fróda. Sídan er Tunni féll réd Egill Konúngr einn ríkinu 3 vetur. Þat vard í Svíþjódu, at griðúngr sá er til blóts var ætladr, var gamall ok aliun svo kappsamliga, at hann var mannygr; en er menn vildu taka hann, þá ljóp hann á skóg ok vard galinn, ok var lengi á vidum, ok hinn mesti spellvirki vid menn. Egill Konúngr var veidimadr mikill; hann reid um daga optliga á markir, dýr at veida. Þat var eitt

eitt sinn, at hann var ridinn á veidar vid menn sína. Konúngr hafdi ellt dýr eitt lengi, ok hleypti eptir í skóginn frá öllum mönnum: þá verdr hann varr vid gridúnginn, ok reid til, ok vill drepa hann; gridúngrinn sneyri í móti, ok kom Konúngr lagi á hann, ok skar úr spjótit: gridúngrinn stack hornunum á sídu hestinum, sva at hann fell þegar flatr, ok sva Konúngrinn. Þá ljóp Konúngr á fætur, ok vill bregda sverdi; gridúngrinn stack þá hornunum fyrir brjóst honum, sva at á kafi stód. Þá komo at Konúngs menn, ok drápu gridúnginn. Konúngr lifdi litla hríd, ok er hann heygdr at Uppsölum. Sva segir Þjódólfr:

Ok lofsæll
Ur landi sló
Týs áttúngr
Tunna riki;
En flæmíng
Farra trjóno
Jötuns eykr
A Agli raud

Sá er of austrmörk
Adan hafdi
Brúna hörg
Of borinn lengi.
En skídlaus
Skilfinga nid
Hæfis hjörr
Til hjarta stód.

## Kap. XXXI.

### Frá Ottari Vendilkráku.

Ottar hét son Egils, er riki ok konúngdóm tók eptir hann: hann vingadiz ecki vid Fróda Konúng. Þá sendi Fródi Konúngr menn til Ottars Konúngs, at heimta skatt, þann er Egill hafdi heitit honum. Ottar

svaradi sva: at Svíar hefdo aldrei skatt goldit Dønum; segir, at hann mundi ok sva géra: fóro aptr sendimenn. Fródi var hermadr mikill. Þat var á einu sumri, at Fródi fór med her sinn til Svíþjódar; gørdi þar upprásir ok herjadi; drap margt fólk, en sumt hertók hann; féck hann þar allmikit herfáng, hann brendi ok vida bygdina, ok gérdi et mesta hervyrki. Annat sumar fór Fródi Konúngr at herja í austrveg; þat spurdi Ottar Konúngr, at Fródi Konúngr var ecki í landino. Þá stigr hann á herskip, ok fer út í Danmørk, ok herjar þar; ok fær enga mótstødu. Hann spyrr, at samnadr mikill var á Selundi; stefnir hann þá vestr í Eyrarsund, siglir þá sudr til Jótlands, ok leggr í Limafjørd, ok herjar þa á Vendli; brennir þar, ok gørir mjøk aleyda landit, þar sem þeir komu. Vøttr ok Fasti hétu Jarlar Fróda, þá hafdi Fródi sett til landvarnar í Danmørk, medan hann var úr landi. En er Jarlar spurdu, at Svía Konúngr herjadi í Danmørk, þá samna þeir her, ok laupa á skip, ok sigla sudr til Limafjardar; koma þar mjøk á óvart Ottari Konúngi, leggja þegar til orrosto; taka Svíar vel í mót, fellr lid hvaratveggjo. En sva sem lid fellr af Dønum, kom annat meira þar or hérodum, ok sva var til lagt øllum skipum þeim, er í nánd vóru. Lýkr sva orrostu, at þar féll Ottar Konúngr, ok mestr luti lids hans. Danir tóku lík hans, ok fluttu til lands, ok løgdu uppá haug einn, ok

létu

lêtu þar rísa dýr ok hrafna hræin, þeir gêra af tré kráku eina, ok sendo til Svíþjódar, ok segja at ecki var meira verdr Ottar Konúngr þeirra. Þeir kølludu sídan Ottar Vendilkráko. Sva segir Þjódólfr:

Fjell Ottar
Und ara greipar
Ugnanligr
Fyrir Dana vapnom;
Þann hergammr
Hrægum fæti
Vitz borinn
A Vendli sparn.
Þau frá ek verk
Vøtz ok Fasta
Sænskri þjód
At søgum verda;
At eylands
Jarlar Fróda
Víg framad
Ok veginn høfdo.

## Kap. XXXII.

### Kvanfáng Adils Konúngs.

Adils hét son Ottars Konúngs, er konúngdóm tók eptir hann; hann var lengi Konúngr, ok vard mjøk audigr, var hann ok nockor sumor í víking. Adils Konúngr kom med her sinn til Saxlands: þar rêdi fyrir Konúngr, er Geirþjófr hêt, en kona hans hêt Aløf hin ríka; ecki er gêtit barna þeirra; Konúngr var ecki í landinu. Adils Konúngr ok menn hans runnu upp til Konúngs bæjar, ok ræntu þar; sumir reka ofan hjord til strandarhøggs. Hjardarinnar hafdi gætt ánaudigt fólk, karlar ok konur, ok hafdu þeir þat allt med sér. J því lidi var mær ein, undarliga fegur; sú nefndiz Yrsa. Fór þá Adils Konúngr heim med herfáng.

Yrsa var ecki 'med ambáttum; brátt fanz þat, at hún var vitr ok vel ordum farin, ok allra luta vel kunnandi; fanz mennum mikit um hana, ok þó Konúngi mest; kom þá sva at Adils gërdi brullaup til hennar. Var Yrsa þá drottning í Svíþjód, ok þótti hún hinn mesti skørúngr.

## Kap. XXXIII.

### Daudi Adils Konúngs.

Helgi Konúngr Hálfdanarson réd þá fyrir Hleidro; hann kom til Svíþjódar med her sva mikinn, at Adils Konúngr sá engann annann sinn kost, en flyja undan. Helgi Konúngr geck þar á land med her sinn, ok herjadi, fèck mikit herfáng; hann tók høndum Yrsu drottníng, ok hafdi med sér til Hleidrar, ok geck at eiga hana. Þeirra son var Rólfr Kraki. En er Rólfr vár þrevetr, þá kom Aløf drottning til Danmerkur, sagdi hún þá Yrsu drottníngu, at Helgi Konúngr madr hennar, var ok fadir hennar, en Aløf módir hennar. Fór þá Yrsa aptr til Svíþjódar til Adils Konúngs, ok var þar drottníng medan hún lifdi sídan. Helgi Konúngr fèll þ hernadi; Rólfr Kraki var þá 8 vetra, ok var þá til Konúngs tekinn at Hleidru. Adils Konúngr átti deilur miklar vid Konúng þann er Áli hét hinn Upplendski; hann var úr Norvegi. Þeir Adils Konúngr ok Áli Konúngr áttu orrostu á Væris ísi; þar fèll Áli Kon-

Konúngr, en Adils hafdi sigr. Frá þessari orrosto er lángt sagt í Skjøldúnga Søgu, ok sva frá því, er Rólfr Kraki kom til Uppsala, til Adils; þá seri Rólfr Kraki gullinu á Fyris-vøllu. Adils Konúngr var mjøk kærr at gódum hestum; hann átti ena bestu hesta í þann tíma: Sløngvir hét hestr hans, en annar Hrafn; þann tók hann af Ala daudum, ok þar var undir alinn annar hestr, er Hrafn hét, þann sendi hann til Hálogalands Godgésti Konúngi; þeim reid Godgéstr Konúngr, ok fekk ecki stødvat ádr hann fell af baki ok fékk bana; þat var í Ømd á Hálogalandi. Adils Konúngr var at Dísa-blóti, ok reid hesti um dísar salinn; hestrinn drap fótum undir honum, ok féll, ok Konúngr af fram, ok kom høfut hans á stein, sva at hausinn brotnadi, en heilinn lá á steininum; þat var hans bani. Adils dó ad Uppsølum, ok er þar heygdr: kølludu Svíar hann ríkann Konúng. Sva segir Þjódólfr:

Þat frá ek enn
At Adils fjørvi
Vitta vettr-
Of vida skyldi.
Ok dádgjarn
Af drasils bógom
Freys áttúngr
Falla skyldi.

Ok vid aur
Ægir-hjarna
Bregníngs burs
Of blandinn vard.
Ok dádsæll
Deya skyldi
Ala dólgr
At Uppsølum.

## Kap. XXXIV.

### Fall Rólfs Kraka.

Eysteinn hét son Adils, er þar næz réd Svíaveldi; á hans dogum féll Rólfr Kraki at Hleidro. I þann tíma herjudu Konúngar mjøk í Svía-veldi., bædi Danir ok Nordmenn. Vóro margir sækonúngar þeir er rédu lidi miklu, ok áttu engi lønd; þótti sa einn med fullu heita mega sækonúngr, er hann svaf aldri undir sótkum ási, ok drack aldri at arinshorni.

## Kap. XXXV.

### Frá Eysteini ok Sølva Jóta Konúngi.

Sølvi hét Sækonúngr, sonr Høgna í Niardøy; er þá herjadi í Austrveg: hann átti ok ríki á Jótlandi; hann héllt lidi sínu til Svíþjódar. Þá var Eysteinn Konúngr at veizlu í héradi, þar er í Lofønd heitir: þar kom Sølvi Konúngr á óvart um nótt, ok tók hús á Konúngi, ok brendi hann inni med hyrd sína alla. Þá fer Sølvi til Sigtúna, ok beidir sér Konúngs nafns ok vidrtoku: en Svíar samna her, ok vilja verja honum landit, ok vard þar orrusta sva mikil, at þat er sagt at ecki sleit á 11 dægrum. Þar féck Sølvi Konúngr sigr, ok var hann þá Konúngr yfir Svía-veldi lánga hríd, allt þar til er Svíar svíko hann, ok var hann þar drepinn, Sva segir Þjódólfr: Veit

Veit ek Eysteins
Enda fólginn
Lokins lífs
A Lofundi;
At sikling
Med Svíum kvádu
Jótska menn
Inni brenna.

Ok bit-sótt
I brand-nói
Hlídar þángs
A hilmi rann.
Pá er timbrfastr
Toptar neqvi
Flotva.fullr
Of fylki brann.

## Kap. XXXVI.

### Dráp Yngvars Konúngs.

Yngvarr hét son Eysteins Konúngs, er þá var Konúngr yfir Svíaveldi; hann var hermadr mikill ok var opt á herskipum: þviat þá var ádr Svíaríki miøk herskátt, bædi af Dønum ok Austrvegs-mønnum. Yngvarr Konúngr gérdi frid vid Dani; tók þá at herja um Austrvegu. A einu sumri hafdi hann her úti, ok fór til Eistlands, ok herjadi þar um sumarit, sem hét at Steini; þá komu Eistir ofan med mikinn her, ok áttu þeir orrostu; var þá landherinn sva drjúgr, at Svíar fengu ecki mótstødu veitt; féll þá Yngvar Konúngr, en lid hans flýdi: hann er heygdr þar vid sjá sjálfann; þat er á Adalsyslu. Fóru Svíar heim eptir ósigr þenna. Sva segir Þjódólfr:

Pat støck upp
At Yngvari
Sýslu-kind
Of sóat hefdi.

Ok ljós-hømum
Vid lagar hjarta
Her eistneskr
At hilmi vá.

Ok austmarr
Jofri sænskum
Gymis ljód
At gamni kvedr.

## Kap. XXXVII.

### Frá Braut-Ønundi Konúngi.

Ønundr hét son Yngvars, sá er næztr tók konúngdóm í Svíþjód. Um hans daga var fridr gódr í Svíþjód, ok vard hann mjøk audigr at lausafé. Ønundr Konúngr fór med her sinn til Eistlands, at hefna fødur síns; gèck þar upp med her sinn, ok herjadi vída um landit, ok fèck herfáng mikit; fer aptr um haustit til Svíþjódar. Um hans daga var ár mikit í Svíþjód. Ønundr Konúngr var allra Konúnga vinsælastr. Svíþjód er markland mikit, ok liggja þar sva eydimerkur, at margar dagleidir eru yfir. Ønundr Konúngr lagdi á þat kapp mikit ok kostnat, at rydja markir, ok byggja rudinn: hann lét ok leggja vego yfir eydimerkur, ok funnuz þá vida í mørkonom skóglaus lønd, ok bygdiz þar þá stór hérød. Vard af þessom hætti vídt land bygt, þvíat landsfólkit var gnægt til lands bygdarinnar. Ønundr Konúngr lét brjóta vego um alla Svíþjód, bædi um markir ok mýrar ok fjallvego: fyrir því var hann Braut-Ønundr kalladr. Ønundr Konúngr setti bú sín í hvert stór-hérad á Svíþjód; ok fór um allt landit at veizlum.

Kap.

## Kap. XXXVIII.

### Frá Ingjaldi Illráda.

Braut-Önundr átti son er Ingialdr hét. Þá var Konúngr á Fjadrýndalandi Yngvarr. Hann átti sonu tva vid konu sinni, hét annar Alfr en annar Agnarr. Þeir vóru mjök jafnaldrar Ingjalds. Vída um Svíþjód vóro í þann tíma hérads-konúngar Braut-Önundar, ok réd fyrir Tiundalandi Svipdagr Blindi. Þar eru Uppsalir; þar er allra Svía þing; vóru þar þá blót mikil; sóttu þannug margir Konúngar; var þat at midjum vetri. Ok einn vetr þá er komit var at midium vetri, var fjölmennt komit til Uppsala; var þar Yngvarr Konúngr ok synir hans: þeir vóru 6 vetra gamlir Alfr son Yngvars Konúngs ok Ingjaldr son Önundar Konúngs Þeir efldu til sveina leiks, ok skyldi hvarr ráda fyrir sínu lidi; ok er þeir léknz vidr, var Ingjaldr ósterkari enn Alfr, ok þótti honum þat sva íllt, at hann grét af mjök sva. Þá kom til Gautvidr fóstbrodir hans, ok leiddi hann í brott til Svipdags Blinda fósturfedur hans, ok sagdi honum at allilla hafdi atfarit, ok hann var ósterkari ok óþrótkari í leiknum enn Alfr son Yngvars Konúngs. Þá svarar Svipdagr, at þat væri mikil skøm. Annann dag eptir lét Svipdagr taka hjarta úr vargi, ok steikia á teini, ok gaf sídan Ingjaldi Konúngs syni at eta; ok þadan af vard hann allra manna grimmastr, ok verst skaplundadr. Ok

er Ingjaldr var roskinn, þá bad Önundr kono til handa honum, Gauthildar dóttur Algauta Konúngs; hann var son Gautreks Konúngs hins Milda, sonar Gauts er Gautland er vidkennt. Algautr Konúngr þóttist vita at hans dóttir mundi allvel gipt, ef hún væri syni Önundar Konúngs gefin, ef hann hefdi skaplyndi fedur síns: ok var mærin send til Svíþjódar, ok gerdi Ingjaldr brullaup til hennar þegar er tími er til þess.

## Kap. XXXIX.

### Daudi Önundar.

Önundr Konúngr fór milli búa sinna á einu hausti, med hyrd sinni, ok fór þann veg sem kalladr er Himinheidr, þat eru fjall-dalir nockurir þraungvir, en há fjøll tveim megin, þá var mikit regn, en ádr hafdi snjá lagt á fjøllin. Þar ljóp ofan skrida mikil med grjóti ok leiri: þar vard fyrir Önundr Konúngr, ok lid hans; fær Konúngr bana, ok margt lid med honum. Sva segir Þjódólfr:

Vard Önundr
Jonakurs bura
Harmi heptr
Und himin-fjøllum:
Ok of vęg
Eistrā dólgi

Heipt hrísungs
At hendi kom:
Ok sá frømndr
Foldar beinum
Høgna hrærs
Of horfinn var.

## Kap. XL.

### Brenna at Uppsölum.

Þá tók konúngdóm Ingjaldr son Önundar Konúngs yfir Svíum. Uppsala Konúngar vóru ættir Konúnga í Svíþjóð, þá er þar vóru margir Hérads-konúngar, frá því er Odinn var höfdíngi í Svíþjóð. Vóru einvalds höfdíngjar þeir er at Uppsölum sátu, um allt Svía-veldi, til þess er Agni dó; en þá kom ríkit fyrst í brædra skipti, sva sem fyrr er ritit: en sídan dreifdiz ríki ok konúngdómr í ættir, sva sem þær greinduz: en sumir Konúngar ruddu marklönd stór, ok bygdu þar, ok jóku þannug ríki sitt. En þá er Ingjaldr Konúngr tók ríkit ok konúngdóm, vóru margir Hérads-konúngar, sem fyrr er ritit. Ingjaldr Konúngr lét búa veizlu mikla at Uppsölum, ok ætladi at erfa Önund Konúng födur sinn; hann lét búa sal einn, engum mun minna, edr úvegligra, enn Uppsalr var, er hann kalladi 7 Konúnga sal; þar vóru í ger 7 hásæti. Ingjaldr Konúngr sendi menn um alla Svíþjód, ok baud til sín Konúngom ok Jerlom, ok ödrom merkis-mönnom. Til þess erfis kom Algauti Konúngr mágr Ingjalds, ok Yngvarr Konúngr af Fjadrvndalandi, ok synir hans tveir Alfr ok Agnarr; Sporsnjallr Konúngr af Nærki; Sigvatr Konúngr af Attundalandi; Granmarr Konúngr af Sudrmanna-



Nor. K. S. 1. Hefti.

mannalandi var ecki kominn. Þar var 6 Konúngum skipat í hinn nýa sal. Var þá eitt hásæti audt, þat er Ingjaldr Konúngr hafdi búa látit. Öllu lidi því er til var komit, var skipat í hinn nýa sal. Ingjaldr Konúngr hafdi skipat hyrd sinni ok öllu lidi sínu í Uppsal. Þat var sidvenja í þann tíma, þar er erfi skyldi gjöra eptir Konúnga edr Jarla, þá skyldi sá er gërdi erfit, ok til arfs skyldi leida, sitja á skerinni fyrir hásætinu, allt þar til er inn væri borit full, þat er kallat var Braga-full; skyldi sá þá standa upp í móti Braga-fulli, ok strengja heit, drecka af fullit sídan: sídan skyldi hann leida í hásæti þat, sem átti fadir hans; var hann þá kominn til arfs alls eptir hann. Nú var sva hér gert, at þá er Braga-full kom inn, stód upp Ingjaldr Konúngr, ok tók vid einu dyrshorni miklu, strengdi hann þá heit, at hann skyldi auka ríki sitt hálfu í hvorja hefut átt, edr deya ella; drack af sídan af horninu. Ok er menn vóru druknir um kveldit, þá mælti Ingjaldr Konúngr til Folkvidar ok Hylvidar sona Svipdags, at þeir skyldu vopnaz ok lid þeirra, sem ætlad var um kveldit: þeir gengu út, ok til ins nýa sals, báru þar eld at, ok því næz tók salrinn at loga, ok brunnu þar inni 6 Konúngar, ok lid þeirra allt: en þeir er út leitadu, þá vóru skjótt drepnir. Eptir þetta lagdi Ingjaldr Konúngr undir sik ríki þessi öll, er Konúngar þessir hefdu átt, ok tók skatta af.

Kap.

## Kap. XLI.
### Avanfáng Hjørvardar.

Granmarr Konúngr spurdi þessi tídindi, ok svik þessi øll; þá þóttiz hann vita at honum mundi slikr kostr hugadr, ef hann gyldi ecki varúd vid. Þat sama sumar kémr med lidi sinu Hjørvardr Konúngr, er Ylfingr var kalladr, til Svíþjódar, ok lagdi í fjørd þann er Myrkvafjørdr heitir. En er Granmarr Konúngr spyr þat, sendi hann menn til hans, ok býdr honum til veizlo, ok øllu lidi hans. Hann þecktiz þetta; þviat hann hafdi ecki herjat á ríki Granmars Konúngs. Ok er hann kom til veizlunnar, þá var þar fagnadr mikill; ok um kveldit er full skyldi drecka, var þat sidvenja Konúnga þeirra er at løndum sátu, eda veizlum, er þeir létu gøra, at drecka skyldi á kveldum tvímenning, hvar sér karlmadr ok kona, svá sem inniz; en þeir sér er fleiri væri saman. En þat vóru víkinga løg, þótt þeir væri at veizlom, at drecka sveitar-dryckju. Hásæti Hjørvards Konúngs var búit gagnvart hásæti Granmars Konúngs, ok sátu allir hans menn á þann pall. Þá mælti Granmarr Konúngr vid Hildigunni dóttur sína, at hún skyldi búa sik, ok bera øl víkingum; hún var allra qvenna friduz; þá tók hún sylfur-kalk einn ok fyllti, ok gékk fyrir Hjørvard Konúng ok mælti: heilir allir Ylfingar at Rólfs minni Kraka! ok drack af til hálfs, ok seldi Hjørvardi

vardi Konúngi. Nú tók hann kalkinn ok hønd hennar med, ok mælti: at hún skyldi gánga at sitja hjá honum. Hún segir þat ecki víkinga sid, at drecka hjá konum tvímenning. Hjørvardr svarar: lét þess vera meiri von, at hann mundi þat skipti á géra, at láta heldr víkinga løgin, ok drecka tvímenning vid hana. Þá settiz Hildigudr hjá honum, ok drucku þau bædi saman, ok tøludu margt um qveldit. Eptir um daginn, er þeir Konúngarnir hittuz, Granmarr ok Hjørvardr, þá hóf Hjørvardr upp bónord sitt, ok bad Hildigudar. Granmarr Konúngr bar þetta mál fyrir konu sína Hildi, ok adra ríkismenn; ok segir at þeim mundi vera mikit traust at Hjørvardi Konúngi; ok nú vard rómr at; ok þótti þetta øllum rádligt; ok lauk sva, at Hildigudr var føstnod Hjørvardi Konúngi, ok gérdi hann brullaup til hennar; skyldi þá Hjørvardr Konúngr dveljaz med Granmari Konúngi, fyrir því at hann átti engann son til ríkis at vardveita med sér.

## Kap. XLII.

### Orrusta í Svíþjód Ingjalds ok þeirra mága Granmars ok Hjørvards.

Þat sama haust samnadi Ingjaldr Konúngr sér lidi, ok ætlar á hendur þeim mágum; hann hefir her úti af øllom þeim ríkjom, er ádr hafdi hann undir sik lagt. Ok er þat spyrja

spyrja þeir mágar, samna þeir lidi í síno ríki, ok kémr til lids vid þá Högni Konúngr ok Hildir son hans, er rédu fyrir eystra Gautlandi: Högni var fadir Hildar, er átti Granmarr Konúngr. Ingjaldr Konúngr geck á land upp med öllum her sinum, ok hafdi lid miklo meira; sígr þá saman orrusta, ok var hin hardasta. En er litla hríd hafdi bariz verit, þá flýa þeir höfdíngjar, er rédu fyrir Fjadryndalandi, ok Vestr-Gautum, ok af Næriki ok Attundalandi; ok állr sá herr er af þeim löndum hafdi farit, ok fóru til skipa sinna. Eptir þetta vard Ingjaldr Konúngr staddr náudugliga, ok féck sár mörg, ok komst vid þetta á flótta til skipa sinna. En þar féll Svipdagr Blindi fóstri hans, ok synir hans bádir Gautvidr ok Hylvidr. Ingjaldr Konúngr fór aptr vid sva búit til Uppsala, ok undi ílla sinni ferd; ok þóttiz þat finna, at honum mundi vera her sá ótrúr, er hann hafdi or síno ríki, því er hann feck med hernadi. Eptir þetta var ófridr mikill millum Ingjalds Konúngs og Granmars Konúngs. Nú er lángar hrídir hafdi þannig framfarit, komu vinir beggja því vid, at þeir sættuz, ok legdu Konúngar stefnu med sér, ok hittuz, ok gérdo frid millum sín, Ingjaldr Konúngr ok Granmarr Konúngr, ok Hjörvardr Konúngr mágr hans; skyldi fridr sá standa millum þeirra, medan þeir lifdi 3 Konúngar; var þat bundit eidum ok trygdum. Eptir um vorit fór Granmarr

Konúngr til Uppsala at blóta, sem síðvenja var til, móti sumri, at friðr væri. Fell honum þá svo spánn, sem hann mundi ecki lengi lifa: fór hann þá heim í ríki sitt.

## Kap. XLIII.

### Dauði Konúnganna Granmars ok Hjørvarðar.

Um haustit eptir fór Granmarr Konúngr ok Hjørvarðr Konúngr mágr hans at taka veizlu í ey þeirri er Sili heitir, at búom sínum: ok þá er þeir vóru at veitslouni, kémr þar Ingjaldr Konúngr með her sinn á einni nótt, ok tók hús á þeim, ok brendi þá inni með øllu liði sínu. Eptir þat lagði hann undir sik ríki þat allt, er átt høfðu Konúngar, ok setti yfir høfðingja. Høgni Konúngr ok Hildir son hans riðu opt upp í Svía-veldi, ok drápu menn Ingjalds Konúngs, þá er hann hafði sett yfir þat ríki er átt hafði Granmarr Konúngr mágr þeirra. Stóð þar lánga hríð mikil deila millom Ingjalds Konúngs ok Høgna Konúngs; feck Høgni Konúngr þó haldit ríki sínu fyrir Ingjaldi Konúngi allt til dauðadags. Ingjaldr Konúngr átti tvø børn við konu sinni, ok hét hit ellra Åsa, en annat Olafr Trételgja; ok sendir Gauthildr, kona Ingjalds Konúngs, sveininn til Bóva fóstra síns í vestra Gautland, hann var þar uppfæddr, ok Saxi son Bóva, er kallaðr var

Slett-

Flettir. Þat er sögn manna at Ingjaldr Konúngr drapi 12 Konúnga, ok sviki alla í gridum: hann var kalladr Ingjaldr hinn Illrádi: hann var Konúngr yfir mestum hlut Svíþjódar. Ásu dóttur sína gipti hann Gudrødi Konúngi á Skáni, hún var skaplik fedur sínum. Ása olli því er Gudrødr drap Hálfdan bródur sinn. Hálfdan var fadir Ivars ens Vídfadma. Ása réd ok bana Gudrødi Konúngi bóanda sínum, ok flýdi sídan til fødur síns; hún var kallut Ása hin Illráda.

## Kap. XLIV.

## Daudi Ingjalds Illráda.

Ivar hinn Vídfadmi kom á Skáni, eptir fall Gudrødar fødur-bródur síns, ok dró þegar her mikinn saman; fór þegar uppá Svíþjód: Ása hin Illráda var ádr farin á fund fødur síns. Ingjaldr Konúngr var þá staddr á Ræníngi at veizlo, er hann spurdi at herr Ivars Konúngs var þar nær komian; þóttiz Ingjaldr engann styrk hafa til at berjaz vid Ivar; honum þótti ok sá synn kostr, ef hann legdist á flótta, at hvadan æva mundu fjandmenn hans at drífa. Tóku þau Ása þat ráð, er frægt er ordit, at þau gérdu fólk allt dauda druckit; sídan létu þau leggja eld í hellina; brann þar hellin, ok fólk allt, þat er inni var med Ingjaldi Konúngi ok Ásu. Sva segir Þjódólfr:

| | |
|---|---|
| Ok Ingjald | Ok sá urdr |
| I fiørvan trad. | Allri þjódo |
| Reyks røsudr | Sjallgætastr |
| A Ræningi. | Med Svíum þótti, |
| Þá er húsþjófr | Er hann siálfr |
| Hyrjar leistum | Sinn fiørvi |
| God konúng | Frækno fyrstr |
| I gøgnum steig. | Of fara vildi. |

## Kap. XLV.

### Frá Ivari Vidfadma.

Ivar Vidfadmi lagdi undir sik allt Svía-veldi; hann eignadiz ok allt Dana-veldi, ok mikinn lut Saxlands, ok allt Austr-riki, ok inn fimta lut Englands. Af hans ætt eru sídan komnir Dana-konúngar ok Svía-konúngar, þeir er þar hafa einvald haft. Eptir Ingjald inn Illráda hvarf Uppsala veldi úr ætt Ynglinga, þat er at lángfedgum mætti telja.

## Kap. XLVI.

### Frá Olafi Trételgju.

Olafr son Ingjalds Konúngs, þá er hann spurdi fráfall fødur síns, þá fór hann med þat lid er honum vildi fylgja á Næriki; þvíat allr múgr Svía ljóp upp med einu sam-þycki, at ræja ætt Ingjalds Konúngs, og alla hans vini. En er Svíar spurdu til hans, þá mátti hann ecki þar vera: fór hann þá vestr mark-

mark-leidi, til ár þeirrar er nordan fellr í Væni, ok Elfr heitir. Þar dveljaz þeir; taka þar at rydja mørkina ok brenna, ok byggja síðan. Urdu þar brátt stór heröd, ok kølludu þeir þat Vermaland: þar vóru allgódir landskostir. En er spurdiz til Olafs í Svíþjód, at hann rydr markir, kølludu þeir hann Trételgju, ok þótti hædilegt hans ráð. Olafr fékk konu þeirrar er Sólveig hét edr Sølva, dóttir Hálfdanar Gulltannar vestan af Sóleyum. Hálfdan var son Sølva, Sølvarsonar, Sølvasonar hins Gamla, er fyrstr ruddi Sóleyar. Módir Olafs Trételgju hét Gauthildr; en hennar módir Alof dóttir Olafs ens Skygna, Konúngs af Næriki. Olafr ok Sølva áttu tva sonu Ingjald ok Hálfdan; Hálfdan var uppfæddr í Sóleyum med Sølva módorbrædur sínum; hann var kalladr Hálfdan Hvítbeinn.

## Kap. XLVII.

### Brendr inni Olafr Trételgja.

Þat var mikill mannfjøldi, er útlagi fór or Svíþjód fyrir Ivari Konúngi; spurdu þeir at Olafr Trételgja hafdi landskosti góda á Vermalandi, ok dreif þannug til hans sva mikill mannfjøldi, at landit fékk ecki borit: gérdiz þar hallæri mikit ok sulltr; kéndu þeir þat Konúngi sínum, sva sem Svíar eru vanir at kénna Konúngi bædi ár ok hallæri. Olafr Kon-

úngr var litill blótmadr; þat likadi Svíum illa, ok þótti þadan mundo standa hallærit: drógu Svíar þá her saman, gerdu' for at Olafi Konúngi, ok tóku hús á honum, ok brendu hann inni, ok gáfu hann Odni, ok bletu honum til árs sér: þat var vid Væni. Svá segir Þjódólfr:

| | |
|---|---|
| Ok vid vág, | Sour Forujótz |
| Hinn' er vidjar | Af Svía jofri. |
| Hræ Olafs | Sá áttkonr |
| Hof-gylðir svalg, | Frá Uppsølum |
| Ok glód-fjálgr | Lofda kyns |
| Gørvar leysti | Fyrir laungu hvarf. |

## Kap. XLVIII.

### Hálfdan Hvitbeinn til Konúngs tekinn.

Þeir er vitrari vóru af Svíum, fundu at þat olli hallærinu, at mannfólkit var meira enn landit mætti bera, en Konúngr hafdi engu um valdit. Taka nú þat rád, at þeir fara med herinn allann vestr yfir Eydaskóg, ok koma fram í Sóleyum mjok á óvart: þeir drápu Sølva Konúng, en tóku høndum Hálfdan Hvitbein; þeir taka hann til høfdingja yfir sik, ok gefa honum Konúngs nafn: lagdi hann þá undir sik Sóleyar. Sídan fór hann med herinn út á Raumaríki, ok herjar þar, ok féck hann fylki þat af hernadi.

## Kap. XLIX.

### Frá Hálfdani Hvítbein.

Hálfdan Hvítbeinn vard Konúngr ríkr; hann átti Asu dóttur Eysteins hins Hardráda, Upplendínga Konúngs; hann réd fyrir Heidmørk: þau Hálfdan áttu tva sonu, Eystein ok Gudrød. Hálfdan eignadiz mikit af Heidmørk, ok Þotn ok Hadaland, ok mikit af Vestfold: hann vard gamall madr, ok vard sóttdaudr á Þotni, ok var sídan fluttr út á Vestfold, ok heygdr þar sem heitir Skæreid i Skírings-sal. Sva segir Þjódólfr:

| | |
|---|---|
| Þat frá hverr | Þjód-konúng |
| At Hálfdanar | A Þotni tók. |
| Sok-midlendr | Ok Skæreid |
| Sakna skyldu. | I Skírings-sal[1] |
| Ok hallvarps | Ok brynjálfs |
| Hlífi-nauma | Beinom drúpir. |

## Kap. L.

### Frá Ingjaldi bródr Hálfdanar.

Ingjaldr bródir Hálfdanar var Konúngr i Vermalandi; en eptir dauda hans lagdi Hálfdan Konúngr Vermaland undir sik, ok tók skatta af, ok setti þar Jarla yfir, medan hann lifdi.

## Kap. LI.

### Daudi Eysteins Konúngs.

Eysteinn son Hálfdanar Hvítbeins, var Konúngr eptir hann á Raumariki ok á

Vestfold; hann átti Hildi dóttur Eiríks Agnarssonar, er Konúngr var á Vestfold. Agnarr fadir Eiríks, var sonr Sigtryggs Konúngs á Vindli. Eiríkr Konúngr átti engann son, hann dó þá er Hálfdan Konúngr Hvítbeinn lifdi. Tóku þeir fedgar Hálfdan ok Eysteinn þá undir sik alla Vestfold; réd Eysteinn Vestfold medan hann lifdi. Þá var sá Konúngr á Vørno er Skjøldr hét, hann var allmjök fjolkunnigr. Eysteinn Konúngr fór med herskip nockor yfir á Vørnu, ok herjadi þar, tók slíkt er fyrir vard klædi ok adra gripi, ok gegn bóanda, ok hjøggu strandhøgg, fóro í brott sídan. Skjøldr Konúngr kom til strandar med her sinn, var Eysteinn Konúngr þá í brottu, ok kominn yfir fjørdinn, ok sá Skjøldr segl þeirra; þá tók hann mottul sinn, ok veifdi, ok blés vid. Þá er þeir sigldu inn um Jarlsey, sat Eysteinn Konúngr vid styri; skip annat sigldi nær þeim; báru-skot nockut var í, ok laust beiti ásinn af ødru skipi Konúng fyrir bord; þat var hans bani. Menn hans nádu líkinu; ok var þat flutt inn á Borro, ok orpinn haugr eptir á rodinni, út vid sjá, vid Vødlu. Sva segir Þjódólfr:

| | |
|---|---|
| En Eysteinn | Reiks lodudr |
| Fyrir ási fór | A radar broddi |
| Til. byleistis | Þar er elkaldr |
| Brodur meyar. | Hjá jøfur Gauzkom |
| Ok nú liggr | Vødlo straumr |
| Und lagar beinum | At vagi kemr. |

Kap.

## Kap. LII.

### Frá Hálfdani Konúngi Milda ok Matarilla.

Hálfdan hét sonr Eysteins Konúngs, er konúngdóm tók eptir hann; hann var kalladr Hálfdan hinn Mildi ok hinn Matarilli. Sva er sagt, at hann gaf í mála mennum sínum jafnmarga gullpeninga, sem adrir Konúngar sylfrpenínga; en hann svelti menn at mat. Hann var hermadr mikill, ok var laungum í víkingu, ok féck sér fjár. Hann átti Hlif dóttur Dags Konúngs af Vestmǫrum. Holtar á Vestfold var hǫfutbær hans: þar vard hann sóttdaudr, ok er hann heygdr á Borro. Sva segir Þjódólfr:

Ok til þings · Norna dóms
Þridja jǫfri · Ok notid hafdi.
Hvedrúngs mær · Ok Budlúng
Or heimi baud. · A Borroe
Þá er Hálfdan · Sigr-hafendr
Sá er á Holti bjó, · Sídan fálu.

## Kap. LIII.

### Frá Gudraudi Veidi-konúngi.

Gudreydr hét sonr Hálfdanar, er konúngdóm tók eptir hann; hann var kalladr Gudreydr hinn Mikil-láti, en sumir kǫlludu hann Veidi-konúng; hann átti þá konu er Alfhildr hét, dóttir Alfarins Konúngs úr Alfheimum; ok hafdi med henni hálfa Vingulmǫrk.

mörk. Þeirra son var Olafr, er sídan var kalladr Geirstada-álfr. Alfheimar vóru þá kalladir milli Raum-elfar ok Gaut elfar. En er Alfhildur var ondut, þá sendi Gudreydr Konúngr menn sína vestr á Agdir, til Konúngs þess er þar réd fyrir, sá er nefndr Haraldr hinn Gran-raudi; skyldo þeir bidja Aso dóttur hans til handa Konúngi; en Haraldr synjadi. Komu sendimenn aptr, ok sögdu Konúngi sitt erendi. En nockoro sídar skaut Gudraudr Konúngr skipum á vatn, fór sídan med lidi miklu út á Agdir; kom mjøk á úvart, ok veitti þegar uppràs; kom um nótt á bæ Haralds Konúngs. En er hann vard var vid, at her var kominn á hendur hönum, þá gèck hann út med þad lid sem hann hafdi; vard þar orrosta, en lidsmunr var allmikill: þar fèll Haraldr Konúngr ok Gyrdr sonr hans. Tók Gudrødr Konúngr herfáng mikit; hann hafdi heim med sèr Asu, dóttur Haralds Konúngs, ok gèrdi brúllaup til hennar: þau áttu son er Hálfdan hèt. En þá er Hálfdan var vetrgamall, þat haust fór Gudrødr Konúngr at veizlum; hann lá med skipi sínu í Stiflusundi, vóru þar dryckjur miklar, var Konúngr mjøk druckinn. Ok um kveldit er myrkt var, gèck Konúngr af skipi; en er hann kom á bryggju-spord, þá ljóp madr á móti honum, ok lagdi spjóti í gègnum hann; var þat hans bani; sa madr var þegar drepinn. En um morguninn eptir er ljóst var, þá var madr sá kénndr, var þat skósveinn Asu drottníngar;

duldi

þyldi hún þá ecki, at þat vóru hennar ráð. Sva segir Þjódólfr:

Vard Gudrødr
Hinn gøfugláti
Lómi beittr
Sá er laungu var
Ok unráð
At ølom stilli
Høfud heiptrækt
At hilmi-dro.

Ok launsigr
Hinn lómgedi
Aso árr
Af jofri bar.
Ok budlúngr
A bedi fornom
Stíflosunds
Of svínginn var.

## Kap. LIV.

### Daudi Olafs Konúngs.

Olafr tók konúngdóm eptir fødur sinn; hann var ríkr madr ok hermadr mikill; hann var allra manna frídastr ok sterkastr, ok mikill verti; hann hafdi Vestfold; þvíat Alfgeir Konúngr tók þá undir sik Víngulmørk alla; setti hann þar yfir Gandálf Konúng son sinn. Þá gengu þeir fedgar mjøk á Raumariki, ok eignudust mestann lut þess ríkis ok fylkis. Høgni hét son Eysteins hins Ríka, Upplendínga Konúngs; hann lagdi þá undir sik Heidmørk alla, ok Þoten ok Hadaland; þá hvarf ok undan þeim Gudreydar sonum Vermaland, ok snérust þeir þá at skattgjøfum undir Svia Konúng. Olafr var þá á tvítogs aldri, er Gudrødr andadist: en er Hálfdan bródir hans géck til ríkis med honum, þá skiptu þeir ríkinu med sér; hafdi Olafr inn eystra lut, en Hálfdan inn sydra. Olafr Konúngr hafdi atsætu á Geir-

á Geirstødum; hann tók fótarverk, ok andadiz þar af; ok er hann heygdr á Geirstødum. Sva qvad Þjódólfr:

Ok nid-qvísl  
J Noregi,  
Þróttar þros  
Of þróaz hafdi.  
Red Olafr  
Offa fordum  
Vídri grund  
Of Vestmari.

Uns fótverkr  
Vid foldar þrøm  
Vígmidlúng  
Of vida eyldi.  
Nú liggr gunn-djarfr  
A Geirstødum  
Her-konúngr  
Haugi ausinn.

## Kap. LV.

### Frá Røgnvaldi Heidum hærra.

Røgnvaldr hét sonr Olafs Konúngs, er Konúngr var á Vestfold eptir fødur sinn. Hann var kalladr Heidum hærri; um hann orti Þjódólfr hinn hvinverski Ynglinga-tal; þar ségir hann sva:

Þat veit ek bazt  
Und blám himni  
Kenni-nafn,  
Sva at Konúngr eigi,

Er Røgnvaldr  
Reidar stjóri  
Heidum-hárr  
Of heitinn er.

II. Saga

# II.

# Saga Hálfdanar Svarta.

## Kap. I.

### Hálfdan berz við Gandálf ok Sigtrygg.

Hálfdan var vetrgamall, þá er faðir hans fèll; Ása móðir hans fór þegar með hann vestr á Agðir, ok settiz þar þegar til ríkis þess, er átt hafði Haraldr faðir hennar. Þar óx upp Hálfdan ok var brátt mikill ok sterkr ok svartr á hár; hann var kallaðr Hálfdan Svarti. Þá var hann 18 vetra, er hann tók konúngdóm á Ögðum. Fór hann þegar á Vestfold, ok skipti ríki við Olaf bróður sinn, sva sem fyrr er ritat. Sama haust fór hann með her á Vingulmörk, á hendur Gandálfi Konúngi, ok áttu þeir margar orrostur, ok höfðu ymsir sigr; en at lyktum sættuz þeir: skyldi Hálfdan hafa Vingulmörk halfa, sem áðr hafði haft Guðrauðr faðir hans. Eptir þat

þat fór Hálfdan Konúngr uppá Raumaríki, ok lagdi undir sik: þat spurdi Sigtryggr Konúngr, son Eysteins Konúngs; hann hafdi þá atsetu á Heidmørk, ok hafdi ádr Raumaríki undir sik lagt: fór þá Sigtryggr Konúngr med her móti Hálfdani Konúngi, ok var þar orrosta mikil, ok hafdi Hálfdan Konúngr sigr. En er flótti braz, þá var Sigtryggr Konúngr lostinn øru undir høndina vinstri, ok fèll hann þar. Sídan lagdi Hálfdan undir sik allt Raumaríki. Eysteinn hèt annar sonr Eysteins Konúngs, bródir Sigtryggs Konúngs, hann var þá Konúngr á Heidmørk: en er Hálfdan Konúngr var farinn út á Vestfold, þá fór Eysteinn Konúngr med her sinn út á Raumaríki, lagdi þar þá vída land undir sik.

## Kap. II.

### Orrosta Hálfdanar ok Eysteins.

Hálfdan Svarti spurdi at ófridr var á Raumaríki: dró hann þá her saman, ok fór á Raumaríki til móts vid Eystein Konúng, ok áttu þeir orrustu, ok hafdi Hálfdan sigr, en Eysteinn flýdi uppá Heidmørk. Hálfdan Konúngr fór med her sinn eptir honum uppá Heidmørk, ok áttu þeir þar adra orrostu, ok hafdi Hálfdan sigr, en Eysteinn flýdi nordr í Dala, á fund Gudbrands Hersis: hann efldiz þadan at lidi, fór sídan um vetrinn útá Heidmørk; hann hitti Hálfdan Svarta

í eyunni miklu, er liggr í Miørs, áttu þeir þar orrostu; þar féll mart manna af hvarom-tveggja, ok hafdi Hálfdan sigr. Þar féll Guthormr sonr Gudbrands Hersis, er mannvænstr þótti vera á Upplöndum. Þá flýdi Eysteinn Konúngr enn nordr í Dala, þá sendi hann Hallvard Skálk frænda sinn á fund Hálfdanar Konúngs, at leita um sættir. En fyrir frændsemis sakir, þá gaf Hálfdan Konúngr upp Eysteini Konúngi hálfa Heidmörk, sva sem þeir frændur hefdu fyrr átt. En Hálfdan lagdi undir sik Þotn, ok þar sem Land heitir: þá eignadiz hann ok Hadaland; þvíat hann herjadi vída: var hann þá ok allríkr Konúngr.

## Kap. III.

### Kvanfáng Hálfdanar Svarta.

Hálfdan Svarti fékk konu þeirrar, er nefnd er Ragnhildr dóttur Haralds Gullskeggs; hann var Konúngr í Sogni: þau áttu son, er Haraldr Konúngr gaf nafn sitt, ok fæddiz sá sveinn upp í Sogni med Haraldi Konúngi módur-fedur sínum En er Haraldr var ørvasi at aldri, var hann sonlauss, þá gaf hann Haraldi dóttursyni sínum ríki sitt, ok lét hann taka til Konúngs. Litlu sídar andadiz Haraldr Gullskeggr. Þann sama vetr andadiz Ragnhildr dóttir hans; en eptir um vorit vard sóttdaudr Haraldr Konúngr úngi í Sogni; hann var þá 10 vetra gamall. Þegar er Hálf-

dan Svarti spurdi andlát hans, þá byrjar hann ferd sína med lidi miklo, ok fer nordr til Sogns; var þar vid honom vel tekit: taldi hann þar til rikis og arfs eptir son sinn: ok var þar engi vidrstada, lagdi hann undir sik ríki þat. Þá kom til hans Atli Jarl hinn Mjóvi af Gaulum: hann var vin Hálfdanar Konúngs. Konúngr setti Atla Jarl yfir Sygnafylki, at dœma þar landslög, ok heimta saman skatta til handa Konúngi. Fór þá Hálfdan Konúngr til Upplanda í ríki sitt.

## Kap. IV.

### Orrosta Hálfdanar ok Gandálfs sona.

Hálfdan Konúngr fór um haustit út á Vingulmörk. Þat var á einni nátt, þar er Hálfdan Konúngr var á veizlo, at um midnœtti kom til hans madr sá, er hest-vörd hafdi haldit, ok sagdi honum, at herr var kominn nær bœnum: Konúngr stód upp þegar, ok bad menn sína vópna sik; gengr þegar út í gardinn, ok fylkir. Þvi næz kvamu þar synir Gandálfs, Hysíngr ok Helsíngr, med lid mikit, vard þar orrosta mikil. En fyrir því at Hálfdan Konúngr var ofrlidi borinn, þá flýdi hann til skógar, ok lét mart mannа: þar fell Ölfer hinn Spaki fósturfadir hans. Eptir þat dreif lid til Hálfdanar Konúngs; fór hann þá at leita Gandálfs sona: ok hittuz þeir á Eydi vid Eyna-sker, ok berjaz þar; þar

þar féll Hýsingr ok Helsingr; en bródir þeirra Haki kom á flótta. Eptir þat lagdi Hálfdan Konúngr undir sik alla Vingulmørk, en Haki flýdi í Alfheima.

## Kap. V.

### Sídara kvanfáng Hálfdanar, er hann fèck dóttur Sigurdar Hjartar.

Sigurdr Hjørtr er nefndr Konúngr á Hríngaríki; hann var meiri ok sterkari enn hverr madr annara; allra manna var hann ok fríðastr sýnom. Fadir hans var Helgi hinn Hvassi, en módir hans Aslaug, dóttir Sigurdar Orms í Auga, Ragnarssonar Lodbrókar. Sva er sagt, at þá var Sigurdr 12 vetra gamall, er hann drap Hildibrand berserk í einvígi, ok þá 12 saman; mørg vann hann þrekvirki, ok er laung saga frá honum. Sigurdr átti tvø børn; Ragnhildr hèt dóttir hans: hún var allra kvenna skøruligust; hún var þá á tvítugs aldri: en Guthormr bródir hennar, hann var á úngmennis aldri. En þat er sagt frá atferd Sigurdar Konúngs, at hann reid einnsaman út á eydimerkur, hann veiddi stór dýr ok mannskjæð; lagdi hann á þad kapp mikit jafnan. Þat var einn dag at Sigurdr reid einnsaman út á merkur, sem vandi hans var til, ok er hann var lánga leid ridinn, kom hann fram í ryd nockorr, í nánd-ir Hadalandi; þá kom þar móti honum Haki

berserkr, med 30 manna, þar barduz þeir; féll þar Sigurdr Hjörtr, en af Haka 12 menn, en siálfr hann lét hönd sína, ok hafdi 3 sár önnur. Eptir þat reid Haki vid menn sína til búss Sigurdar, ok tók þar Ragnhildi dóttur hans, ok Guthorm bródur hennar, ok hafdi brant med sér, ok fé mikit, ok marga dýrgripi, ok hafdi heim á Hadaland: þar átti hann bú stór. Þá lét hann efna til veizlo, ok ætladi at gøra brúdlaup til Ragnhildar; en þat dvaldist, fyrir því at sár hans höfduz illa. Haki Hada-berserkr lá í sárum um haustit, ok öndverdan vetr: en of Jól var á Heidmörk Hálfdan Konúngr á veizlo: hann hafdi spurt öll þessi tídindi. Þat var einn morgin snimma, er Konúngr var klæddr, at hann kalladi til sín Hárek Gand, sagdi at hann skyldi fara yfir á Hadaland, ok færa honum dóttur Sigurdar Hjartar Ragnhildi. Hárekr bjóz, ok hafdi hundrat manna; stillti sva ferdinni, at þeir kvamo yfir vatnit í óttu til bæjar Haka, tóku dyr allar ok skála, er húskarlar svafo í: sídan gengu þeir til svefnbúrs þess, er Haki svaf í, ok brutu upp, ok tóku í brott Ragnhildi ok Guthorm bródur hennar, ok allt fé þat er þar var; en þeir brendu skálann, ok alla menn þá er inni vóru: þeir tiöldudu vagn einn allvegligann, ok settu þar í Ragnhildi ok Guthorm, fóru sídan til íssins. Haki stód upp ok géck eptir þeim um hríd, en er hann kom at vatz ísinum, þá snéri hann

nidr

nidr hjöltum á sverdinn, en lagdiz á blódrefilinn, sva at sverdit stód í gégnum hann: fécc hann þar bana, ok er hann þar heygdr á vatzbackanom. Hálfdan Konúngr sá er þeir fóro um vatz-ísinn, þvíat hann var manna skygnaztr; ok er hann sá vagn tjaldadan, þóttiz hann vita, at eyrindi þeirra mundi ordit vera, þat sem hann vildi: lét hann þá setja bord sitt, ok sendi menn vída um bygdina, ok baud til sín mörgum mönnum, ok var þar þann dag veizla góð: ok at þeirri veizlo fécc Hálfdan Konúngr Ragnhildar, ok var hún sídan rík drottníng. Módir Ragnhildar var Þirni, dóttir Klack-Haralds Konúngs af Jótlandi, systir Þyri Danmarkar-bótar, er átti Gormr hinn Gamli Dana-konúngr, er þá réd Dana-veldi.

## Kap. VI.

### Frá draumom Ragnhildar.

Ragnhildi drottníngu dreymdi drauma stóra: hún var spök at viti. Sá var einn draumr hennar, at hún þóttiz vera stödd í grasgardi sínom, ok taka þorn einn úr serk sér: ok er hún héllt á, þá óx hann sva, at þat vard teinn einn mikill; sva at annar endir tók í jörd nidr, ok vard brátt rótfastr; en annar endir trésins tók hátt í loptit upp, ok því næz syndiz henni tréd sva mikit, at hon fécc varla séd yfir upp: þat var ok furdu digurt: en nedsti

lutr trésins var raudr sem blód; en þá leggr-inn upp fagur-grœnn; en limarnar hvítar sem snjár. Þar vóru kvistir á trénu margir ok stórir, sumir ofarr, en sumir nedarr:, limar tréfins vóru sva miklar, at henni þóttu dreif-az um allann Noreg, ok enn miklo vídara.

## Kap. VII.

### Draumr Hálfdanar.

Hálfdan Konúng dreymdi aldrei; honum þótti þat undarligt, ok bar þat fyrir þann mann, er nefndr er Þorleifr enn Spaki; ok leitadi ráda, hvat at því myndi mega géra. Þorleifr sagdi hvat hann gérdi, ef hann for-vitnadi nockurn lut; at hann fœri í svína-bœli at sofa, ok bráuz honum ecki draumar, ok Kon-úngr gérdi þat, ok birtiz hanom draumr þessi: Hanom syndiz at hann vœri allra manna best hœrdr, ok var hár hans allt med lockum, sum-ir sídir sva at tók til jardar, sumir í midjan legg, sumir á kné, sumir í mjödm, eda midja sídu, sumir á háls, en sumir ecki meir enn sprottnir upp úr hausi sem knyflar. En á lock-um hans var hvørskyns litr, en einn lockr sigr-adi alla vid fegurd ok med ljósleik ok mikilleik. Þorleifi sagdi hann þann draum; en hann þyddi sva, at mikill afspríngr mundi af honum koma, ok myndi hans ættmenn löndum ráda med miklum veg, ok þó ecki allir med jam-miklum; en einn mundi sá af hans ætt koma, at

at öllum mundi meiri ok ædri. Ok hyggja menn þat, at sá lockr jartegndi Olaf Konúng hinn Helga. Hálfdan Konúngr var vitr madr, ok sanninda madr ok jafnadar, ok setti lög, ok gætti sjálfr, ok þrýsti öllum til at gæta. Ok at ecki mætti ofsi steypa lögunum, gérdi hann sjálfr saktal ok skipadi bótum, hverjum eptir sínom burd ok metordum. Ragnhildr drottníng ól son, ok var sá vatni ausinn, ok nefndr Haraldr; hann var brátt mikill ok hinn frídasti. Ox hann þar upp, ok gérdiz þegar íþróttamadr snemma, ok vel viti borinn: módir hans unni honum mikit, en fadir hans minna.

## Kap. VIII.

### Matar hvarf Hálfdanar.

Hálfdan Konúngr var á jóla-vist á Hadalandi; þar vard undarligr lutr jóla aptan, þá er menn vóru til borde gengnir, ok var þar allmikit fjölmenni, at þar hvarf vist öll af bordum, ok allt mungát: sat Konúngr ryggr eptir, en hverr annara sótti sín heimili. En til þess at Konúngr mætti víss verda hvat þessum atburd olli, þá lét hann taka Finn einn, er margfródr var, ok vildi neyda hann til sadrar sögu, ok píndi hann, ok feck þó ecki af honum. Finnrinn hét þannok mjök til hjálpar, er Haraldr var sonr hans, ok Haraldr bad honum eyrdar, en féck ecki, ok hleypti Haraldr honom þó í brot, at úvilja Konúngs, ok fylgdi honom

 sjálfr.

sjálfr. Peir komu þar farandi, er höfdíngi einn hèllt veizlo mikla, ok var þeim at syn þar vel fagnat. Ok er þeir höfdu þar verit til vors, þá mælti höfdínginn einn dag til Haraldz: furdo mikit torrek gørir fadir þinn sèr at, er ek tók vist nockura frá honum í vetr; en ek mun þèr þat launa med fegin sögu: fadir þinn er nú daudr, ok skaltu heim fara; muntu fá ríki þat allt, er hann hefir átt, ok þar med skalto eignaz allann Noreg.

## Kap. IX.

### Daudi Hálfdanar Konúngs.

Hálfdan Svarti ók frá veizlo á Hadalandi, ok bar sva til leid hans, at hann ók um vatnid Rønd, þat var um vár, þá vóro sólbrád mikil. En er þeir óku um Rykinsvík, þar höfdu verit um vetrinn nautabrunnar; en er mykrinn hafdi fallit á ísinn, þá hafdi þar grafit um, í sólbrádinu; en er Konúngr ók þar um, þá braz nidr ísinn, ok týndiz þar Hálfdan Konúngr, ok lid mikit med honum. Pá var hann fertogr at aldri. Hann hafdi verit allra Konúnga ársælstr. Sva mikit gordo menn sèr at um hann, at þá er þat spurdiz, at hann var daudr, ok lík hans var flutt á Hríngaríki, ok var þar til graptar ætlat, þá fóru ríkismenn af Raumaríki ok Vestfold ok Heidmørk, ok baddoz allir at hafa líkit med sèr, ok heygja í sínu fylki, ok þótti þat vera árvænt þeim er nædi. En þeir sættuz sva, at líkinn var slipt í fjóra stadi, ok var höfudit lagit í haug at Steini á Hríngaríki. En hverrir fluttu heim sinn luta, ok heygdo; ok eru þat allt kalladir Hálfdanar Haugar.

III. Saga

# III.

# Saga
# Haralds ens Hárfagra.

## Kap. I.

### Orrosta Haralds vid Haka ok Gandálf fødur hans.

Haraldr tók koúngdóm eptir fedur sinn þá er hann var 10 vetra gamall: hann var allra manna mestr ok sterkastr ok fridastr sýnom, vitr madr ok skörúngr mikill. Guthormr módurbródir hans gërdiz forstjóri fyrir hyrdinni, ok fyrir øllum landrádom; hann var ok Hertogi fyrir hyrdlidinu. Eptir líflát Hálfdanar Svarta gengo margir hefdíngjar á ríkit þat er hann hafdi leist; var þar ýinn fyrsti madr Gandálfr Konúngr, ok þeir brædur Høgni ok Fródi, synir Eysteins Konúngs af Heidmørk; ok Høgni Káruson gëck vída ysir Hríngaríki. Þá byrjar ferd sína Haki Gandálfsson út á Vestfold med 3 hundrut manna, ok fór hit efra um dali nockura, ok ætladi at koma á úvart Haraldi Konúngi: en Gandálfr

Kon=

Konúngr sat at londum med her sinn, ok þar ætladi hann þá at flytjaz yfir fjørdinn med her sinn á Vestfold. En er þat spyr Guthormr Hertogi, samnar hann her, ok fer med Haraldi Konúngi Fara þeir Guthormr móti Haka upp á land, ok finnaz þeir í dal nockurum; vard þar orrosta, ok fékk Haraldr Konúngr sigr, en þar fèll Haki Konúngr, ok mikill luti lids hans. Þar heitir sídan Hakadalr. Eptir þat venda þeir aptr Haraldr Konúngr ok Guthormr Hertogi, en þá var Gandálfr Konúngr kominn á Vestfold, ok fara nú hvarir móti ødrum; ok er þeir finnaz verdr orrosta hørd; þadan flýdi Gandálfr Konúngr, ok lèt meſtann luta lids síns, ok komst vid svá búit í ríki sitt. Ok er, þessi tídindi spyrja synir Eysteins Konúngs á Heidmørk, vænto þeir sèr skjótt hers; þeir gera ord Høgna Károsyni, ok Gudbrandi Hersi, ok leggja stefno sína á Heidmørk, á Ringis-akri.

## Kap. II.

### Haraldr Konúngr vinnr 5 høfdíngja.

Eptir þessar orrostor fer Haraldr Konúngr og Guthormr Hertogi, ok allt lid þat er þeir fá, ok venda til Upplanda, ok fara mjøk markleidir: þeir spyrja hvar Upplendínga Konúngar hafa lagt stefnu sína, ok koma þar um midnætti, ok verda eckí vardmenn fyrr varir vid, enn lidit var komit fyrir þá stofu, er inni

var

var Högni Káruson, ok svo þá er Gudbrandr svaf í, ok lögdo eld í hvaratveggjo, en Eysteins synir komuz út med menn sína, ok börduz of hríd, ok féllu þar bádir Högni ok Fródi. Eptir fall þessara 4ra höfdíngja, eignadiz Haraldr Konúngr med krapt ok framqvæmd Guthorms frænda síns Hríngaríki ok Heidmörk, Gudbrandsdali ok Hadaland, Þotn ok Raumaríki, Víngulmörk, allann hinn nordra lut. Eptir þat höfdu þeir Haraldr Konúngr ok Guthormr Hertogi úfrid ok orrostor vid Gandálf Konúng, ok lauk med því, at Gandálfr Konúngr féll í hinni sídustu orrosto; en Haraldr Konúngr eignadiz ríki allt sudr til Raumelfar.

## Kap. III.

### Frá Gydu Eiríksdóttur.

Haraldr Konúngr sendi menn sína eptir mejo einni, er Gyda hét, dóttir Eiríks Konúngs af Hördalandi; hún var at fóstri á Valdresi med ríkum bóanda. Vildi Konúngr hana hafa til fridlo sér; þvíat hún var allfríd mær, ok heldr stórlát. En er sendimenn komu þar, þá báro þeir upp erindi sín fyrir meyna; hún svarar á þessa lund: at ecki vill hon spilla meydómi sínom til þess, at taka til manns þann Konúng, er ecki hefir meira ríki enn nockor fylki til forráda; en þat þycki mér undarligt segir hún, er engi er sá Konúngr, er svo vili eignaz Noreg, ok vera einvaldi yfir, sem Gormr

Gormr Konúngr at Danmörku, edr Eiríkr Konúngr at Uppsölum. Sendimönnum þyckir hún svara furdu stórliga, ok spyrja hana máls um, hvar til svor þessi skulu koma? segja, at Haraldr er Konúngr, sva ríkr, at henni er fullrædi í, en þó at hún svari á annann veg þeirra eyrindum, enn þeir mundo vilja, þá sjá þeir engann sinn kost til þess at sinni, at þeir mundo hana í brott hafa, nema hennar vili væri til þess; ok búaz þeir þá ferdar sinnar. En er þeir ero búnir, leida menn þá út; þá mælti Gyda vid sendimenn: segit þau mín ord Haraldi Konúngi, at ek mun því at eins játa, at géraz eginkona hans, ef hann vill þat géra fyrir mínar sakir ádr, at leggja undir sik allann Noreg, ok ráda því ríki jafnfrjálsliga, sem Eiríkr Konúngr Svía-veldi, edr Gormr Konúngr Danmörk, þvíat eino þycki mér segir hún, hann megi heita Þjód-konúngr.

## Kap. IV.

### Heitstrenging Haralds Konúngs.

Sendimenn fara nú aptr til Haralds Konúngs, ok segja honum þessi ord meyjarinnar, ok segja at hon væri furdu djörf ok úvitr; ok telja þat makligt, at Konúngr sendi eptir henni med fjölmenni, ok göra til hennar nockura ósæmd. Þá svarar Haraldr Konúngr, at ecki hefdi þessi mær illa mælt, edr gért, sva at hefnda væri fyrir verdt, ok bad hana hafa mikla þöck

fyrir

fyrir ord sín, hún hefir minnt mik þeirra luta, segir hann, er mér þyckir nú undarligt, er ek hefi þetta ecki fyrr hugleitt. Ok enn mælti hann: þess strengi ek heit, ok því skyt ek til Guds þess er mik skóp, ok ollo rædr, at alldri skal skéra hár mitt né kémba, fyrr enn ek hefi eignaz allann Noreg, med skottum ok skyldum ok forrádi, en deya at odrum kosti. Þessi ord þackadi honum mjek Guthormr Hertogi, ok lét þat vera konúngligt verk at efna ord sín

## Kap. V.
## Orrosta í Orkadal.

Eptir þetta samna þeir frændur lidi miklo, ok búa ferd sína á Upplond, ok sva nordr um dali, ok þadan nordr um Dofra-fjall, ok þá er hann kom ofan í bygdina, þá lét hann drepa menn alla; en brenna bygdina. En er fólkit vard þessa víst, þá flýdi undan hverr er mátti; sumir ofan til Orkadals, sumir til Gáulardals, sumir á markir, sumir leitudu grida; ok þat fengu allir þeir er á Konúngs fund komu, ok gérduz hans menn. Þeir fengu enga mótstodu, fyrr enn þeir komu til Orkadals; þar var samnadr fyrir þeim, ok þar átto þeir ena fyrsto orrustu vid Konúng þann er Grýtíngr hét. Haraldr Konúngr féck sigr, en Grýtíngr vard handtekinn, ok drepit mikit lid af hanom, en hann géck til handa Haraldi Konúngi, ok svardi honum trúnadar eida. Eptir þat

géck

gèck allt fólk undir Harald Konúng í Orkdæla-fylki, ok gérduz hans menn.

## Kap. VI.

### Landeréttr Haralds Konúngs.

Haraldr Konúngr setti þann rétt allt þar er hann vann ríki undir sik, at hann eignadiz ódol oll, ok lét alla bœndar gjalda sér landskyldir, bædi ríka ok úríka; hann setti Jarl í hverjo fylki, þann er dæma skyldi log ok landsrétt, ok heimta sakeyri ok landskyldir, ok skyldi Jarl hafa þridjúng skatta og skylda til bords sér ok kostnadar: Jarl hverr skyldi hafa undir sér 4 Hersa edr fleiri, ok skyldi hverr þeirra hafa 20 marka veizlo. Jarl hver skyldi fá Konúngi í her 60 hermanna af sinnm einom kostnadi; en Hersir hver 20 manna. En sva mikit hafdi Haraldr Konúngr aukit álogor og landskyldir, at Jarlar hans hofdu meira ríki enn Konúngar hofdo fyrrom. En er þetta spurdiz um Þrándheim, þá sóttu til Haralds Konúngs margir ríkismenn, ok gérdoz hans menn.

## Kap. VII.

### Orrosta í Gaulardal.

Þat er sagt, at Hákon Jarl Grjótgardsson kom til Haralds Konúngs utan af Yrjum, ok hafdi lid mikit til fulltingis vid Harald Konúng: Eptir þat fór Haraldr Konúngr inn í

Gaul-

Gaulardal, ok átti þar orrosto, ok felldi þar tva Konúnga, ok eignadiz sídan ríki þeirra: en þat var Gauldœla fylki ok Strinda-fylki. Þá gaf hann Hákoni Jarli yfir sókn um Strinda-fylki. Eptir þat fór Haraldr Konúngr inn í Stjóradal, ok átti þar ena þridjo orrosto, ok hafdi sigr, ok eignadiz þat fylki. Eptir þat søfnuduz saman Inn-þrændir, ok vóru komnir saman 4 Konúngar med her sinn: sá einn er réd fyrir Veradal; annar fyrir Skǫn; þridi á Sparbyggja-fylki; fjórdi af Eyníni idri; sá atti Eyna-fylki. Þessir 4 Konúngar fóru med her sinn móti Haraldi Konúngi; en hann hellt orrostu vid þá, ok feck sigr: en þessir Konúngar féllu sumir, en sumir flýdu. Haraldr Konúngr átti alls í Þrándheimi 8 orrostor edr fleiri, ok at felldom 8 Konúngum eignadiz hann allann Þrándheim.

## Kap. VIII.

### Haraldr vann Naumdœla-fylki.

Nordr í Naumudal vóru brædur tveir Konúngar, Herlaugr ok Hrollaugr; þeir høfdu verit at þrjú sumur at gera haug einn: sá haugr var hladinn med grjóti ok limi, ok vidum gør: en er haugrinn var algørr, þá spurdu þeir brædur þau tidindi, at Haraldr Konúngr fór á hendur þeim med her. Þá lét Herlaugr Konúngr aka til haugsins vist mikla ok dryck, eptir þat



Nor. R. S. 1. Hefti.

gêck Herlaugr Konúngr í hauginn med 12ta mann; sídan lét hann kasta aptr hauginn. Hrollaugr Konúngr fór uppá haug þann, er Konúngar vóru vanir at sitja á, ok lét þar búa Konúngs hásæti, ok settiz þar í: þá lét hann leggja dýnur á fótpallinn, þar er Jarlar vóru vanir at sitja á; þá velltiz hann or hásætinu, ok í Jarls sæti, ok gaf sér sealfr Jarlsnafn. Eptir þat fór Hrollaugr móti Haraldi Konúngi, ok gaf honum allt ríki sitt, ok baud at goraz hans madr, ok segir honum alla sína medferd. Þá tók Haraldr Konúngr sverd, ok festi á linda honum, þá festi hann skjøld á háls honum, ok gêrdi hann Jarl sinn, ok leiddi hann í hásæti, þá gaf hann honum Naumdæla-fylki, ok setti hann þar Jarl yfir.

## Kap. IX.

### Frá skipan Haralds Konúngs.

Haraldr Konúngr fór þá aptr til Þrándheims, ok dvaldiz þar um vetrinn, ok kallaði heimili sitt jafnan sídan; þar setti hann hinn mesta høfut-bæ sinn, er Ladir heita. Þann vetr fêck hann Ásu dóttur Hákonar Jarls Grjótgardssonar, ok hafdi Hákon þá mestann metnad af Konúnginum. Um varit réd Haraldr Konúngr sêr til skipa. Hann hafdi gêra látit um vetrinn dreka mikinn, ok búinn hit vegligsta: þar skipadi hann á hyrd sinni ok berserkjum. Stafnbúar vóru mest vandadir;

ir; þvíat þeir hefdo merki Konúngs: aptr frá stafninum til austrrúms, var kallat á rausn; þat var skipat berserkjom. Þeir einir nádu hirdvist med Haraldi Konúngi, er afreksmenn vóru, bædi at afli ok hreysti, ok allskonar atgervi: þeim einum var skipat hans skip, þvíat hann átti þá gód vol at kjósa sér hirdmenn or hverju fylki. Haraldr Konúngr hafdi her mikinn ok morg stór skip, ok margir ríkismenn fylgdo hanom. Þess getr Hornklofi í Glymdrápu, at Haraldr Konúngr hafdi fyrr bariz á Uppdals skógi vid Orkndælinga, enn hann hafdi leidángr þenna úti.

Hilmir red á hæidi
Hjaldr skids þrumu
galdra
Odr vid æski meidi
Ey vebrautar heyja.
Adr gnapsalar grímnis
Gnýstærandi færi.
Rausnarsamr til rimmo
Ridvígs lagar skídum.
Geyrdi glamma ferdar

Gný-þróttr í orrusto
dróttar
Hel kannaudi hlenna
Hlym ræks um trud
glymja.
Adr út á mar mætir
Mannskædr lagar tanna
Ræsi nadr ok rausnar
Rak vebrautar nockva.

## Kap. X.

### Orrosta vid Sólskel.

Haraldr Konúngr hèllt lidi síno út or Þrandheimi, ok snèri sudr á Mæri. Hunþjófr er nefndr Konúngr, sá er réd fyrir Mærafylki; Sølvi Klofi hèt sonr hans; þeir vóru

hermenn miklir. En sá Konúngr er réð fyrir Raumsdal, er nefndr Nøckvi, hann var móðrfaðir Sølfa. Þessir hefdíngjar drógu saman her mikinn, er þeir spyrja til Haralds Konúngs, ok fara móti honum, ok hittaz þeir við Sólskél; varð þar orrosta mikil, ok hafði Haraldr Konúngr sigr. Þessarar orrosto getr Hornklofi:

Þar sva at barzt at
bordi
Bord hølkvis rak nordan
Hlífar valdr til hildar
Hreggs døglínga tvegg-
ja.
Ok allsnæfrir jøfrar
Ordalaust at mordi,
Endiz raudra randa
Rødd dynskotum qvødd-
uz.

Báðir Konúngar féllo, en Sølfi komst við flótta undan. Lagði Haraldr Konúngr þá undir sik þessi tvø fylki, ok dvaldiz þar lengi um sumarit, ok skipaði þar réttum með mønnom, ok setti þar forráðamenn, ok treysti sér fólk. En um haustit bjóz hann at fara norðr til Þrándheims. Røgnvaldr Mæra-Jarl, sonr Eysteins Glumru, hafði þá of sumarit gerz maðr Haralds Konúngs. Haraldr Konúngr setti hann høfdíngja yfir þessi tvø fylki, Norðmæri ok Raumsdal, ok fèck honum þar styrk til, bæði af ríkismønnum ok bóndum, sva ok skipa-kost, at verja landit fyrir ófriði: hann var kallaðr Røgnvaldr enn Ríki, eðr inn Ráðsvinni; ok segja menn at hvarttveggja væri sann-nefni. Haraldr Konúngr var um vetrinn eptir í Þrándheimi.

Kap.

## Kap. XI.
### Fall Arnvids ok Audbjarnar Konúnga.

Eptir um varit bjó Haraldr Konúngr her mikinn or Þrándheimi, ok segir, at hann mundi þeim her stefna á Sunnmæri. Sølfi Kloſi hafdi þum vetrinn legit úti á herſkipum, ok herjat á Nordmæri, ok drepit þar marga menn Haralds Konúngs, en ſuma rænta, en brennt fyrir ſumum, ok gért hit meſta hervirki; en ſtundum um vetrinn hafdi hann verit á Sunnmæri med Arnvidi Konúngi, frænda ſínum. En er þeir ſpyrja at Haraldr Konúngr var á ſkip kominn, ok hafdi her mikinn, þá ſamna þeir lidi, ok verda fjølmennir; þvíat margir þóttuz eiga Haraldi Konúngi heiptir at gjalda. Sølfi Kloſi fór ſudr í fjordo á fund Audbjarnar Konúngs, er þar réd fyrir, ok bad hann lids, at hann ſkyldi fara med her ſínum til ſtyrks vid þá Arnvid Konúng, ſegir hann ſva: øllum oſs er nú ſjá koſtr audſærr, at vér ríſim allir upp í móti Haraldi Konúngi; manom vér þá hafa nógann ſtyrk, ok man þá audna ráda ſigri. En hinn er annar koſtr, ok er þat þó engi koſtr þeim mønnom, er ecki ero ótignari at nafni enn Haraldr, at géraz þrælar hans. Þótti fødur mínum ſá koſtr betri, at falla í bardaga í konúngdómi ſínom, en gánga ſjalfkrafa í þjónuſtu vid Harald Konúng; edr þola ecki vapn, ſem Naumdæla Konúngar gérdo.

Kom Sølfi sva rædom sínom, at Audbjørn Kouúngr hèt ferdinni; ok dró haun þá her saman, ok fór nordr til fundar vid Arnvid Kouúng; høfdo þeir þá allmikinn her. Þeir spurdu þá til Haralds Kouúngs, at haun var þá nordan kominn; þeir hittuz fyrir innan Sólskél. Þat var þá sidvani, er menn børduz á skipom, at tengja skyldi skipin, ok berjaz um stafna, var þar sva gèrt. Lagdi Haraldr Kouúngr skip sitt móti skipi Arnvidar Kouúngs: vard sú orrosta en snarpasta, ok féll mikit fólk af hvaromtveggjom. Ok at lyktum vard Haraldr Kouúngr sva ódr ok reidr, at haun gèck fram á rausn á skipi síno, ok bardiz þá sva snarpliga, at allir frambyggvar á skipi Arnvids hrucko aptr til siglu, en sumir féllu: gèck Haraldr Kouúngr þá uppá skipit, leitudu þá menn Arnvids Kouúngs á flótta; en haun siálfr féll á skipi síno. Þar féll ok Audbjørn Kouúngr; en Sølfi flýdi. Sva segir Hornklofi:

Hádi gramr þar er gnúdu
Geira hregg vid seggi
Raud snýsti ben blódi
Bryn gøgl, í dyn skøglar:
Þá er á rausn fyrir ræsi
Red egglitudr seggir
Æfr gall hiørr vid hlífar
Huigu fiørvanir sigri.

Þar féll ok lidi Haralds Kouúngs Asgautr, ok Asbjørn Jarlar Kouúngs, ok Grjótgardr ok Hrollaugr, mágar hans, synir Hákonar Hlada Jarls. Sølfi var sidan víkingr mikill lánga hríd, ok gèrdi opt mikinn skada á ríki Haralds Kouúngs.

Kap.

## Kap. XII.

### Brenna Vemundar Konúngs.

Eptir þat lagdi Haraldr Konúngr undir sik Sunnmæri. Vemundr bródir Audbjarnar Konúngs hèllt Fyrda-fylki. Þetta var sídla um haust, ok géra menn þat rád med Haraldi Konúngi, at hann skyldi ecki fara sudr um Stad. Þá setti Haraldr Konúngr Røgnvald Jarl yfir Mæri hvaratveggju ok Raumsdal, ok hafdi hann þá um sik mikit fjølmenni. Haraldr Konúngr snéri þá nordr aptr til Þrándheims. Þann sama vetr fór Røgnvaldr Jarl hid idra um Eid, ok sva sudr um Fjerdo. Hann hafdi njósn af Vemundi Konúngi, ok kom um nótt þar sem heitir Naustdalr; var Vemundr Konúngr þar á veizlo. Røgnvaldr Jarl tók hús á þeim, ok brendi Konúng inni med 90 manna. Eptir þat kom Berdlu-Kári til Røgnvalds Jarls med lángskip alskipat, ok fóru þeir bádir nordr á Mæri. Tók Røgnvaldr Jarl skip þau, er átt hafdi Vemundr Konúngr, ok allt lausafè þat er hann fèck. Berdlu-Kári fór nordr til Þrándheims á fund Haralds Konúngs, ok gérdiz hans madr, hann var berserkr mikill.

## Kap. XIII.

### Fall Hákonar Jarls ok Atla Jarls hins Mjóva.

Um varit eptir fór Haraldr Konúngr sudr med landi med skipa her, ok lagdi undir

sik Firda-fylki; sídan sigldi hann austr med landi, ok kom fram í Vík austr. En hann setti eptir Hákon Jarl Grjótgardsson, ok fékk honom yfirsókn í Firda fylki. Þá sendi Hákon Jarl ord Atla Jarli hinum Mjóva, at hann skyldi fara brott or Sogni, ok vera Jarl á Gaulom, sem hann hafdi fyrr verit, en kvad Harald Konúng hafa veitt sér Sygna-fylki. Atli Jarl sendi þau ord í móti, at hann mun halda Sygna-fylki, ok sva Gaulum, þar til er hann finnr Harald Konúng. Jarlarnir þreytto þetta med sér, þar til er bádir samna her: þeir hittaz á Fjølum í Stafanessvagi, ok áttu þar orrosto mikla. Þar féll Hákon Jarl, en Atli Jarl vard sár til ólífis, ok fóro menn hans til Atleyar med hann, ok andadiz hann þar. Sva segir Eyvindr Skáldaspillir:

| | |
|---|---|
| Vard Hákon | Ok þar vard |
| Høgna meyar | Er vmir fello, |
| Vidr vapnberr | Magar Hallgardz |
| Er vega skyldi. | Manna blódi |
| Ok sinn aldr | Stafaness |
| J odda gný | Vid stóran gný |
| Freys áttungr | Vinar lødurs |
| At Fjølum lagdi. | Vagr of blandinn. |

## Kap. XIV.

### Frá Haraldi Konúngi ok Eiríki Svía-konúngi.

Haraldr Konúngr kom lidi sínu austr í Vík, ok lagdi inn til Túnsbergs; þar var þá

kaupstadr: hann hafdi þá dvaliz í Þránd-heimi 4 vetur, ok komit ecki á þeirri stundu í Víkina. Hann spurdi þar þau tídindi, at Eiríkr Svía-konúngr Eymundarson hafdi lagt undir sik Vermaland, ok tók þar skatta af øllum mark-bygdum: ok hann kalladi vestra Gautland allt nordr til Svínasunds, ok it vestra allt med hafi, þá kalladi Svía-konúngr þat allt sitt ríki, ok tók skatta af. Hann hafdi þar sett yfir Jarl, er kalladr var Hrani Gauzki, hann hafdi ríki milli Svínasunds ok Gaut-elfar, hann var ríkr Jarl. Haraldi Kon-úngi var sva sagt frá ordom Svía-konúngs, at hann skyldi ecki fyrr afláta, enn hann hefdi jafnmikit ríki í Víkinni, sem fyrr hafdi Sig-urdr, edr Ragnarr Lodbrók son hans; en þat var Raumaríki ok Vestfold, allt út til Grenmars; sva Víngulmørk, ok allt sudr þadan. Hafdi þá um þessi fylki snúiz til hlýdni vid Svía-konúng, margir høfdíngjar ok mikit fólk annat. Þetta líkadi Haraldi Kon-úngi stór-illa, ok stefndi þegar þíng vid bænd-or þar á Foldinni, ok bar sakar á hendur þeim um landráð vid sik. Bændor qvamo þar sumir sýn fyrir sik; sumir guldu fé, sumir sættu refsíngum. Fór hann sva um sumarit of þat fylki. Um haustid fór hann uppá Raumaríki, ok fór þar allt at sama hætti, at hann lagdi undir sik þat fylki. Þá spurdi hann øndverdann vetr, at Eiríkr Svía-konúngr reid um Vermaland at veizlum med hird sína.

## Kap. XV.

### Konúngar þyggja veizlu at Aka, ok um dráp hans.

Haraldr Konúngr bjó ferd sína austr um Eydaskóg, ok kom fram í Vermalandi, lét hann þar búa veizlor fyrir sér. Aki hét madr, hann var ríkastr bóndi á Vermalandi, stórandigr, ok þá gamall at aldri. Hann sendi menn til Haralds Konúngs, ok baud honum til veizlo. Konúngr hét ferdinni at ákvednum degi. Aki baud ok Eiríki Konúngi til veizlo, ok lagdi honum inn sama stefnodag. Aki átti mikinn veizlo-skála, ok var þá forn; hann lét þá gèra annann nýann veizlo-skála, ecki minna, ok vanda sem mest; hann lét þann skála tjalda allann nýum búnadi; en hinn forna skála med fornodom búnadi. En er Konúngar komo til veizlunnar, þá var skipat Eiríki Konúngi med sinni hird í inn forna skála, en Haraldi í inn nýa skála med sínu lidi. Þannog var skipt bordbúnadi øllum, at Eiríkr Konúngr ok hans menn hefdo forn kér ok horn, ok þó gyllt ok allvel búin, en Haraldr Konúngr ok hans menn høfdo øll ný kér ok horn, ok búin øll med gulli: þau vóru øll líkud, ok skygd sem gler; en dryckr var hvartveggi inn besti. Aki bóndi hafdi fyrr verit madr Hálfdanar Konúngs Svarta. En er sá dagr kom, er veizlan var øll, þá bjugguz Konúngar til brottferdar, vóro þá reid-skjótar búnir; þá géck Aki fyrir Harald Kon-

úng,

kúng, ok leiddi med sér son sinn 12 vetra gamlann, sá hét Ubbi. Aki mælti: ef ydr þyckir, Herra! vináttu vert fyrir gódvilja minn, er ek hefi lýst vid ydr í heimbodi míno, þá launi þér syni mínum; hann gef ek þér til þjónustomanns. Konúngr þackadi hanom med mørgum fogrum ordum sinn fagnad, ok hét hanom þar í mót fullkominni sinni vinátto. Sídan greiddi Aki fram stórar gjafir, er hann gaf Konúngi. Sídan mintiz Aki vid Konúng. Eptir þat geck Aki til Svía konúngs, var þá Eiríkr Konúngr klæddr, ok búinn til ferdar, ok var hann heldr úkátr. Aki tók þá góda gripi, ok gaf Konúngi. Konúngr svarar fá, ok steig á hest sinn. Aki geck á leid med Konúngi, ok taladi vid hann. Skógr lá nær bænum, ok lá þar vegrinn yfir. En er Aki kom á skóginn, þá spurdi Konúngr hann: hví skiptir þú sva fagnadi med ockr Haraldi Konúngi, at hann skyldi hafa af ollu inn betra lut, ok veizlu at þú ert minn madr. Ek hugda, segir Aki, at ydr Konúngr ok ydra menn, mundi engann fagnat skort hafa at þessi veizlo; en at þar var forn búnadr, er þér druckut, þá veldr þat því, at þér erut nú gamlir, en Haraldr Konúngr er nú í blóma aldurs, feck ek honum af því nýann búnat: en þar er þú minntir mik, at ek væri þinn madr, þá veit ek hitt ecki sídr, at þú ert minn madr; þá brá Konúngr sverdi ok hjó hann bana-høgg: reid braut sídan. En er Haraldr Konúngr var búinn at stíga á hest sinn, bad hann

hann kalla til sín Áka bóanda; en er menn leitodo hans, þá runno sumir þannog sem Eiríkr Konúngr hafdi ridit: fundo þeir þar Áka daudana. Fóro þeir aptr, ok sęgdo Haraldi Konúngi. En er hann spyr þetta, heitir hann á menn sína at þeir skuli hefna Áka bóanda; rídr þá Haraldr Konúngr ok menn hans þannog, er ádr hafdi ridit Eiríkr Konúngr, til þess er hvarir verda varir vid adra; þá rída hvarir sem mest mego, til þess er Eiríkr Konúngr kémr á skóg þann, er skilr Gautland ok Vermaland: þá snýr Haraldr Konúngr aptr á Vermaland, leggr hann þá land allt undir sik, en drap menn Eiríks Konúngs, hvar sem hann stód þá. Fór Haraldr Konúngr um vetrinn aptr á Raumariki ok dvaldiz þar um ríd.

## Kap. XVI.

### Ferd Haralds Konúngs til Túnsbergs.

Haraldr Konúngr fór um vetrinn út til Túnsbergs til skipa sinna; býr hann þá skipin, ok heldr austr yfir fjørdinn, leggr þá undir sik alla Víngulmørk; hann er úti á herskipum allann vetrinn, ok herjar á Ránríki. Sva segir Þórbjørn Hornklofi:

Uti vill jól drecka, | Ok Freys leik heyja.
Ef skal einn ráda, | Ungr leiddiz eldvelli
Fylkir inn framlyndi, | Ok inni at sitja,

Varma

Varma dyngjo Eda vottu dúns fulla.
Gautar høfdu samnat fyrir allt um landit.

## Kap. XVII.
### Orrosta á Gautlandi.

En um varit er ísa leysti, stikudu Gautar Gautelfi, at Haraldr Konúngr skyldi ecki mega leggja skipom sínom upp í landit. Haraldr Konúngr lagdi skipom sínom upp í elfina, ok lagdiz vid stikin, herjadi þá á bædi lønd, ok brendi bygdina. Sva segir Hornklosi:

Grennir þraung at gumi
Gummás fyrir haf sunnan
Sá var gramr ok gunnum
Sedvordr, und sik jørdo
Ok hjálm tamidr hilmir
Hólm reidar let ólman
Lindi hjørt fyrir landi
Lund prúdr vid stik bundinn.

Sidan rido Gautar ofan med her mikinn, ok héldu orrostu vid Harald Konúng, ok vard þar allmikid mannfall, ok lauk sva at Haraldr Konúngr hafdi sigr. Sva segir Hornklosi:

Ríki þreifz reiddra eyra
Rymr, knátto spjor glymja
Svart skygd bito seggi
Sverd Þjód-konúngs ferdar
Þá er hugfylldra hølda
Hlaut annskoti Gauta
Hár var saungr of svírum
Sigr flugbeiddra vigra.

## Kap. XVIII.
### Fall Rana Gautska.

Haraldr Konúngr, fór vída um Gautland herskyldi, ok átti þar margar orrostor, tveim

megin elfarinnar, ok fêck hann optaz sigr. En î einhverri orrosto fêll Rani Gauzki. Sîdan lagdi Haraldr Konúngr land allt undir sik fyrir nordan elfina, ok fyrir vestan Væni, ok Vermaland allt. En er hann snériz þadan î brott, þá setti hann þar eptir til landgæzlo Guthorm Hertoga, ok lid mikit med hanom; en Haraldr Konúngr snériz þá til Upplanda, ok dvaldiz þarum hríd.; fór sídan nordr um Dofrafjall til Þrándheims, ok var þar enn lángar hrídir. Haraldr Konúngr tók þá at eiga børn; þau Åsa áttu 4 syni: Guthormr var ellzr, Hálfdan Svarti ok Hálfdan Hvíti vóru tvíburar; Sigfrødr hinn fjórdi. Þeir vóru allir úppfæddir î Þrándheimi med miklom sóma.

## Kap. XIX.

### Orrosta î Hafursfirdi.

Þau tídindi spurduz sunnan or landi, at Hørdar ok Rygir, Egdir ok Þilir sømnuduz saman, ok gêrdo uppreist bædi at skipom ok vapnom, ok fjølmenni: vóru þeir upphafsmenn Eirikr Hørdalands Konúngr, Sulki Konúngr af Rogálandi, ok Sóti Jarl bródir hans, Kjøtvi hinn Audgi, Konúngr af Øgdum, ok Þórir Haklángr sonr hans; af Þelamørk brædur tveir Róaldr Hryggr, ok Haddr hinn Hardi. En er Haraldr Konúngr vard þessa tídenda víss, þá dró hann her saman, ok skaut skipom á vatn, bjóz sídan med lidit, ok fer med landi

sudr,

sudr, ok hafdi mart manna or hverjo fylki. En er hann kémr sudr um Stad, þá spyr þat Eiríkr Konúngr; hafdi hann þá ok samankomit því lidi, er hanom var ván. Fer hann þá sudr í móti því lidi, er hann vissi at anstan mundi koma til fulltingis vid hann: mættiz þá herinn allr fyrir nordan Jadar, ok leggja þá inn til Hafursfjardar; þar lá fyrir Haraldr Konúngr med her sinn. Tókz þegar orrosta mikil; var sú bædi hørd ok laung: en at lyktom vard þat at Haraldr Konúngr hafdi sigr, en þar féllo þeir Eiríkr Konúngr, ok Sulki Konúngr, ok Sóti Jarl bródir skipi hans: Þórir Haklángr hafdi lagt skip sitt í móti Haralds Konúngs; var Þórir berserkr mikill; var þar allhørd atsókn, ádr Þórir Haklángr féll; var þá rodit allt skip hans. Þá flýdi Kjøtvi Konúngr út í hólma nockorn, þar er vígi var gott. Sídan flýdi allt lid þeirra; sumt á skipum, en sumt ljóp á land upp, ok sva it efra sudr um Jadar. Sva segir Hornklofi:

Heyrdir þú í Hafursfirdi
Hve hizig bardiz
Konúngr hinn kynstóri
Vid Kjøtva hinn audga:
Knerrir komo ansian
Kapps of lystir
Med gínondom høfdom
Ok grøfnom tínglom.

Hladnir vóro þeir hølda
Ok hvítra skjalda
Vígra vestrænna
Ok valskra sverda:
Grenjodo berserkir
Gudr var þeim á sinom,
Emjado úlfhednar
Ok ísarn gullo.

Freist-

Freistodo hins fram-
ráda
Er þeim flýa kendi
Allvaldz austmanna
Er bjó[r]r at Utsteini:
Stodom nockva brá still-
ir
Er honum var styrjar
væni:
Hlommon var á hlífom
Adr Haklángr felli.
Leiddiz þá fyrir Lúfo
Landi at halda
Hilmi inom háls digra
Hólm let ser at skjaldi:
Slógoz und sess þyljor
Er sárir voro
Leto upp stjolo stupa
Stúngu í kjol høfdom.
A baki leto blikja
Bardir vóru grjóti
Svafnis salnæfrar
Seggir hyggjandi:
Æstoz andkylfor
Ok of Jadar ljópo
Heim or Hafursfirdi
Ok hugdo á mjøddryckjo.

## Kap. XX.

### Haraldr Konúngr verdr einvaldr at Noregi, ok um eydi-landa bygging.

Eptir orrosto þessa féck Haraldr Konúngr enga mótstødu í Noregi; vóro þá fallnir allir mótstødomenn ok hinir mesto fjandmenn hans; en sumir flýdo or landi; ok var þat almikill mannfjøldi: þviat þá bygdoz stór eydilønd: þá bygdiz Jamtaland ok Helsingjaland, ok var þó ádr hvartveggja nockot bygt af Nordmønnom. J þeim úfridi, er Haraldr Konúngr géck til lands í Noregi, þá funnuz ok bygduz útlønd, Færeyar ok Jsland: þá var ok mikil ferd af Nordmønnum til Hjaltlands, ok margir ríkismenn af Noregi flýdo útlaga fyrir Haraldi

aldi Konúngi, ok fóro í vestr-víking: vóru í Orkneyum eda Sudreyum á vetrom, en á sumrum herjado þeir í Noregi, ok gérdo þar mikinn landz-skada. Margir vóru þeir ok ríkismenn, er gengu til handa Haraldi Konúngi, ok gérdoz hans menn, ok bygdo lønd med hanom.

## Kap. XXI.

### Frá børnum Haralds Konúngs ok kvanføngum.

Haraldr Konúngr var nú einvaldi ordinn alls Noregs, þá minntiz hann þess er mærin sú hin mikilláta hafdi mælt til hans: hann sendi þá menn eptir henni, ok lét hana hafa til sín, ok lagdi hana hjá sér; þessi vóru børn þeirra: Alof var ellzt, þá var Hrærekr, þá Sigtryggr, Fródi ok Þorgills. Haraldr Konúngr átti margar konur. ok mørg børn: hann féck þeirrar kono er Ragnhildr hét, dóttir Eiríks Konúngs af Jótlandi; hún var køllot Ragnhildr hin Ríka: þeirra son var Eiríkr Blódøx. Enn átti hann Svanhildi dóttur Eysteins Jarls; þessir vóru synir þeirra: Olafr Geirstada-álfr, Bjørn ok Ragnarr Ryckill. Enn átti Haraldr Konúngr Ashildi, dóttur Hrings Dagssonar ofan af Hrínga-ríki; þeirra børn vóro: Dagr ok Hríngr, Gudrødr Skirja ok Ingigérdr. Sva segja menn, at þá er Haraldr Konúngr

fèck Ragnhildar Ríko, at hann léti þá af 9 konum sínum. Þess gétr Hornklofi:

Hafnadi Hólmrygjom Ok Hølga ættar
Ok Hørda meyom Konúngr hinn kynstóri
Hverri hinni Heinversku Er tók konuna donsko.

Børn Haralds Konúngs vóru þar hver uppfædd, sem móderni átti. Guthormr Hertogi hafdi vatni ausid hinn ellzta son Haralds Konúngs, ok gaf nafn sitt; hann knésetti þann svein ok fóstradi, ok hafdi med sér í Vík austr: fæddiz hann þar upp med Guthormi Hertoga. Guthormr Hertogi hafdi alla stjórn landsins um Víkina ok um Upplønd, þá er Haraldr Konúngr var ecki nær.

## Kap. XXII.

### Vestrferd Haralds Konúngs.

Haraldr Konúngr spurdi at vída um midtlandit herjado víkingar, þeir er á vetrum vóru fyrir vestan haf; hann hafdi þá leidángr úti hvert sumar, ok kannadi eyar ok útsker. en hvar sem víkingar urdu varir vid her hans, þá flýdo allir, ok flestir á haf út. En er Konúngi leiddiz þettà starf, þá vard þat á einu sumri, at Haraldr Konúngr sigldi med her sinn vestr um haf; kom hann fyrst vid Hjaltland, ok drap þar alla víkinga þá er ecki flýdo undan. Sídan siglir Haraldr Konúngr sudr til Orkneya, ok reinsadi þar allt af víkingom. Eptir þat fer hann allt í Sudreyjar,

ok

ok herjar þar: hann drap þar marga víkinga, þá er fyrir lidi rédo ádr Hann átti þar margar orrostur, ok hafdi jafnan sigr. Þá herjadi hann á Skotland, ok átti þar orrostur. En er hann kom vestr í Møn, þá høfdo þeir ádr spurt hvern hernad hann hafdi gjørt fyrrum þar í landi, þá flýdi allt fólk inn á Skotland, ok var þar aleyda, af mennom: braut var ok flutt allt fé þat er mátti. En er þeir Haraldr Konúngr gengu á land, þá fengu þeir ecki herfáng. Sva segir Hornklofi:

Menfergir bar margar
Margspakr nidar varga
Luudr vann sókn á sandi
Sandmens í by randir;
Adr fyrir ælian fródom
Allr herr Skota þverri
Løgdis æids af ládi
Læbrautar vard flæja.

I þessum orrostom féll Ivar son Røgnvalds Mæra-Jarls, en í bætur þess gaf Haraldr Konúngr Røgnvaldi Jarli, er hann sigldi vestan, Orkneyar ok Hjaltland; en Røgnvaldr gaf þegar Sigurdi bródur sínom bædi løndin, ok, var hann vestr eptir. Haraldr Konúngr gaf Sigurdi jarldóm, ádr Konúngr sigldi austr. Þá kom til lags vid hann Þorsteinn Raudi, sonr Olafs Hvita ok Audar hinnar Djúpaudgu; þeir herjado á Skotland, ok eignuduz Katanes, ok Sudrland allt til Eckjals-backa. Sigurdr Jarl drap Melbrigda Tonn, Jarl skotskann, ok batt høfut hans vid slagálar sér, ok laust kykqva vødva sínum á tønnina, er skagdi or høfdino, kom þar í blástr í fótinn, ok féck hann af því bana,

ok er hann heygdr á Eckjalsbacka; þá réd lendum Guthormr four haus einn vetr, ok dó hann barnlaus. Sídan settuz í løndin víkingar margir Danir ok Nordmenn.

## Kap. XXIII.

### Skorit hár Haralds Konúngs.

Haraldr Konúngr var á veizlo á Mæri, at Røgnvaldar Jarls; hafdi hann þá eignaz land allt, þá tók Haraldr Konúngr laugar, ok þá lét hann greida hár sitt, ok þá skar Røgnvaldr Jarl hár hans, en ádr hafdi verit úskorit ok úkembt 10 vetúr; var hann ádr kalladr Lúfa, en sídan gaf Røgnvaldr honum kénníngar nafn, ok kalladi hann Harald hinn Hárfagra, ok sogdo allir, er sá, at þat var et mesta sann-nefni; þvíat hann hafdi hár bædi mikit ok fagrt.

## Kap. XXIV.

### Gaungu-Rólfr útlægr gjørr.

Røgnvaldr Mæra-Jarl var hin mesti ástvin Haralds Konúngs, ok Konúngr virdi hann mikils. Røgnvaldr Jarl átti Hildi, dóttur Rólfs Nefju; synir þeirra varo þeir Rólfr ok Þórir. Røgnvaldr Jarl átti ok frillo-syni þrjá; hét einn Haraldr, annar Einar, hinn þridji Hrollaugr; þeir vóru roskuir, þá er hinir skírborno brædur þeirra vóru børn. Rólfr var víkingr mikill: hann var sva mikill madr

madr vexti, at engi hestr mátti bera hann, ok gêck hann hvargi sem hann fór: hann var kalladr Gaungo-Rólfr. Hann herjadi mjøk í Austrvegu. A eino sumri, er hann kom úr víking austan í Víkina, þá hjó hann þar strandhøgg. Haraldr Konúngr var þá í Víkinni; hann vard mjøk reidr, þá er hann spurdi þetta, þvíat hann hafdi mikit bann álagt, at ræna innanlandz. Konúngr lýsti því á þingi, at hann gørdi Rólf útlaga of allann Noreg. En er þat spurti Hildr módir Rólfs, þá fór hún á fund Konúngs, ok bad fridar Rólfi; Konúngr var svo reidr, at henni tjdi ecki at bidja. Þá kvad Hildr þetta:

Hafnit Nefjo nafna
Nú rekit gand or landi
Horskan hølda barma.
Hví bellit því stillir?
Illt er vid úlf at ýlfaz
Yggs val-bríkar slíkan
Muna vid hilmis hjardir
Hógr ef hann rennr til skógar.

Gaungu-Rólfr fór sídan vestr um haf í Sudreyar, ok þadan fór hann vestr í Valland, ok herjadi þar, ok eignadiz þar Jarlsríki mikit, ok bygdi þar mjøk Nordmønnum, ok er þar sídan kallat Normandí. Sonr Gaungu-Rólfs var Viljalmr, fadir Ríkardar, fødur annars Ríkardar, fødur Rodberts Laungu-spada, fødur Viljailms Bastardar Engla-konúngs; frá honom ero sídan komnir Engla-konúngar allir. Af Rólfs ætt ero ok komnir Jarlar í Normandí. Ragnhildr drottníng hin Ríka lifdi 3 vetur sídan er hún kom í Noreg. En

eftir dauda hennar, fór Eiríkr sonr þeirra Haralds Konúngs til fósturs í Fjørdo til Þóris Hersis Hróaldssonar, ok fœddiz hann þar upp.

## Kap. XXV.

### Frá Svasa jøtni ok Haraldi Konúngi.

Haraldr Konúngr fór einn vetr at veizlom um Upplønd, ok lét búa sér til Jóla-veizlo á Þóptum. Jóla aptan kom Svaſi fyrir dyr, þá er Konúngr sat yfir bordum, hann sendi Konúngi bod, at hann skyldi útgánga til hans; en Konúngr bráz reidr vid þessum sendibodum, ok bar hinn sami madr reidi Konúngs út, sem honum hafdi borit bodin inn. En Svaſi bad bera ecki at sídr annat sinn erindit, ok qvad sik vera þann Finninn, er Konúngr hafdi játat at sœkja gamma sinn þar annan veg breckunnar. En Konúngr géck út, ok vard honum þess jáſsi at fara heim med honum, ok géck yfir breckuna í gamma hans, med áeggjan sumra sinna manna, þó sumir letti. Þar stód upp Snæfridr, dóttir Svaſa, qvenna fríduzt, ok byrladi Konúngi kér fullt mjadar, en hann tók alltsaman kérit ok hønd hennar, ok þegar var sem elldshiti qvæmi í hørund honum, ok vildi þegar hafa samrædi vid hana á þeirri nótt: en Svaſi segir, at þat mundi ecki vera, nema at honum naudgum, nema Konúngr festi hana, ok fengi at løgum; en Haraldr Konúngr festi Snæfridi, ok féck hennar; ok

ok unni sva mèd ærslom, at ríki sitt fyrirlét hann, ok allt þat er Konúngs tign byrjadi. Þau áttu 4 sonu: einn var Sigurdr Rísi, Hálfdan Háleggr, Gudrødr Ljómi, Rögnvaldr Rettilbeini. Sídan dó Snæfridr, en litr hennar skipadiz á engann veg; var hún þá jamrjód, sem þá er hún var kvik. Konúngr sat æ yfir henni, ok hugdi at hún mundi lifna: fór svo fram 3 vetur, at hann syrgdi hana dauda; en allr landslýdr syrgdi hann villtann. En þessa villo at lægja kom til læknar Þorleifr Spaki, er med viti lægdi þá villo; fyrst med eptirmæli sva mælandi: Ecki er Konúngr kynligt, at þú munir sva frida kono ok kynstóra, o: tignir hana á dúni, ok á gudvefi sem hún bad þik: en tign þín er þó minni enn hæfir, ok hennar í því, at hún liggr ofr lengi í sama fatnadi, ok er miklo sannligra, at hún sé hrærd, ok sé skipt undir henni klædom. En þegar er hún var hrærd or reckjonni, þá slær ýldo ok ópefan ok hverskyns illum fnyk af líkamanom; var þá hvatat at báli, ok var hon brend; blánadi ádr allr hennar búkr, ok ullu út or ormar ok edlor, froskar ok pøddor, ok allzkyns illyrmi; seig hún sva í øsko, en Konúngrinn steig til vitsko, ok hugdi af heimsko; stýrdi sídan ríki sino, ok styrktiz ok gladdiz hann af þegnom sínom, en þegnar af hánom, en ríkit af hvarotveggja.

## Kap. XXVI.

### Frá Þjóðólfi or Hvini.

Eptir þat er Haraldr Konúngr hafdi reynt svik Finnunnar, þá vard hann sva reidr, at hann rak frá sér sono kína ok finnurnar, ok vildi ecki sjá þá. En Gudrødr Ljómi fór á fund Þjóðólfs hins Hvinverska, fóstrfødor síns, ok bad hann fara med sér til Konúngs; þviat Þjóðólfr var ástvin Haralds Konúngs, en Konúngr var þá á Upplødum. Þeir fóru sídan: en er þeir komo til Konúngs síd aptans, ok settoz nidr utarliga, ok duldoz. Konúngr géck á gólfinu, ok sá á beckina; en hann hafdi veizlu nockura, ok var mjødr blandinn, þá qvad hann þetta fyrir munni sér:

Miøk ero míni reckar
Til mjød gjarnir fornir,
Ok her komnir hárir
Hví erut æfar margir?

Þá svarar Þjóðólfr:

Høfdom ver í høfdi
Høgg at eggja leiki.
Med vell-brota vitrum
Varom at þá til margir.

Þjóðólfr tók þá ofan hettinn af høfdi sér, ok kéndi Konúngr hann þá, ok fagnadi honum vel. Þá bad Þjóðólfr Konúng, at hann skyldi ecki fyrirlíta sonu sína; þvíat fúsir mundi þeir at eiga betra móderni, ef þú hefdir þeim þat fengit. Konúngr játadi honum því, ok bad hann hafa Gudrød heim med sér, sva sem hann hafdi fyrr verit; en Sigurd ok Hálfdan bad hann fara á Hríngaríki; en

Røgn=

Røgnvald bad hann fara á Hadaland. Þeir géra sva sem Konúngr baud. Gérduz þeir allvaskligir menn, ok vel búnir at íþróttum. Haraldr Konúngr sat þá um kyrt innanlanz, ok var fridr gódr ok árferd.

## Kap. XXVII.

### Upphaf Torf-Einars Jarls í Orkneyum.

Røgnvaldr Jarl á Mæri spurdi fall Sigurdar bródur síns, ok þat, at þá sáto íløndonom víkingar; þá sendi hann vestr Hallad son sinn, ok tók hann ádr Jarls nafn, ok hafdi lid mikit. En er hann kom til Orkneya, þá settiz hann í løndin; en bædi á haust ok um vetr, ok um vár, fóro víkingar um eyarnar, ok námo nesnám ok hjoggo strandhøgg. Þá leiddiz Halladi Jarli at sitja í eyonom, velltiz hann þá or Jarldóminum, ok tók Hollds rétt, fór hann sídan austr í Noreg. En er Røgnvaldr Jarl spurdi þetta, lét hann illa yfir ferd Hallaðar, segir at synir hans mundi verda úlíkir forellri sîno. Þá svarar Einar; ek hefi lítinn metnad af þér; á ek vid litla ást hér at skiljaz: mun ek fara vestr til eyja, ef þú vilt fá mér styrk nockurn; mun ek því heita þér, er þér mun allmikill fagnadr á vera, at ek mun ecki aptr koma til Noregs. Røgnvaldr Jarl svarar: at þat likadi honom vel, at hann qvæmi ecki aptr; þviat mér er lítils

vin, at frændom þínom sé sæmd at þér; því at módur ætt þín öll er þrælborin. Rögnvaldr Jarl féck Einari eitt lángskip alskipat. Sigldi Einar um haustit vestr um haf. En er hann kom til Orkneyja, þá lágu þar fyrir víkingar tveim skipum, Þórir Tréskegg ok Kálfr Skurfa. Einar lagdi þegar til orrosto vid þá, ok sigradiz, en þeir féllo bádir. Þá var þetta qvedit:

Þá gaf hann Treskegg trollom
Torf-Einarr drap Skurfo.

Hann var fyrir því kalladr Torf-Einarr, at hann lét skera torf, ok hafdi þat fyrir elldivid, þvíat engi var skógr í Orkneyom. Sídan gjördiz Einar Jarl yfir eyonom, ok var hann ríkr madr: hann var ljótr madr ok einsýnn, ok þó manna skygnastr.

## Kap. XXVIII.

## Andlát Eiríks Konúngs Eymundarsonar.

Guthormr Hertogi sat optaz í Túnsbergi, ok hafdi yfirsókn allt um Víkina, þá er Konúngr var ecki nær, ok hafdi þar landvern; var þar þá mjök hérskátt af víkingom; en úfridr var uppá Gautland medan Eiríkr Konúngr lifdi Eymundarson; hann andadiz þá er Haraldr Konúngr hinn Hárfagri, hafdi verit 10 vetur Konúngr í Noregi.

Kap.

## Kap. XXIX.

### Daudi Guthorms Hertoga.

Eptir Eirik var Konúngr í Svíþjód Biørn sonr hans 50 vetra; hann var fadir þeirra Eiriks ens Sigrsæla, ok Olafs fødur Styrbjarnar. Guthormr Hertogi vard sóttdaudr í Túnsbergi. Þá gaf Haraldr Konúngr yfir-sókn ríkis þess alls Guthormi syni sínum, ok setti hann þar høfdíngja yfir.

## Kap. XXX.

### Brenna Røgnvalds Mæra-Jarls.

Þá er Haraldr Konúngr var fertugr at aldri, þá vóro margir synir hans vel á legg komnir; þeir vóru allir bráþgiørvir: kom þá sva, at þeir undo illa vid, er Konúngr gaf þeim ecki ríki, en setti Jarl í hverjo fylki, ok þótti þeim Jarlar vera smábornari enn þeir vóro. Þá fóro þeir til á eino vári, Hálfdan Háleggr ok Gudrødr Ljómi vid mikla sveit manna, ok komo á úvart Røgnvaldi Mæra-Jarli, ok tóku hús á honum, ok brendo hann inni vid 60 manna. Þá tók Hálfdan langskip 3 ok skipadi, ok siglir sídan vestr um haf, en Gudrødr settiz þar at løndum, sem ádr hafdi haft Røgnvaldr Jarl. En er Haraldr Konúngr spurdi þetta, þá fór hann þegar med lidi miklo á hendur Gudrødi, ok sá Gudrødr engann annann sinn kost, enn gèfaz upp á vald Haralds

els Konúngs, ok sendi Konúngr hann austr á Agdir. En Haraldr Konúngr setti þá yfir Mæri Þóri son Rognvalds Jarls, ok gipti honom Alǿfu dóttur sína, er kǫllut var Arbót. Þórir Jarl Þegjandi hafdi þá ríki þvílikt, sem haft hafdi Rognvaldr Jarl fadir haas.

## Kap. XXXI.

### Daudi Hálfdanar Háleggs.

Hálfdan Háleggr kom vestr til Orkneya, ok mjǫk á úvart; ok flýdi Einar Jarl þegar or eyonom, ok kom aptr þegar um haustit, ok kom þá á úvart Hálfdani. Þeir hittuz, ok vard skomm orrosta, ok flýdi Hálfdan, ok var þat vid nótt sjálfa; lágu þeir Einar tjaldalausir um nóttina. En um morguninn er lýsa tók, fóro þeir at leita flóttamanna um eyarnar, ok var hverr drepinn þar er stadinn vard. Þá mælti Einar Jarl: ecki veit ek segir hann, hvært ek sé út á Rinans-ey mann edr fugl, stundum hefz upp, stundum leggz nidr. Sídan fóro þeir þannog til, ok fundu þar Hálfdan Hálegg, ok tóko hann hondom. Einar Jarl kvad víso þessa um aptaninn, ádr hann lagdi til orrosto:

Sékat ek Hrólfs or hendi
Ne Hrollaugi fljúga
Dǫrr á dólga mengi,
Dugir oss fǫdur hefna:
En í qvǫld þar er kuþom
At kerstraumi rómo
Þegjandi situr þetta
Þórir Jarl á Mæri.

Þá gêck Einarr Jarl til Hálfdanar; hann reist ǫrn á bak honum vid þeima hætti, at hann lagdi

lagdi sverdi á hol vid hrygginn, ok reist rifin oll ofan allt á lendar, ok dró þar út lúngun; var þat bani Hálfdanar. Þá qvad Einarr:

Rekit hefi ek Rögnvalds dauda,
En redo því nornir;
Nú er fólk-studill fallinn
At fjórdúngi mínom
Verpit snarpir sveinar
Þvíat ek gri ver rádumk,
(Skatt vel ek honum hard-ann)
At hásætu grjóti.

Sídan tók Einarr Jarl at sér Orknevar sem fyrr hafdi hann haft. En er tídindi þeßi spurjaz í Noreg, þá kunna þesso stórilla brædor Hálfdanar, ok kollodo hefnda fyrir verdt, ok margir sønnudu þat adrir. En er Einarr Jarl spyrr þetta, þá qvad hann:

Eru til míns fiørs margir
Menn of sannar deildir
Or ýmissom áttom,
O-smábornir gjarnir.
En þó vito þeigi
Þat ádr mik hafa felldan
Hverr ilþorna arnar
Undir hlýtr at lúta.

## Kap. XXXII.

### Sætt Haralds Konúngs ok Einars Jarls.

Haraldr Konúngr baud lidi út, ok dró saman her mikinn, ok fór sídan vestr til Orkneyja. En er Einar Jarl spurdi, at Haraldr Konúngr var austan kominn; þá ferr hann yfir á nes. Þá kvad hann víso þessa:

Margr verdr sekr of saudi
Seggr med fogro skeggi;
En ek at úngs í eyom
Allvalds sonar falli.

Hætt

Hætt segja mer høldar Haralds hefi ek skard í
Vid hugfullan stilli; skildi
(Skalat ugga þat) høggvit.

Þá fóro menn ok ordsendíngar millom Konúngs ok Jarls; kom þá sva, at þar vard ákomit stefnulagi, ok finnaz þeir sjálfir, ok festi þá Jarl allt á Konúngs dóm. Haraldr Konúngr dæmdi á hendur Einari Jarli, ok ollom Orkneyíngom, at gjalda 60 marka gulls. Bóndum þótti gjald ofmikit. Þá baud Jarl þeim at hann mundi einnsamann gjalda, ok skyldi hann eignaz þá ódol øll í eyonom. Þessu játudo þeir allir, mest fyrir þá sek, at hinir snaudu áttu litlar jardir, en hinir audgu hugduz mundo leysa sín ódol, þegar er þeir vildu; leysti Jarl allt gjaldit vid Konúng. Fór Konúngr þá austr aptr um haustit. Var þat lengi sídan í Orkneyom, at Jarlar átto ódol øll, allt þar til er Sigurdr Lødvisson gaf aptr ódulin.

## Kap. XXXIII.

### Fall Guthorms ok Hálfdanar Hvíta, sona Haralds Konúngs.

Guthormr sonr Haralds Konúngs hafdi landvørn fyrir Víkinni, ok fór hann med herskipum et ytra; en er hann lá í Elfarkvíslom, þá kom þar Sølvi Klofi, ok lagdi þegar til orrosto vid hann; þar fell Guthormr. Hálfdan Svarti ok Hálfdan Hviti lágo í hernadi, ok herjado um Austrveg. Þeir átto orr-

orrosto mikla á Eistlandi. Þar féll Hálfdan Hviti.

## Kap. XXXIV.

### Qvanfáng Eiriks Konúngs.

Eirikr Haraldsson var at fóstri med Þóri Hersi Hróaldssyni í Fjördum; hanom unni Haraldr Konúngr mest sona sinna, ok virdi hann mest. Þá er Eirikr var 12 vetra gamall, fékk Haraldr Konúngr hanom 5 lángskip, ok fór hann í hernad, fyrst í Austrveg, ok þá sudr um Danmörk, ok um Frisland ok Saxland, ok dvaldiz í þeirri ferd 4 vetur. Eptir þat fór hann vestr um haf, ok herjadi um Skotland, Bretland, Irland ok Valland, ok dvaldiz þar adra 4 vetur; Eptir þat fór hann nordr á Finnmörk, ok allt til Bjarmalands, ok átti hann þar orrosto mikla, ok hafdi sigr. Þá er hann kom aptr á Finnmörk, þá fundo menn hans í gamma einom kono eina, þá er þeir höfdo enga sjed jamvæna; hún nefndiz fyrir þeim Gunnhildr, ok sagdi at fadir hennar bjó á Hálogalandi, er hét Özorr Tóti. Ek hefi hér verit til þess segir hon, at nema kunnosto af Finnum tveim, er hér ero fródastir á mörkinni: nú ero þeir farnir á veidar; en bádir þeir vilja ega mik; en þeir ero sva vísir, at þeir rekja spor sem hundar, bædi á þá ok á hjarni. Þeir kunna ok sva vel á skídom, at ecki má fordaz þá hvarki menn né dýr; hvatki er þeir skjóta til þá hæfa þeir; sva hafa þeir fyrirkomit hverjom manni, er

er hér hefir komit í nánd; ok ef þeir verda reid-ir, snýz jerd um fyrir sjónum þeirra; en ef nockot quikt verdr fyrir sjónom þeirra, þá fellr dautt nidr. Nú megut þér fyrir engann mun verda á veg þeirra; mun ek fela ydr hér í gamm-anom; skulut þér þá freista, ef vér fám drepit þá. Þeir þecktuz þetta. Sídan fal hon þá; hon tók línseck einn, ok hugdo þeir at aska væri í; hon tók þat í hendi sér, ok seri því um gamm-ann utan ok innan. Litlu sídar koma Finnar heim: þeir spyrja hvat þar er komit? hon segir at þar er ecki komit. Finnom þickir þat undar-ligt, þar er þeir høfdo rakit spor allt at gamm-anom, en sídan finna þeir ecki. Þá gêra þeir sér eld ok matbúa; en er þeir vórd mettir, þá býr Gunnhildr reckjo sína. En sva hafdi ádr farit 3 nætur, at Gunnhildr hefir sofit, en hverr þeirra hefir vakat yfir ødrum, fyrir abrydis sakir. Þá mælti hon til Finna: farit nú hegat, ok liggi á sína hlid mér hvarr yckarr. Þeir urdu þesso fegnir, ok gêrdo sva: hún hêllt sinni hendi um háls hvarum þeirra; þeir sofna þegar, en hún vekr þá; ok enn brádliga sofna þeir, ok sva fast, at hún fær varliga vakit þá; ok enn sofna þeir; ok fær hon þá fyrir engann mun vakit þá; ok þá setr hon þá upp, ok enn sofa þeir; hún tekr þá selbelgi tva mikla, ok steypir yfir høfut þeim, ok bindr at sterkliga fyrir nedan hendurnar: þá gêrir hon bending Konongs mønnom, laupa þeir þá fram, ok bera vapn á Finna ok fá hladit þeim, draga þá út or gammanom. Um nóttina eptir

eptir vóro reidar-þrumur sva stórar, at þeir mátto hvergi fara. En at morgni fóro þeir til skips, ok hefdo Gunnhildi med sér, ok færdu hana Eiríki. Fóro þeir Eiríkr þá sudr til Hálogalands; hann stefndi þá til sín Özori Tóta; Eiríkr segir, at hann vill fá dóttur hans; Özor játti því: fær þá Eiríkr Gunnhildar, ok hefir med sér sudr í land.

## Kap. XXXV.

### Haraldr skiptir ríki med sonum sínum.

Haraldr Konúngr var þá fimmtogr at aldri, er synir hans vóru margir rosknir, en sumir daudir: þeir gerdoz þá margir ofstopamenn miklir innanlands, ok vóru sjálfir osáttir. Þeir ráku af eignum Jarla Konúngs, en suma drápu þeir. Haraldr Konúngr stefnir þá þing fjølmennt sudr í landi, ok baud til øllum Upplendíngum: þá gaf hann sonom sínom øllom Konúnga nøfn, ok setti þat í løgom, at hans ættmenn skyldo hverir konúngdóm taka eptir fødur sinn; en jarldóm sá er kvennsifr væri af hans ætt kominn. Hann skipti landi med þeim: Víngulmørk, Raumaríki, Vestfold, Þelamørk, þat gaf hann Olafi, Birni, Sigtryggvi, Fróda, Þórgilsi; en Heidmørk ok Gudbrandzdali gaf hann Dag ok Hring ok Ragnari; Snæfrídar sonum gaf hann Hringaríki, Hadaland, Þotn, ok þat er þar

liggr til. Guthormi hafdi hann géfit til yfir-sóknar frá Elfi til Svínasunds ok Ránríki; hann hafdi hann sett til landvarnar austr vid landsenda, sem fyrr er ritat. Haraldr Konúngr siálfr var optaz um midt land. Rœrekr ok Gudrødr vóru jafnan innan hirdar med Konúngi, ok høfdo veizlor stórar um Hørdaland ok Sogn. Eiríkr Konúngr var med Haraldi Konúngi fedr sínom; honum unni hann mest sona sinna, ok virdi hann mest; honom gaf hann Hálogaland ok Nordmœri ok Raumsdal. Nordr í Þrándheimi gaf hann yfir sókn Hálfdani Svarta, ok Hálfdani Hvíta ok Sigrødi; hann gaf sonom sínom í hverjo þesso fylki hálfar tekjor vid sik, ok þat med, at þeir skyldo sitja í hásæti, skør hærra enn Jarlar, en skør lægra enn hann siálfr. En þat sæti ætladi sér hverr sona hans eptir hans dag, en hann siálfr ætladi þat Eiríki; en Þrœndr ætlodo þat Hálfdani Svarta; en Víkverir ok Upplendingar unnu þeim best ríkis er þeim vóro undir hendi. Af þesso vard mikit sundrþycki enn af nyo millom þeirra brœdra. En med þvi at þeir þóttuz hafa litit ríki, þá fóro þeir í hernad; sva sem sagt er, at Guthormr féll í Elfarqvíslom fyrir Sølva Klofa. Eptir þat tók Olafr vid þvi ríki er hann hafdi haft. Hálfdan Hvíti féll á Eistlandi. Hálfdan Háleggr féll í Orkneyom. Þeim Þorgilsi ok Fróda gaf Haraldr Konúngr herskip, ok fóro þeir í Vestr-

vik-

víking, ok herjado um Skotland ok Bretland ok Irland; þeir eignodoz fyrst Nordmanna Dyflinni. Sva er sagt, at Fróda væri gefinn bana dryckr; en Þorgils var lengi Konúngr yfir Dyflinni, ok var svikinn af Irom, ok fell þar.

## Kap. XXXVI.

### Daudi Røgnvalds Rettilbeina.

Eirikr Blódøx ætladi at vera Yfir-konúngr allra brædra sinna, ok sva vildi Haraldr Konúngr vera láta; vóro þeir fedgar laungom ásamt. Røgnvaldr Rettilbeini átti Hadaland, hann nam fjølkyngi, ok gerdiz seidmadr. Haraldi Konúngi þótto illir seid-menn. A Hørdalandi var sá seidmadr, er hét Vitgeirr; Konúngr sendi hánom ord, ok bad hann hætta seid: hann segir, ok qvad víso þessa:

Þat er vá litil | Er Røgnvaldr sidr
Þótt ver sidim | Rettilbeini
Karla børn | Hródmøgr Haralds
Ok kerlínga; | A Hadalandi.

En er Haraldr Konúngr heyrdi þetta sagt, þá fór at hans rádi Eirikr Blódøx til Upplanda, ok kom á Hadaland; hann brendi inni Røgnvald bródur sinn med 80 seidmanna, ok var þat verk lofad mjøk.

## Kap. XXXVII.

### Feigd Gudrødar Haraldssonar.

Gudrødr Ljómi var um vetrinn med Þjódólfi í Hvini fóstorfødor sínom, á kynnis sókn, ok hafdi skútu alskipada, ok vildi hann fara nordr á Rogaland. Þá lagduz á stormar miklir, en Gudrødi var annt um ferd sína, ok lét hann illa um dvølina. Þá qvad Þjódólfr:

Farit er ádr fleya
Flatvøllr hedan batnar
Verpr geitis vegr grjóti,
Gudrødr um sjá stóran:
Vindbýfna skaltu vísi
Vídfrægr hedan bída,
Verit med oss uns verdi
Vedr, nú er brim fyrir
Jadri.

Gudrødr fór sem hann ætladi, hvat sem Þjódólfr mælti. En er þeir komo fyrir Jadar, þá kafdi skipit undir þeim, ok létoz þar allir.

## Kap. XXXVIII.

### Fall Bjarnar Kaupmanns.

Bjørn sonr Haralds Konúngs réd þá fyrir Vestfold, ok sat optaz í Túnsbergi, en var lítt í hernadi. Til Túnsbergs sóttu mjøk kaupskip, bædi þar um víkina, ok nordan or landi, ok sunnan or Danmørk, ok af Saxlandi. Bjørn Konúngr átti ok kaupskip í ferdum til annara landa, ok afladi sér sva dýrgripa, eda annara fánga þeirra er hann þóttiz hafa þurfa. Brædur hans kølludo hann far-

mann

mann eda kaupmann. Bjørn var vitr madr ok vel stilltr, ok þótti vænn til høfdíngja; hann fèck sèr gott kvanfáng ok makligt; hann gat son er Gudrødr hèt. Eiríkr Blódøx kom or Austrvegi med herskip ok lid mikit; hann beidd-iz af Birni bródur sínum at taka vid skött-um ok skyldum þeim er Haraldr Konúngr átti á Vestfold; en hinn var ádr vandi, at Bjørn færdi sjálfr Konúngi skatt, edr sendi menn med; vildi hann enn sva vera láta, ok vildi ecki af höndum greida; en Eiríkr þóttiz vista þurfa, ok tjalda ok dryckjar. Þeir brædor þreytto þetta med kappmælum, ok fèck Eiríkr ecki at heldr, ok fór brott or bænom. Bjørn fór ok brott or bænum um qveldit, ok uppá Sæheim: Ei-ríkr hvarf aptr um nóttina eptir Birni, ok kom á Sæheim, er þeir Bjørn sáto yfir dryck-jo. Eiríkr tók hús á þeim, en þeir Bjørn gengo út ok börduz. Þar fjell Bjørn ok margt manna med honom. Eiríkr tók þár herfáng mikit, ok fór nordr í land. Þetta verk líkadi stór-illa Víkverjum, ok var Eiríkr þar mjøk úþockadr. Fóru þau ord um, at Olafr Kon-úngr mundi hefna Bjarnar bródur síns, ef honom gæfi færi á. Bjørn Konúngr liggr í Farmannshaugi á Sæimi.

## Kap. XXXIX.

### Sætt Konúnga.

Eiríkr Konúngr fór um vetrinn eptir nordr á Mæri ok tók veizlo í Sølva, fyrir inn-

an Agdanes. En er þat spurdi Hálfdan Svarti, fór hann til med her, ok tók hús á þeim. Eirikr svaf í útiskemmo, ok komst til skógar vid 5ta mann; en þeir Hálfdan brendo upp bæinn, ok lid allt þat er inni var; kom Eirikr á fund Haralds Konúngs med þessom tídindom. Konúngr vard þessu ákafliga reidr, ok samnadi her saman, ok fór á hendur Þrændom; en er þat spyr Hálfdan Svarti, þá bydr hann út lidi ok skipum, ok verdr allfjølmennr, ok lagdi út til Stads, fyrir innan Þórsbjørg. Haraldr Konúngr lá þá lidi sino út vid Reinslétto. Fóro þá menn milli þeirra. Guthormr Sindri hét einn gøfigr madr; hann var þá í lidi med Hálfdani Svarta, en fyrr hafdi hann verit med Haraldi Konúngi, ok var hann ástvinr beggja þeirra. Guthormr var skáld mikit, hann hafdi ort sitt qvædi um hvørn þeirra fedga; þeir høfdo honom bodit laun fyrir, en hann neitti, ok beiddiz at þeir skyldu veita hanom bæn eina, ok høfdo þeir þvi heitit. Hann fór þá á fund Haralds Konúngs, ok bar sættarord millum þeirra, ok bad þá hvaru tveggja þeirra bænar, ok þess at þeir skyldo sættaz. En Konúngar gérdo sva mikinn metnad hans, at af hans bæn sættoz þeir. Margir adrir gøfgir menn fluttu þetta mál med hánom. Var þat at sætt, at Hálfdan skyldi halda ríki øllu þvi, er ádr hafdi hann haft; skyldi hann ok láta óhætt vid Eirik bródur sinn. Eptir þessi søgu orti Jórun Skáldmær nockur erindi í Sendibit: Har-

Harald frá ek Hálfdan spyrja
Herdi brøgd en løgdiz
Sýniz svart-leikr reyni
Sjá bragr hinn Hárfagra.

## Kap. XL.
## Fæddr Hákon Gódi.

Hákon Grjótgardsson Hlada-Jarl hafdi alla yfir-sókn í Prándheimi, þá er Haraldr Koníngr var annarstadar í landi, ok hafdi Hákon mestann metnad í Præanda-løgum af Koníngi. Eptir fall Hákonar tók Sigurdr sonr hans ríki, ok gérdiz Jarl í Prándheimi; hann hafdi atseto á Hlødom. Med hánom fædduz upp synir Haraldz Koníngs Hálfdan Svarti ok Sigrødr, en ádr vóro þeir undir hendi Hákonar Jarls, fødur hans: þeir vóro mjøk jafnaldrar synir Haraldz ok Sigurdr. Sigurdr Jarl féck Bergljótar, dóttur Póris Jarls Þegjanda; módir hennar var Alof Arbot, dóttir Haraldz Hárfagra: Sigurdr Jarl var allra manna vitrastr. En er Haraldr Koníngr tók at eldaz, þá settiz hann optliga at stórbúum, er hann átti á Hordalandi á Alreksstødom, edr á Sæimi, á Fitjom, edr á Utsteini, edr á Øgvaldsnesi í Kørmt. Þá er Haraldr Koníngr var nær sjørædum, gat hann son vid konu þeirri er Póra er nefnd Morstrstaung; hún var æskod úr Mostr; hún átti góda frændor, ok var

í frændsemis telo vid Hörda-Kára: hún var kvinna mest ok hin fridasta: hún var kellut Konúngs ambátt. Vóro þá margir þeir Konongi lýdskyldir, er vel vóro ættbornir, bædi karlar ok konor. Sá var þá sidr um gøfigra manna børn, at vanda menn mjøk til at ausa vatni, ok gèfa nafn. En er at þeirri stundo kom, er Þóru var ván, at hún mundi barn ala, þá vildi hún fara á fund Haralds Konúngs, hann var þá nordr á Sæini, en hún var í Mostr; hún fór þá nordr á skipi Sigurdar Jarls. Þau lágo um nóttina vid land, þar ól Þóra barn uppá hellunni vid bryggjusporð; þat var sveinbarn. Sigurdr Jarl jós sveininn vatni ok kalladi Hákon eptir fedur sínom Hákoni Hlada-Jarli. Sá sveinn var snimma fríðr ok mikill vexti, ok mjøk líkr fødur sínom. Haraldr Konúngr lét sveininn fylgja módur sinni, ok vóro þau at Konúngs búum medan sveinninn var úngr.

## Kap. XLI.

### Ordsending Adalsteins Konúngs.

Adalsteinn hèt þá Konúngr í Englandi, er þá hafdi nýtekit vid konúngdómi; hann var kalladr hinn Sigrsæli ok hinn Trúfasti. Hann sendi menn til Noregs á fund Haralds Konúngs, med þesskonar sending, at sendimadr gèck fyrir Konúng; hann selr Konúngi sverd gullbúit med hjøltum ok medalkafla, ok øll um-

gērd var búin med gulli ok sylfri, ok sett dýrligum gimsteinum. Sendimadrinn vendi sverdshjoltunum til Konúngsins, ok mælti: hēr er sverd, er Adalsteinn Konúngr sendi þēr ok mælti, at þú skyldir vid taka. Tók Konúngr medalkaflann, ok þegar mælti sendimadrinn: nú tóktu vid sverdino, sem varr Konúngr vildi, ok nú skalto vera þegn hans, er þú tókt vid sverdi hans. Haraldr Konúngr skyldi nú at þetta var med spotti gērt; en hann vildi einkis manns þegn vera: en þó minntist hann þess, sem hans háttr var, at hvørt sinn er skjót ædi edr reidi ljóp á hann, at hann stillti sik fyrst, ok lēt sva renna af sēr reidina, ok leit á sakar úreidr. Nú gērir hann enn sva, ok bar þetta fyrir vini sína, ok finna þeir allir saman hēr rád til, þat et fyrsta, at láta sendimenn heim fara úspillta.

## Kap. XLII.

### Ferd Hauks til Englands.

Annat sumar eptir sendi Haraldr Konúngr skip vestr til Englands á fund Adalsteins Konúngs, ok fēck til stýrimann Hauk Hábrók; hann var kappi mikill, ok hinn kjærsti Konúngi: hánn fēck í hønd honom Hákon son sinn. Haukr fór þá vestr til Englands, ok fann Konúng í Lundunom. Þar var þá bod fyrir ok veizla virdulig. Haukr sagdi sínom mønnom, þá er þeir koma at høllinni, hvernog þeir skulo hátta inngøngonni; segir, at sá

 skal

skal síðarst útgánga, er fyrst gengr inn, ok allir standa jamnfram fyrir borðinu, ok hverr þeirra hafa sverð á vinstri hlið, ok festa sva yfirhøfnina at ecki sjái sverðit. Síðan gánga þeir inn í høllina; þeir vóro 30 manna. Géck Haukr fyrir Konúng, ok qvaddi hann; Konúngr bidr hann velkominn. Þá tók Haukr sveininn Hákon, ok setr á kné Aðalsteini Konúngi; Konúngr sjer á sveininn. ok spyr Hauk, hví hann fer sva? Haukr segir: Haraldr Konúngr bad þick fóstra honom ambáttar barn. Konúngr vard reidr mjøk, ok greip til sverðs, er var hjá honom, ok brá, sva sem hann vildi drepa sveininn. Haukr mælti: knésett hefir þú hann nú, ok máttu myrda hann, ef þú vill; en ecki munto med því eyda øllom sonom Haralds Konúngs. Géck Haukr síðan út, ok allir hans menn, ok fara leid sína til skips, ok halda í haf, er þeir vóro at því búnir, ok komo aptr til Noregs á fund Haralds Konúngs, ok líkadi honom nú vel; þvíat þat er mál manna, át sá væri útignari, er ødrom fóstradi barn. Í þvílíkum vidskiptum Konúnga fannz þat á, at hvárr þeirra vill vera meiri enn annarr, ok vard ecki misdeili gert tignar þeirra at heldr, fyrir þessar sakir; hvartveggi var Yfir-konúngr síns ríkis til dauda-dags.

## Kap. XLIII.

### Skírdr Hákon Aðalsteins-fóstri.

Aðalsteinn Konúngr lét skíra Hákon ok kenna rétta trú, ok góda sidu med allskonar i-

þróttum. Adalsteinn Konúngr unni honum svá mikit meira enn öllom frændom sínum, ok út í frá unni honom hverr madr annara; hann var vitr madr ok ordsnjállr, ok vel kristinn. Adalsteinn Konúngr gaf Hákoni sverd þat er hjöltin vóro or gulli, ok medalkaflinn; en brandrinn var þó betri: þar hjó Hákon med kvern-stein til augans; þat var sídan kallat Kvernbítr. Þat sverd hefir bezt komit til Noregs; þat átti Hákon til dauda-dags.

## Kap. XLIV.

### Leiddr Eiríkr til ríkis.

Haraldr Konúngr var þá áttrædr at aldri; gérdiz hann þá þúngfær, svá at hann þóttiz ecki mega fara yfir land, edr stjórna Konúngs málom. Þá leiddi hann Eirík son sinn til hásætis síns, ok gaf honom vald yfir landi öllu. En er þat spurdu adrir synir Haralds Konúngs, þá settiz Hálfdan Svarti í Konúngs hásæti; tók hann þá til forráda allann Þrándheim; hurfo at því rádi allir Prændir med honom. Eptir fall Bjarnar Kaupmanns tók Olafr bródir hans ríki yfir Vestfold, ok til fósturs Gudrød son Bjarnar. Tryggvi hét sonr Olafs, ok vóro þeir Gudrødr fóstbrædur; ok mjök jamaldra, ok bádir hinir efniligsto, ok atgérvimenn miklir. Tryggví var hverjom manni meiri ok sterkari. En er Vikverjar spurdo, at Hørdar høfdo tekit til Yfir-konúngs Eirík, þá tóko þeir Olaf til Yfir-

Yfir-konúngs í Víkinni, ok héllt hann því ríki; þetta líkaði Eiríki stór-illa. Tveim vetrom síðar varð Hálfdan Svarti bráð-dauðr inn í Þrándheimi at veizlo nockorri, ok var þat mál manna, at Gunnhildr Konúnga-móðir hefði keypt at fjölkunnigri kono, at géra honom bana-drykk. Eptir þat tóko Þrændir Sigrøð til Konúngs.

## Kap. XLV.

### Dauði Haralds Konúngs.

Haraldr Konúngr lifði 3 vetur síðan er hann hafði gefit Eiríki einvald ríkis síns; var hann þá á Rogalandi, eðr á Hørðalandi, at stórbúum er hann átti. Eiríkr ok Gunnhildr átto son er Haraldr Konúngr jós vatni, ok gaf nafn sitt; segir svá, at sá skyldi Konúngr vera eptir Eirík feður sinn. Haraldr Konúngr gipti flestar dætur sínar innanlands Jørlom sínom, ok ero þaðan komnar miklar kynqvíslir. Haraldr Konúngr varð sóttdauðr á Rogalandi, ok er hann heygðr á Haugum við Karmtsund. Í Haugasundi stendr nú kirkja, en við sjálfann kirkjugarðinn í útnorðr er haugr Haralds Konúngs ens Hárfagra; en fyrir vestan kirkjuna liggr legsteinn Haralds Konúngs, sá er lá yfir legi hans í hauginum, ok er steinninn hálfs fjórtanda fets lángr, ok nær tveggja álna breiðr. Í miðjom hauginom var leg Haralds Konúngs; þar var settr steinn annar at høfði, en annar at fótom, ok løgð þar hellan á ofan; en hlaðit grjóti

tveim-megin utanundir. Þeir steinar standa nú þar í kirkjogardinom, er þá vóro í hanginom, ek nú var frásagt. Sva segja fródir menn, at Haraldr hinn Hárfagri hafi verit allra manna fridastr sýnom, ok sterkastr ok mestr, hinn ørvasti af fé, ok allvinsæll vid sína menn; hann var hermadr mikill endverda æfi; ok þýda menn þat nú at vitat hafi um tré þat et mikla, er módur hans sýndiz í draumi, fyrir burd hans, er hinn nedsti lutr trésins var raudr sem blód; en þá var leggrinn up frá fagr ok grænn, at jartegni blóma ríkis hans; en at ofanverdo var hvítt tréit, þá sýndiz þat, at hann mundi fá elli ok hæro; qvistir ok limar trésins bododo afqvæmi hans, er um allt land dreifdiz; ok af hans ætt hafa verit jafnan sidan Konúngar í Noregi.

## Kap. XLVI.

### Fall Olafs ok Sigrødar.

Eiríkr Konúngr tók allar tekjor þær sem Konúngr átti um midt land, inn næsta vetr eptir andlát Haralds Konúngs; en Olafr austr um Víkina; en Sigrødr bródir þeirra hafdi allt um Þrændalæg. Eiríki líkadi þetta stórilla, ok fóro þau ord um, at hann mundi med styrk eptirleita vid brædur sína ef hann mætti fá einvalds ríki yfir landi øllo, sva sem fadir hans hafdi gefit honom. En er Olafr ok Sigrødr spyrja þetta, þá fara sendimenn milli þeirra; því næst géra þeir stefnolag sitt, ok ferr Sig-

rødr

rødr um varit austr til Víkur, ok finnaz þeir Olafr brædr í Túnsbergi, ok dvøldoz þar um hríd. Þat sama vár býdr Eiríkr út lidi miklu, ok skipum, ok sn'ýr austr til Víkur. Eiríkr Konúngr féck radbyri sva mikit, at hann sigldi dág ok nótt, ok fór engi njósn fyrir honom. Ok er hann kom til Túnsbergs, þá gengo þeir Olafr ok Sigrødr med lid sitt austr or bænum á breckuna, ok fylktu þar. Eiríkr hafdi lid miklo meira, ok féck hann sigr; en þeir Olafr ok Sigrødr féllo þar bádir, ok er þar haugr hvarstveggja þeirra á breckunni, sem þeir lágo fallnir. Eiríkr Konúngr fór þá um Víkina, ok lagdi undir sik, ok dvaldiz þar lengi um sumarit. Tryggvi ok Gudrødr flýdu þá til Upplanda. Eiríkr var mikill madr ok fridr, sterkr ok hreystimadr mikill, hermadr mikill ok sigrsæll, ákafamadr í skapi, grimmr, úþýdr ok fálátr. Gunnhildr kona hans var kvenna fegurst; vitr ok margkunnig, gladmælt ok undirhyggju madr mikill, ok hin grimmasta. Þau vóru børn þeirra Eiríks Konúngs ok Gunnhildar: Gamli var ellstr, þá Guthormr, Haraldr, Ragnfrødr, Ragnhildr, Erlingr, Gudrødr, Sigurdr Sleva. Øll vóro børn þeirra Eiríks fríd ok mannvæn.

IV. Saga

# IV.

# Saga Hákonar Góda.

## Kap. I.

### Hákon til Konúngs tekinn.

Hákon Adalsteins-fóstri var þá á Englandi, er hann spurdi andlát Haralds Konúngs fødur síns; bjóz hann þá þegar til ferdar: fêck Adalsteinn Konúngr honom þá lid, ok gódann skipakost, ok bjó hans før allvegliga; ok kom hann um haustit til Noregs. Þá spurdi hann fall brædra sinna, ok þat med, at Eiríkr Konúngr var þá í Víkinni. Sigldi þá Hákon nordr til Þrándheims, ok fór á fund Sigurdar Hlada-Jarls, er allra spekinga var mestr í Noregi, ok fêck þar gódar vidtøkur, ok bundo þeir lag sitt saman. Hêt Hákon honom miklo ríki, ef hann yrdi Konúngr. Þá léto þeir stefna þíng fjølmennt, ok á þíngino taladi Sigurdr Jarl af hendi Hákonar, ok baud bóndom hann til Konongs. Eptir þat stód Hákon sjálfr upp ok taladi; mælto þá tveir ok tveir sín í midli,

milli, at þar væri þá kominn Haraldr hinn Hárfagri, ok ordinn úngr í annat sinn. Hákon hafdi þat upphaf síns máls, at hann beiddi bændor vidtæko ok géfa sér Konúngs nafn; ok þat-med at veita sér fullting ok styrk til at halda konúngdóminum. En þar í mót baud hann þeim at géra alla bændur ódalborna, ok géfa þeim ódol sín er byggja. At þessu eyrindi vard rómr sva mikill, at allr bónda múgrinn æpti ok kalladi, at þeir vildo hann til Konúngs taka, ok var sva gért, at Þrændir tóku Hákon til Konúngs um allt land, ok var þá Hákon 15 vetra: tók hann sér þá hird, ok fór yfir land. Þau tídindi spurduz á Upplønd, at Þrændir høfdo sér Konúng tekit slíkann at øllo sem Haraldr hinn Hárfagri var, nema þat skildi, at Haraldr hafdi allann lýd í landi áþiád, en þessi Hákon vildi hverjom manni gott, ok baud aptr at géfa bændom ódol sín, þau er Haraldr Konúngr hafdi af þeim tekit. Vid þau tídindi urdo allir gladir, ok sagdi hverr ødrom: flaug þat sem sinu-eldr allt austr til landsenda. Margir bændur fóro af Upplöndom, at hitta Hákon Konúng; sumir sendu menn; sumir gérdu ordsendíngar ok jartegnir; en allir til þess, at hans menn vildo géraz. Konúngr tók því þackſamliga.

## Kap. II.

### Yfirferd Hákonar Konúngs.

Hákon Konúngr fór øndverdann vetr á Upplønd, stefndi þar þing, ok dreif allt fólk á

hans fund, þat er komaz mátti. Var hann þá til Konúngs tekinn á øllom þíngom: fór hann þá austr til Víkur: þar komu til hans Tryggvi ok Gudrødr brædrasynir hans, ok margir adrir er upptøldu harma sína, er hlotiz høfdo af Eiríki Konúngi bródor hans. Eiríks úvinsæld óx æ því meir, sem allir menn gêrdo sér kjærra vid Hákon Konúng, ok heldr høfdo sér traust til at mæla sem þótti. Hákon Konúngr gaf Konúngs-nafn Tryggva ok Gudrødi, ok ríki þat sem Haraldr Konúngr hafdi géfit fedrum þeirra: Tryggva gaf hann Ránríki ok Víngulmørk; en Gudrødi Vestfold. En fyrir því at þeir vóro úngir ok bernskir, þá setti hann til gøfga menn ok vitra, at ráda landi med þeim. Gaf hann þeim land med þeim skildaga, sem fyrr hafdi verit, at þeir skyldi hafa helmíng skyldna ok skatta vid hann. Fór Hákon Konúngr nordr til Þrándheims er varadi et efra um Upplønd.

## Kap. III.

### Ferd Eiríks or landi.

Hákon Konúngr dró saman her mikinn í Þrándheimi, er varadi, ok réd til skipa. Víkverjar høfdo ok her mikinn úti, ok ætlodo til mótz vid Hákon. Eiríkr Konúngr baud ok lidi út um midt land, ok vard hánom íllt til lids, þvíat ríkismenn margir skutoz honom,

I ok

ok fóro til Hákonar. En er hann sá engi efni til mótstedu í móti her Hákonar, þá sigldi hann vestr um haf; med því lidi er honom vildi fylgja. Fór hann fyrst til Orkneyja, ok hafdi þadan med sér lid mikit. Sidan sigldi hann sudr til Englandz, ok herjadi um Skotland, hvar sem hann kom vid land; hann herjadi ok allt nordr um England. Adalsteinn Engla-konúngr sendi ord Eiriki, ok baud hanom at taka af sér ríki í Englandi, sagdi sva at Haraldr Konúngr fadir hans var mikill vin Adalsteins Konúngs, sva at hann vildi þat virda vid son hans. Fóro þá menn í millom þeirra Konúnganna, ok sættuz á þat med einka málum, at Eiríkr Konúngr tók Nordimbraland at halda af Adalsteini Konúngi; skyldi hann verja þar landit fyrir Dønom ok ødrom víkingom. Eiríkr skyldi þá láta skíraz, ok kona hans, ok børn þeirra, ok allt lid hans, þat er honom hafdi fylgt þángat. Tók Eiríkr þenna kost: var hann þá skírdr, ok tók rétta trú. Nordimbraland er kallat fimtúngr Englands. Eiríkr hafdi atsetu í Jórvík, þar sem menn segja at fyrr hafi setit Lodbrókar synir. Nordimbraland var mest bygt af Nordmønnom. Sidan er Lodbrókar synir unno landit, herjadu Danir ok Nordmenn optliga þángat, sídan er vald landsins hafdi undan þeim gengit. Mørg heiti landsins ero þar gëfin á norrøna túngo, Grímsbær ok Haukssljót ok mørg ønnor.

## Kap. IV.
### Fall Eiriks Konúngs.

Eiríkr Konúngr hafdi fjølmenni mikit um sik; hèlt hann þar fjølda Nordmanna, er austan hafdi farit med hánom, ok enn komo margir vinir hans sídan af Noregi. En er hann hafdi land litit, þá fór hann jafnan í hernad á sumrum: hann herjadi um Skotland ok Sudreyar, Irland ok Bretland, ok afladi sèr sva fjár. Adalsteinn Konúngr vard sóttdaudr, þá hann hafdi verit Konúngr 14 vetur, ok 8 vikur ok 3 daga. Sídan vard Konúngr í Englandi Jatmundr bródir hans, var honum ecki um Nordmenn; var Eiríkr Konúngr ecki í kjærleikum vid hann, ok foro þá þau ord um af Jatmundi Konúngi, at hann mundi annann høfdingja setja yfir Nordimbraland. En er þat spurdi Eiríkr Konúngr, þá fór hann í Vestur-víking, ok hafdi or Orknevjum med sèr Arnkél ok Erlend Jarla, sono Torf Einars. Sídan fór hann í Sudreyjar, ok vóro þar margir víkingar ok her-konúngar, ok rèduz til lids med Eiríki Konúngi: hèllt hann þá øllo lidino fyrst til Irlands, ok hafdi þadan lid slíkt er hann fèck. Sídan fór hann til Bretlands, ok herjadi þar. Eptir þat sigldi hann sudr undir England, ok herjadi þar sem í ødrom stødom; en allt lid flydi undan þar sem hann fór. Ok med því at Eiríkr var hreystimadr mikill, ok hafdi her mikinn, þá

treystiz hann svo vel lidi síno, at hann gékk lángt á land upp, ok herjadi, ok leitadi eptir mönnom. Olafr hét Konúngr sá, er Jatmundr Konúngr hafdi þar sett til landvarnar; hann dró saman her úvígann, ok fór á hendur Eiriki Konúngi, ok vard þar orrosta mikil, fello mjøk enskir menn; en þar er einn féll, komo 3 af landi ofan í stadinn; ok hinn efra hluta dagsins snýr mannfallinn á hendur Nordmönnom, ok fellr þar mikit fólk. Ok at lyktum þess dags féll Eirikr Konúngr, ok 5 Konúngar med hanom. Þessir ero nefndir: Guthormr ok synir hans tveir, Ivarr ok Hárekr: þar féll ok Sigurdr ok Rögnvaldr; þar féll ok Arnkéll ok Erlendr synir Torf-Einars. Þat vard ok allmikit mannfall af Nordmönnom, en þeir er undan komuz, fóro til Nordimbralands, ok sögdo Gunnhildi ok sonom hennar þessi tídindi.

## Kap. V.

### Ferd Gunnhildar sona.

En er þau Gunnhildr urdo þessa vør, at Eirikr Konúngr var fallinn, ok hann hafdi ádr herjat land Engla-konúngs, þá þyckjaz þau vita, at þeim mun þar vera ecki fridvænt. Búaz þau þá þegar í brott af Nordimbralandi, ok hafa skip þau øll, er Eirikr Konúngr hafdi átt, ok lid þat allt er þeim vildi fylgja, ok of lausa-fjár, er þar hafdi samandregiz í skottom á Englandi; en sumt hafdi

fengiz

fengiz í heruadi. Þau halda lidi síno fyrst nordr til Orkneya, ok stadfestoz þar um hríd; þá var þar Jarl Þorfidr Hausakljúfr, son Torf-Einars. Tóko þá synir Eiríks undir sik Orkneyar ok Hjaltland, ok hæfdo skatta af, ok sato þar of vetrom, en fóro í Vestrvíking á sumrom, ok herjodo um Skotland ok Irland. Þess gétr Glúmr Geirason:

Hafdi før til ferjo
Fródr Skáneyar góda
Black rídandi backa
Barmingr þadan farna.
Rógeiso vann ræsir
Rádvandr á Skotlandi
Sendi seggja kindar
Sverd bautin her gauti.
Dolgeiso rak dísar
Drótt kom mørg á flótta
Gunna vinr at gamni
Gjódom írskrar þjódar.
Foldar raud ok felldi
Freyr í manna dreyra
Sunnr á sigr of hlinniñ
Seggi mækis eggjar.

## Kap. VI.

### Orrosta á Jótlandi.

Hákon Konúngr Adalsteins-fóstri lagdi undir sik allann Noreg, þá er Eiríkr Konúngr bródir hans hafdi brott stockit. Hákon Konúngr sótti inn fyrsta vetr vestr í landit, eptir þat nordr í Þrándheim, ok sat þar. En fyrir þær sakir at ecki þótti fridvænligt, ef Eiríkr Konúngr leitadi vestan um haf med her sinn, sat hann fyrir því med lid sitt um midt land, á Firda-fylki eda Sogni, edr Hordalandi, eda Rogalandi. Hákon setti Sigurd Hlada-Jarl yfir øll Þrændaleg, sva sem hann

 hafdi

hafdi fyrr haft, ok Hákon fadir hans, af Haraldi Konúngi enum Hárfagra. En er Hákon-Konúngr spurdi fall Eiríks bródur síns, ok þat med, at synir hans hefdo ecki traust í Englandi, þá þótti honom lítil ógn af þeim standa; fór þá med lidi sínu á einu sumri austr í Vík. Í þann tíma herjodo Danir mjök í Víkina, ok gérdu þar opt mikinn skada; en er þeir spurdu, at Hákon Konúngr var þar kominn med her mikinn, þá flýdu allir undan, sumir sudr til Jótlands, edr Hallands; en þeir er nær meir vóro Hákoni Konúngi, stefndu út á hafit, ok sva sudr til Jótlands. En er Hákon Konongr vard þessa var, þá sigldi hann eptir þeim öllum herinum; en er hann kom til Jótlands, herjar hann þar, en er landsmenn urdu vid þad varir, þá draga þeir her saman, ok vilja verja land sitt, ok ráda til orrosto vid Hákon Konúng. Vard þar orrosta mikil; bardiz Hákon Konúngr svo djarfliga, at hann géck fyrir framan merki, ok hafdi hverki hjálm né brynjo. Hákon Konúngr hafdi sigr, ok rak flótta langt á land upp. Sva segir Guthormr Sindri í Hákonar Drápo:

Bifröknum trad beckjar
Blá rest Konúngr árom
Mætr hlód. mildíngr
Jótom
Mistar nifs í drifo.

Svan gædir rak sídan
Skjótt jálvadar flótta
Hrot gilja þar hylja
Hramn víns at mun sín-
om.

Kap.

## Kap. VII.

### Orrosta í Eyrarsundi.

Sídan hèllt Hákon Konúngr lidi síno sunnan til Selundar, ok leitadi víkinga; hann rèri med tveimur sneckjum fram í Eyrarsund: þar hitti hann 11 víkinga sneckjor, ok lagdi þegar til orrosto vid þá, ok lauk sva, at hann hafdi sigr, ok raud ǫll víkinga skipin. Sva segir Guthormr Sindri:

Almdrósar fór eisu
El runnr mǫrǫm sunnan
Trjóno tíngls á græna
Tveim einum sel meina
Þá er ellifu allar
Allreidr Dana skeidar
Val sendir raud vandar
Vídfrægr at þat sídan.

## Kap. VIII.

### Hernadr Hákonar Konúngs í Danmǫrk.

Eptir þat herjadi Hákon Konúngr vída um Selund, ok ræuti margt fólk, en drap sumt, en sumt hertók hann, ok tók gjǫld stór af sumum: fèck þá enga mótstǫdu. Sídan fór Hákon Konúngr austr fyrir Skáneyar sído, ok herjadi allt, ok tók gjǫld ok skatta af landino, ok drap alla víkinga, hvar sem hann fann, bædi Dani ok Vindur. Fór hann allt austr fyrir Gautland, ok herjadi þar, ok fèck þar stór gjǫld af landino. Sva segir Guthormr Sindri:

Selund nádi þá sídan
Sókn heggr und sik legg-
ja
Vals ok Vinda frelsi
Vid Skáneyar sído.

Skattgylda vann skyldir
Skaut jalfadar Gauta
Gullskóflir varu gioflaztr
Geir vedr í for þeirri.

Hákon Konúngr fór aptr um haustit med lid sitt ok hafdi fengid úgrynni fjár; hann sat um vetrinn í Víkinni vid áhlaupom, ef Danir ok Gautar gerdi þar.

## Kap. IX.

### Frá Tryggva Konúngi.

Þat sama haust kom Tryggvi Konúngr Olafsson or Vestrvíking; hafdi hann þá ádr herjat um Jrland ok Skotland. Um varit fór Hákon Konúngr nordr í land, ok setti Tryggva Konúng bródur sinn yfir Víkina, at verja fyrir úfridi, ok eignaz slíkt er hann mætti, af þeim londom í Danmorko, er Hákon Konúngr hafdi et fyrra sumarit skattgyldt. Sva segir Guthormr Sindri:

Ok sókn hattar setti
Svellrjódr at því fljódi
Onars eiki grænv
Austr gedbæti hraustan:

Þann er ádr frá Jrom
Jdvandr of kom skídom
Salbrygdandi sveadis
Svan vángs lidi þángat.

## Kap. X.

### Frá Gunnhildar sonom.

Haraldr Konúngr Gormsson réd þá fyrir Danmorko; honom líkadi stórilla þat er

Hákon Konúngr hafdi herjat í ríki hans, ok fóro þau ord um, at Dana-konúngr mundi hefnaz vilja; en þat vard þó ecki svo brádliga. En er þetta spurdo Gunnhildr ok synir hennar at úfridr var millom Danmerkor ok Noregs, þá byrja þau ferd sína vestan; þau giptu Ragnhildi dóttur Eiríks Konúngs Arnfinni, syni Þorfinns Hausakljúfs. Settiz þá enn Þorfidr Jarl at Orknevom, er Eiríks synir fóro á brott. Gamli Eiríksson var þeirra nockoro ellri, ok var hann þó ecki roskinn madr. En er Gunnhildr kom til Danmerkur med sonom sínom, þá fór hún á fund Haralds Konúngs, ok féck þar gódar vidtekjur. Féck Haraldr Konúngr þeim veizlor í ríki síno, svá miklar, at þau fengo vel haldit sik, ok menn sína; en hann tók til fósturs Harald Eiríksson ok knésetti hann; fœddiz hann þar upp í hird Dana-konúngs. Sumir Eiríks synir fóro í hernad, þegar er þeir høfdo aldr til, ok øflodo sér fjár; þeir herjado um Austrveg; þeir vóro snemma menn frídir, ok fyrr roskuir at afli ok atgérvi, enn vetra tali. Þess gétr Glúmr Geirason í Gráfeldar Drápo:

Austr løndom fekk undir
Allvaldr, sá er gaf skáldom,
Hann feck gagn at gunni
Gunn-hørga løg mørgom
Slídr túngr let sóngja,
Sverdleiks regin ferdir
Sendi gramr at grundo
Gullvarpadr svárpar.

Eiríks synir snéroz þá ok med her sinn nordr í Víkina, ok herjado þar, en Tryggvi Kon-

úngr hafdi her úti, ok hèllt til móts vid þá, ok áttu þeir orrostor margar, ok hefdo ymsir sigr; herjado Eiriks synir stundom Vikina, en Tryggvi stundom um Sjáland ok Halland.

## Kap. XI.

### Lund ok lagasetníng Hákonar Konúngs.

Þá er Hákon var Konúngr í Noregi, var fridr godr med bændom ok kaupmennom, sva at engi grandadi ödrom né annars fé; þá var ok ár mikit bœdi á sjá ok á landi. Hákon Konúngr var allra manna gladastr ok málsnjallastr ok lítillátazr; hann var madr störvitr, ok lagdi mikinn hug á lagasetníng. Hann setti Gulaþíngs-løg med rádi Þorleifs ens Spaka; hann setti ok Frostoþíngs-løg, med rádi Sigurdar Jarls, ok annara Prænda, þeirra er vitrastir vóro. En Heidsævis-løg hafdi fyrst sett Hálfdan Svarti, sem fyrr er ritit.

## Kap. XII.

### Fæddr Hákon Jarl hinn Ríki.

Hákon Konúngr hafdi jóla-veizlo í Þrándheimi; þessa veizlo hafdi Sigurdr Jarl búit fyrir hanom á Lødom. Hina fyrstu jóla-nótt ól Bergljót kona Jarls sveinbarn; eptir um daginn jós Hákon Konúngr svein þann vatni, ok gaf nafn sitt, ok ór sveinn sá upp, ok vard sídan ríkr madr ok gøfigr, ok vard Jarl

Jarl eptir Sigurd fødor sinn. Sigurdr Jarl var hinn kjærsti vin Hákonar Konúngs.

## Kap. XIII.
## Frá Eysteini Illa.

Eysteinn Upplendínga Konúngr, er sumir kalla hinn Ríka, en sumir hinn Illa, hann herjadi í Þrándheim, ok lagdi undir sik Eyna-fylki ok Sparbyggja fylki, ok setti þar yfir son sinn, er hét Ønundr, en Þrændir drápo hann. Eysteinn Konúngr fór annat sinn herfør í Þrándheim, ok herjadi þá vída, ok lagdi undir sik. Þá baud hann Þrændom, hvert þeir vildo heldr hafa at Konúngi þræl hans, er hét Þórir Faxi, eda hund, er Saurr hét; en þeir kuro hundinn, þvíat þeir þóttoz þá mundo heldr sjálfráda vera. Þeir léto síđa í hundinn þriggja manna vit, ok gó hann til tveggja orda, en mælti et þridja. Helsi var hánom gért ok vidjar af gulli ok sylfri. En þegar er saurugt var, báro hirdmenn hans hann á høndom sér. Hásæti var hanom búit, ok hann sat á haugi sem Konúngar, ok bjó í eyjonni idri, ok hafdi atseto, þar sem heitir Saurshaugr. Þat er sagt at honom vard at bana, at vargar løgdoz á hjørd hans, en hirdmenn eggjodo hann á at verja fé sitt; hann ljóp af hauginom, ok fór móti vørgonom; en þeir rifo hann þegar í sundr. Mørg undor ønnor gërdi Eysteinn Konúngr vid Þrændi. Af þeim hern-

adi

adi ok úfrid flýdo margir høfdíngjar, ok margt fólk flýdi ódol sín.

## Kap. XIV.

### Bygging Jamtalands ok Helsíngjalands.

Ketill Jamti, sonr Önundar Jarls úr Sparabúi, fór austr um Kjøl ok mikill mannfjøldi med honom, ok høfdo búferli sín med ser. Þeir ruddu markir, ok bygdo þar stór hérød, þat var sídan kallat Jamtaland. Sonarson Ketils var Þórir Helsíngr, hann for fyrir viga sakir af Jamtalandi, ok austr yfir markir þær er þar verda, ok bygdi þar, ok sótti þannog fjøldi manna med hanom; var þat kallat Helsíngjaland; gengr þat allt austr til sjávar. Helsíngjaland bygdo Svíar allt hit eystra med hafino. En er Haraldr Konúngr hinn Hárfagri ruddi ríki fyrir sér, þá støck enn fyrir hanom fjøldi manna or landi, Þrændir ok Naumdœlir ok gérdoz þá enn bygdir austr um Jamtaland, ok sumir fóro allt í Helsíngjaland. Helsíngjar høfdo kaupferdir sínar til Svíþjódar, ok vóro þannog lýdskyldir at øllo; en Jamtar vóro mjøk alls í millom, ok gaf þeim engi gaum, fyrr enn Hákon setti frid ok kaupferdir til Jamtalands, ok vingædiz þar vid ríkismenn. Þeir sótto sídan austan á hans fund, ok játodo hanom hlýdni sinni ok skattgjøfom, ok gérduz hans þegnar; þvíat þeir spurdo

spurdo gott til hans: vildo þeir heldr þýdaz undir hans konúngdóm, enn undir Svía-konúng, þvíat þeir vóro af Nordmanna ætt komnir; en hann setti þeim løg ok landsrétt. Sva gërdo ok allir Helsingjar, þeir er æskadir vóro um Kjøl nordan.

## Kap. XV.

### Kristnihald ok bodan Hákonar Konúngs.

Hákon Konúngr var vel kristinn er hann kom í Noreg; en fyrir því at þar var land allt heidit, ok blótskapr mikill, ok stórmenni margt, en hann þóttiz lids þurfa mjøk, ok alþýdo vinsæld, þá tók hann þat rád, at fara leynilega med kristninni, hélt sunnodaga ok frjádaga føsto, ok minníng hinna stærsto hátída; hann setti þat í løgom, at hefja Jóla-hald þann tíma sem kristnir menn, ok skyldi þá hverr madr eiga mælis øl, en gjalda fé ella, en halda heilagt medan jólin ynniz; en ádr var Jóla-hald haft Høggunótt, þat var midsvetrar nótt, ok haldin þriggja nátta jól. Hann ætladi sva, er hann festiz í landino, ok hann hefdi frjálsliga undir sik lagt allt land, at hafa þá fram kristnibod. Hann gërdi sva fyrst, at hann lockadi þá menn er hanom varo kærstir til kristni; kom sva med vinsæld hans, at mjøk margir léto skíraz, en sumir léto af blótom. Hann sat laungom í Þrándheimi, þvíat þar var mestr styrkr landsins. En er Hákon Konúngr þóttiz fengit hafa styrk af nockorom

orom ríkismonnom at halda upp kristninni, þá sendi hann til Englands eptir Biskupi ok ödrom kénnimonnom; ok er þeir komo í Noreg, þá gérdi Hákon Konúngr þat bert, at hann vildi bjóda kristni of land allt; en Mærir ok Raumdælir skuto þannog síno máli sem Þrændr vóro. Hákon Konúngr lét þá vígja kirkjor nockorar, ok setti þar Presta til. En er hann kom í Þrándheim, þá stefndi hann þíng vid bændur, ok baud þeim kristni. Þeir svara sva, at þeir vilja þesso máli skjóta til Frosto-þíngs, ok vilja þá at þar komi menn or öllom fylkjom, þeim sem ero í Þrændalögom; segja at þá mano þeir svara þesso vandmæli.

## Kap. XVI.

### Frá blótum.

Sigurdr Lada-Jarl var hinn mesti blótmadr, ok sva var Hákon fadir hans; héllt Sigurdr Jarl upp blotveizlom öllom af hendi Konúngs, þar í Þrændalögom. Þat var forn sidr, þá er blót skyldi vera, at allir bændur skyldo þar koma, sem hof var, ok flytja þannog fanng sín, þau er þeir skyldo hafa medan blótveizlan stód. At veizlo þeirri skyldo allir menn öl ega: þar var ok drepinn allskonar smali, ok sva hross; en blód þat allt, er þar kom af, þá var kallat Hlaut; en Hlautbollar þat er blód þat stód í; en Hlaut-teinar, þat var sva gört sem stoklar; med því skyldi rjóda stallana öllo saman, ok sva

veggi

veggi hoffins utan ok innan, ok sva stœckva Hlautino á menniua; en slátrit skyldi sjóda til mannfagnadar. Eldar skyldo vera á midjo gólfi í hofino, ok þar katlar yfir, ok skyldi full of eld bera. En sá er gérdi veizlona, ok höfdíngi var, þá skyldi hann signa fullit, ok allann blótmatinn; skyldi fyrst Odins full drecka til sigurs ok rikis Konúngi sínom; en sídan Njardar full ok Freys full til árs ok fridar. Þá var mörgom monnom tídt at drecka þar nærst Braga full. Menn drucko ok full frænda sinna, þeirra er gofgir hofdo verit, ok vóro þat Minni kollot. Sigurdr Jarl var manna orvastr; hann gérdi þat verk, er frægt var mjok, at hann gérdi mikla blótveizlo at Hlødom, ok héllt einn upp ollom kostnadi. Þess gétr Kórmakr Ogmundarson í Sigurdar Drápo:

Hafit madr ask ne eski
Affpring med ser þingat
Fe færanda at færa
Fæz velto god Þjaza.

Hver mani vess vid valdi
Vægja kind of bægjaz
Þvíat fnn rogni fagnar
Fens vá gramr til menja.

## Kap. XVII.
### Þíng á Frosto.

Hákon Konúngr kom til Frosto-Þings, ok var þar komit allfjolmennt af bændom. En er Þing var sett, þá taladi Hákon Konúngr: hefir þar fyrst, at þat væri bod hans ok bæn vid bændur ok búþegna, ríka ok úrika, ok þar med vid alla alþýdo, únga menn ok gamla, sælan ok ve-

vesælár, konor sem karla, at allir menn skyldo kristnaz láta, ok trúa á einn Gud, Krist Maríoson, en hafna blótom ollom, ok heidnom godom, halda heilagt hinn 7da hvern dag, vid vinnom ollom, fasta ok hinn 7da hvern dag. En þegar er Konúngr háfdi þetta uppborit fyrir alþýdo, þá var þegar kur mikill, ok kurrudo bændor um þat, er Konúngr vildi vinnor taka af þeim, ok sva átrúnat, ok sogdo at vid þat mátti landit ecki byggja, en verka lýdr ok þrælar kolludo þat, at þeir mætto ecki vinna, ef þeir skyldo ecki mat hafa. Sogdo ok at þat var skaplostr Hákonar Konúngs, ok fodor hans, ok þeirra frænda, at þeir vóro íllir af mat sínom, þótt þeir væri mildir af gulli. Asbjorn af Medalhúsom or Gaulardal stód upp, ok svarar erendi Konúngs, ok mælti: þat hugdo vér bændor, Hákon Konúngr, segir hann, at þá er þú hafdir it fyrsta þíng haft hér í Þrándheimi, ok hófom þik til Konúngs, ok þágom af þér ódol vor, at vér hefdim þá himin hondom tekit; en nú vito vér ecki hvert heldr er, at vér munom frelsi þegit hafa, eda munto nú vilja þrælka oss af nýo med undarligom hætti, at vér manom hafna átrúnadi vorom, þeim er fedor vorir hafa haft fyrir oss, ok allt forellri, fyrst um Bruna-old, ok nú um Hauga-old, ok hafa þeir verit miklo gofgari enn vér, ok hefir oss þó dugat þeþi átrúnadr. Vér hofom lagt til ydar sva mikla ástúd, at vér hofom þik ráda látit med oss ollom logom í landino, ok lands-rétt. Nú er

þat vilji var ok samþycki bóndanna, at halda þau løg sem þú settir oss hér á Frosto-þíngi, ok vér játadom þér; viljom vér allir þér fylgja, ok þik til Konúngs halda medan einhverr vor er lífs bóndanna, þeirra er hér ero nú á þíngino, ef þú Konúngr vilt nockot hóf vid hafa, at beida oss þess eins, er vér megom veita þér, ok oss sé ecki ógeranda. En ef þér viljit þetta mál taka med sva mikilli freko, at deila afli ok ofríki vid oss, þá høfom vér bændur gért rád vort, at skiljaz allir vid þik, ok taka oss annann høfdíngja, þann er oss haldi til þess, at vér munim í frelsi hafa þann átrúnad sem oss er at skapi. Nú skaltú Konúngr, kjósa of kosti þessa, ádr þíng sé slitit. At erindi þesso gjørdo bændor róm mikinn, ok segja at þeir vilja svo vera láta, sem nú er sagt. En er hljód féckz, þá svarar Sigurdr Jarl: þat er vilji Hákonar Konúngs, at samþyckja vid ydor, bændor, ok láta aldri skilja ydra vinátto. Bændor segja, at þeir vilja Konúngr blóti til árs þeim ok fridar, sva sem fadir hans gérdi: stadnar þá kurrinn, ok slíta þeir þíngino. Sídan taladi Sigurdr Jarl vid Konúng, ok bad hann ecki nemaz med øllu at géra sem bændor vildo, segir at ecki mundi annat lýda, enn svegja til nockot vid bændor; er þetta, Konúngr, sem sjálfir þér mattot heyra, vilji ok ákafi høfdingja, ok þar med alls fólks. Skulo vér, Konúngr, hér til finna gott

K rad

ráð nockot, ok samdiz þat með þeim Konúngi ok Jarli.

## Kap. XVIII.

### Bændor þreyngja Hákoni til blóta.

Um haustit at vetri var blótveizla á Lødom, ok sótti þar til Konúngr; hann hafdi jafnan fyrr verit vanr, ef hann var staddr þar er blót vóro, at mataz í litlo húsi vid fá menn; en bændor tøldo at því, er hann sat ecki í hásæti sino, þá er mestr var mannfagnadr. Sagdi Jarl, at hann skyldi ecki þá sva gjøra. Var þá sva, at Konúngr sat í hásæti sino. En er hit fyrsta full var skeinkt, þá mælti Sigurdr Jarl fyrir minni, ok signadi Odni, ok drack af hornino til Konúngs. Konúngr tók vid, ok gerdi krossmark yfir; þá mælti Kár af Grytíngi: hví fer Konúngrinn nú sva; vill hann ecki enn blóta? Sigurdr Jarl svarar: Konúngr gérir sva sem þeir géra allir, er trúa á mátt sinn ok megin, ok signa full sitt Þór, hann gérdi hamars mark yfir ádr hann drack; var þar þá kyrt um qveldit. Eptir um daginn er menn gengo til borda, þá þusto bændor at Konúngi, søgdo at hann skyldi þá eta hrossaslátr. Konúngr vildi þat fyrir engan mun: þá bádu þeir hann drecka sodit; hann vildi þat ecki: þá bádu þeir hann eta flotit; hann vildi þat ok ecki; ok hellt þá vid atgøngo. Sigurdr Jarl vildi sætta þá, ok bad þá létta storminom: ok bad hann Konúng gína yfir ketil-hoddona,

ona, er sodreykinn hafdi lagt upp af hrossa-slátrino, ok var smjorog hadoan. Þá gêck Konúngr til, ok brá lindúk um kétil-haddona, ok gein yfir, ok gêck sídan til hásætis, ok likadi hvarigom vel.

## Kap. XIX.

### Blótveizla á Mæri.

Um vetrinn eptir var búit til Jóla-veizlo Konúngi inn á Mærinni. En er at leid jólonom, þá lœgdo þeir stefno med sér 8 hœfdingjar, er mest rédo fyrir blótom i œllom Þrænda-logom. Þeir vóro 4 utan or Þrándheimi: Kár af Grytingi, Asbjørn af Medalhúsom, Þorbergr af Varnesi, Ormr af Ljóxo. En af Innþrændom: Blótólfr af Ølvishaugi, Narfi af Staf or Veradal, Þrándr Haka af Eggjo, Þórir Skégg af Húsabæ i eyuni idri. Þessir 8 menn bundoz i þvi, at þeir 4 af Utþrændom skyldo eyda kristindóminom i Noregi, en þeir 4 af Innþrændom skyldo neyda Konúng til blóta. Utþrændir fóro 4um skipum sudr á Mæri, ok drapo þar Presta 3 ok brendo kirkjor 3, fóro aptr sídan. En er Hákon Konúngr ok Sigurdr Jarl komo inn á Mæri med hird sína, þá vóro bændor þar komnir allfjolmennt. Hinn fyrsta dag at veizlonni þegar herdo bændor at Konúngi, ok bádo hann blóta, en héto honom afarkostom ella. Sigurdr Jarl bar þá sáttmál i millom þeirra, ok kémr þa sva, at Hákon Konúngr át nock-

ora bita af hrossa-lifor, drack hann ok þá ell minni krossalaust, þau er bændor skeinkto hanom. En er veizlo þessari var lokit, fór Konúngr ok Jarl þegar út á Hladir. Var Konúngr allúkátr, ok bjóz þegar í brott med ollo lidi sino or Þrándheimi, ok mælti sva, at hann skyldi fjolmennari koma í annat sinn í Þrándheim, ok gjalda þá bændom þenna fjandskap, er þeir hofdo til hans gert. Sigurdr Jarl bad Konúng gefa Prændom þetta ecki at sek, segir sva at Konúngi muni ecki þat duga at heitaz, edr herja á innanlands fólk, þar sem mestr styrkr er landsins, sem í Þrándheimi var. Konúngr var þá sva reidr, at ecki mátti ordum vid hann koma. Fór hann í brott or Þrándheimi, ok sudr á Mæri, dvaldiz þar um vetrinn, ok á vorit fram. En er sumradi, dró hann lid at sér. Vóro þau ord á, at hann mundi fara med her þann á hendor Prændom.

## Kap. XX.

### Orrosta á Ogvaldsnesi.

En er Hákon Konúngr var á skip kominn, ok hafdi lid mikit; þá komo hanom þau tídindi sunnan or landi, at synir Eiriks Konúngs væru komnir sunnan af Danmork í Víkina, ok þat med, at þeir hofdo ellt af skipom Tryggva Konúng Olafsson austr vid Sótanes; hofdo þeir þá vída herjat í Víkinni, ok hefdo margir menn undir þá gengit. En er

Hákon Konúngr spurdi þessi tídindi, þá þóttiz hann lids þurfa; sendi hann þá ord Sigurdi Jarli at koma til sín, ok sva ødrom høfdingjom, þeim er hanom var lids at ván. Sigurdr Jarl kom til Hákonar Konúngs ok hafdi allmikit lid: vóro þar þá allir Prændir, þeir er um vetrinn høfdo mest gengit at Konúnginom, at þinda hann til blóta. Vóro þeir þá allir í sætt teknir, af fortølom Sigurdar Jarls. Fór Hákon Konúngr þá sudr med landi. En er hann kom sudr um Stad, þá spurdi hann at Eiríks synir vóro komnir á Nordr-Agdir; fóro þá hvarir í móti ødrom; vard fundr þeirra á Røimt: gengo þá hvarirtveggja af skipom, ok børdoz á Øgvaldsnesi; vóro hvarirtveggjo þá allfjelmennir; vard þar orrosta mikil. Sótti Hákon Konúngr hardt fram, ok var þar fyrir Guthormr Konúngr Eiríksson, med sína sveit, ok egaz þeir høggvaskipti vid; þar féll Guthormr Konúngr, ok var merki hans nidrhøggvit; féll þar þá margt lid um hann. Pví nærst kom flótti í lid Eiríks sona, ok flýdo þeir til skipanna, ok réro í brott, ok høfdo látit mikit lid. Pess getr Guthormr Sindri:

| | |
|---|---|
| Valþøgnir let vegnom | Par geck njørdr af nirdi |
| Víg nest saman bresta | Madds há mána raddar, |
| Handar nafs af høfdom | Valbrandz vidra landa |
| Hlym mildíngom gildir. | Vapnundadom, sunda. |

Hákon Konúngr fór til skipa sinna, ok héllt austr eptir Gunnhildar sonom: fóro þá hvar-

irtveggio sem mest mátto, þar til er þeir komo á Austr-Agdir. Þadan sigldo Eiríks synir á haf, ok sudr til Jótlands. Þess gétr Guthormr Sindri:

Alm drogar var ægis | Bodsækir hellt brikar
Opt sinn þess ek minnunz | Brædur síns ok rak flæda
Varma old fyrir baldri | Undan allar kindir
Veusiks vita rikis. | Eiríks á haf sneckjom.

Sidan fór Hákon Konúngr nordr aptr til Noregs; en Eiríks synir dvoldoz þá enn í Danmørk lánga hríd.

## Kap. XXI.

### Lagasetníng Hákonar Konúngs.

Eptir þessa orrosto setti Hákon Konúngr þat í løgom um allt land med sjá, ok sva lángt á land upp, sem lax gengr ofarst í vatn, at hann skipadi allri bygd, ok skipti í skipreidor; en hann skipti skipreidom í fylki. Í hverjo fylki var þá áqvedit, hversu mørg skip vóro, edr hversu stór skyldi útgéra or fylki hverjo, þá er almenníngr væri úti: ok skyldi almenníngr vera skyldr út at géra, þegar er útlendr herr væri í landi. Þat skyldi ok fylgja útbodi því, at vita skyldi géra á hám fjollom, sva at hvern mætti sjá frá ødróm. Segja menn sva, at á 7 nóttom fór herbodit frá enom synzta vita, í ena nerztu þinghá á Hálogalandi.

## Kap. XXII.
### Frá Eiríks sonom.

Eiríks synir vóro mjøk í hernadi í Austrvegi, en stundom herjado þeir í Noregi, sva sem fyrr er ritat. En er Hákon Konúngr réd Noregi, var þá ok árferd gód í landi, ok gódr fridr; hann var ok hinn vinsælasti. Þá er Hákon hafdi verit Konúngr í Noregi 20 vetur, komo sunnan or Danmørko synir Eiríks, ok høfdo allmikit lid. Þat var mikit lid er þeim hafdi fylgt í hernadi, en þó var miklo meiri Dana herr, er Haraldr Konúngr Gormsson hafdi fengit þeim í hendor; þeir fengo radbyri mikit ok sigldo út af Vendli, ok komo utan at Ögdom; héldo sídan nordr med landi, dag ok nótt. En vitom var ecki uppskotit fyrir þá søk, at sú var sidvenja at vitar fóro austan eptir landi; en austr þar hafdi ecki ordit vart vid ferd þeirra. Þat bar ok enn til, at Konúngr hafdi vidrleg mikil, ef vitar væri rángt uppbornir, þeim mønnom er sannir ok kunnir yrdo at því: fyrir þá sok, at herskip ok víkíngar fóro um úteyar ok herjodo, ok hugdo landsmenn, at þar mundo fara synir Eiríks. Var þá vitom rángt uppskotit, ok vard herhlaup um land allt. En Eiríks synir fóro aptr til Danmerkor, ok høfdo engann Dana her haft, nema sitt lid. En stundom vóro þat annarskonar Víkíngar. Vard Hákon Konúngr þesso mjøk reidr, er starf ok kóstnadr vard af þesso,

en ecki gagn. Bændor tøldo ok at því fyrir sína hønd, er svá fór, ok var þessi sök til, er engi njósn fór fyrir um ferd Eiriks sona, fyrr enn þeir komo nordr í Ulfasund; þeir lágu þar 7 nætor, fór þá njósn et efra um eydit, ok nordr um Mæri. En Hákon Konúngr var þá á Sunnmæri, í ey þeirri er Frædi heitir, þar sem heitir Birkistrønd, at búi síno, ok hafdi ecki lid nema hird sína ok bændor, þá er verit hefdo í bodi hans.

## Kap. XXIII.
### Frá Agli Ullserk.

Njósnar-menn kómo til Hákonar Konúngs, ok sogdo hanom at Eiriks synir vóro med her mikinn fyrir sunnan Stad. Þá lèt hann kalla til sín þá menn, er þar vóro vitrastir, ok leitadi ráds vid þá, hvort hann skyldi berjast vid sono Eiriks, þótt lidsmunur sé mikill, edr skal hann fara nordr undan, ok fá sèr lid meira. Egill Ullserkr er nefndr bóndi einn er þar var; hann var þá gamladr mjøk, en hafdi verit meiri ok sterkari hverjom manni, ok hinn mesti orrosto madr; hann hafdi lengi borit merki Haralds Konúngs hins Hárfagra. Egill svarar rædo Konungs: var ek í nockorom orrostom med Haraldi Konúngi fedor ydrom, bardiz hann stundom vid meira lidi, stundom vid minna; hafdi hann jafnan sigr. Alldregi heyrda ek hann leita þess ráds, at vinir hans skyldo kénna hon-

honom at flýa: manom vèr ok ecki þèr þat ráð kènna Konúngr, þvíat vèr þickjomz ega høfdíngja rèttvann: þèr skulot ok ega traustа fylgdina af oss. Margir adrir studdo ok þá þetta mál. Konúngr segir ok sva, at hann var þess fúsari, at berjaz med lid þat er tilfengiz. Var þat þá rádit; lèt Konúngr þá skèra upp herør, ok senda allavega frá sèr, fèck hann bratt mikit lid. Þá mælti Egill Ullserkr: þat óttudumz ek of hríd, er fridr þessi hinn mikli var, at ek mundi verda ellidaudr inni á pallstrám mínom, en ek vilda heldr falla í orrosto, ok fylgja høfdíngja mínom: kann nú ok vera, at sva megi verda, um þat er lýkr.

## Kap. XXIV.

### Orrosta vid Frædarberg.

Synir Eiríks hèldo nordr um Stad, þegar er leidi gaf. En er þeir komo nordr um Stad, þá spyrja þeir hvar Hákon Konúngr var, ok halda til móts vid hann. Hákon Konúngr hafdi 9 skip; hann lagdiz nordr undir Frædarberg í Fèeyarsundi; en Eiríks synir legdo at fyrir sunnan bergit; þeir høfdo meir enn 20 skip. Hákon Konúngr sendi þeim ord, ok bad þá á land gánga, segir at hann hafdi þeim voll haslat á Rastar-kálfi; þar ero slèttir vellir ok miklir, en fyrir ofan gengr brecka laung ok heldr lág. Gengo Eiríks synir þá af skipom sínom, ok nordr yfir hálsinn, fyrir innan Frædarberg, ok sva fram á

Raftar-kálf. Þá mælti Egill til Hákonar Konúngs, bad hann fá sér 10 menn ok 10 merki. Konúngr gordi sva. Gengr þá Egill med menn sína upp undir breckuna; en Hákon Konúngr géck uppá vøllinn med lid sitt; setti upp merki, ok fylkti, ok segir sva: vèr skulum hafa fylking lánga, sva at þeir kríngi ecki um oss, þótt þeir hafi lid meira; gérdo þeir ok sva: vard þar orrosta mikil, ok en snarpasta sókn. Egill Ullserkr lét þá setja upp merki þau 10 er hann hafdi, ok skipadi sva mønnom. þeim er báro, at þeir skyldo gánga sem næstir breckonni, ok láta stundarhríd í millom hvars þeirra. Þeir gérdo sva, ok gengo fram med breckonni sem nærst, sva sem þeir mundo vilja koma á bak þeim Eiríks sonom. Þat sá þeir er efstir stódo í fylkíng Eiríks sona, at merki mørg fóro ódfluga, ok gnæfo fyrir ofan breckuna, ok hugdo at þar mundi fylgja lid mikit, ok mundi vilja koma á bak þeim, ok milli skipanna. Gérdiz þar þá kall mikit, sagdi hverr ødrom hvat tídt var: því nærst kom flótti í lid þeirra. En er þat sá Konúngarnir þá flýdo þeir. Hákon Konúngr sótti þá hardt fram med sínom mønnom, ok ráko þeir flóttann ok felldo lid mikit.

## Kap. XXV.

### Frá Gamla Konúngi.

Gamli Eiríksson, þá er hann kom uppá hálsinn fyrir ofan bergit, þá snériz hann aptr, ok

ok sá þá at ecki lid fór eptir þeim meira, enn þat er þeir hefdo ádr bariz vidr, ok þetta var prettr einn; þá lét Gamli Konúngr blása he blástr, ok setja upp merki sitt, ok skaut á fylking: hurfo at því allir Nordmenn, en Danir flýdo til skipanna. En er Hákon Konúngr ok hans lid kom þar at, þá vard þar orrosta hin snarpasta í annat sinn. Hafdi þá Hákon Konúngr meira lid; lauk sva at Eiríks synir flýdo: sóttu þeir þá sudr af hálsinom, en sumt lid þeirra opadi sudr á bergit, ok fylgdi Hákon Konúngr þeim. Vollr sléttr er austan af hálsinom, ok vestr á bergit, ok þá hamrar brattir vestr af. Þá opodo menn Gamla upp undan á bergit, en Hákon Konúngr sótti at þeim sva snarpliga, at hann drap suma, en sumir ljópo vestr af bergino, ok vóro hvarirtveggja drepnir, ok skyldiz Hákon Konúngr sva fremi vid, er hverr madr var drepinn.

## Kap. XXVI.

### Fall Gamla Konúngs ok Ullserks.

Gamli Eiríksson flýdi af hálsinom ofan á jöfnofyrir sunnan bergit. Þá snériz Gamli Konúngr enn í mót, ok héllt upp orrosto: kom þá enn lid til hans. Þar komo ok allir brædor hans med miklar sveitir. Egill Ullserkr var þá fyrir Hákonar monnom, ok veitti harda atgaungo, ok skiptoz þeir Gamli Konúngr hoggom vid, fékk Gamli Konúngr sár stór, en Egill féll, ok margt lid med hanom. Þá kom at Hákon Konúngr med

þær

þær sveitir er honom høfdo fylgt; vard þá enn ný orrosta. Sótti þá enn Hákon Konúngr hardt fram, ok hjó menn til beggja handa sér, ok felldi hvern yfir annann. Sva segir Guthormr Sindri:

Hrædðr fór hjorva raddar
Herr fyrir málma þverri,
Rógeyso geck ræsir
Rádsterkr framar merkiom.
Gerra gramr í snerro
Geir vísa ser hlífa
Hinn er yfrinn gat jøfra
Ods kváuar býr mána.

Eiríks synir sá menn sína allavega falla fyrir sér, þá snúaz þeir á flótta til skipa sinna; en þeir er fyrri høfdo flýit á skipin, þá høfdo þeir úthrundit skiponom, en sum skipin vóro þá uppi fjørot. Þá hljópo allir Eiríks synir á sund, ok þat lid er þeim fylgdi. Þar fèll Gamli Eiríksson, en adrir brædor hans náðo skiponom, ok héldo brott sídan med þat lid er eptir var, ok héldo sídan sudr til Danmerkor, ok dvøldoz þar um hríd, ok undo illa vid sína ferd.

## Kap. XXVII.

### Heygdr Egill Ullserkr.

Hákon Konúngr tók þar skip þau øll er uppi høfdo fjarat, er átt høfdo Eiríks synir, ok lèt draga á land upp; þar lèt Hákon Konúngr leggja Egil Ullserk í skip, ok med hánom alla þá menn, er af þeirra lidi høfdo fallit, lèt bera þar at jørd ok grjót. Hákon Konúngr lèt ok fleiri skip uppsetja, ok bera á valinn, ok sier þá hauga enn fyrir sunnan Frædarberg. Ey-

vindr Skáldaspillir orti víso þessa, þá er Glúmr Geirason hældiz í sinni víso um fall Hákonar Konúngs:

Fyrr raud Fenris varra
Flugvarr Konúngr sparra
(Málmhrídar svâll meidom
Módr) í Gamla blódi.
Þá er úslirfin àrfa
Eiríks ok rak geirá
Nú tregr gæti ganta
Grams fall á sjá alla.

Háver bauta-steinar standa hjá haugi Egils Ullserks.

## Kap. XXVIII.

### Hersaga til Hákonar Konúngs

Þá er Hákon Konúngr Adalsteins fóstri hafdi verit Konúngr í Noregi 26 vetor, sídan er Eiríkr bródir hans fór or landi, þá vard þat til tídinda, at Hákon Konúngr var staddr á Hörda-landi, ok tók veizlo í Stord á Fitjom; hefdi hann þar hird sína ok bændor marga í bodi síno. En er Konúngr sat yfir dagverdar-bordi, þá sá vardmenn er úti vóro, at skip mörg sigldu sunnan, ok àtto ecki lángt til eyarinnar. Þá mælti hverr vid annan, at segja skyldi Konúngi, at þeir hugdo, at herr mundi at þeim fara; en þat þótti engom dælt, at segja Konúngi hersögo; þvíat hann hafdi þar mikit vidlagt, hverjom er þat gérdi. En þat þótti þó úgéranda, at Konúngr vissi ecki þetta. Þá gengr einnhverr þeirra inn í stofona, ok bad Eyvind Finnsson gánga med sér skjótt, segir at hin mesta naudsyn var á. Eyvindr gêck þegar þannig, er sjá mátti til skipanna; þá sá hann þegar, at þar fór herr mikill. Gêck aptr

þeg-

þegar í stofona, ok fyrir Konúng ok mælti: Lítil er lídandi stund, en laung matmáls stund. Konúngr leit móti hanom ok mælti: hvat ferr? Eyvindr qvad:

Blódöx ar tjá ek beida
Bryn þíngs fetil stínga
Oss geraz hnept ens hvassa
Hefnendr seto efni:
Heldr er vant, enn ek vilda
Veg þinn Konúngr, segja,
Farom til fornra vapna
Fljótt hersögo drottni.

Konúngr segir: erto sva gódr drengr, Eyvindr, at þú mant ecki hersögo segja, nema sönn sé. Þá segja margir, at sú saga sé sönn. Lét þá Konúngr taka ofan bordin; gék hann þá út, ok sá til skipanna, sá þeir þá at þat vóro herskip. Konúngr spyr þá menn sína, hvert ráð taka skyldi; hvert berjaz skuli med lid þat er þeir hafa, eda gánga til skipa, ok sigla nordr undan. Er oss þat audsætt, segir hann, at vér munom nú berjaz vid lidsmon miklo meira, enn fyrr høfom vér átt, ok hefir oss þó jafnan þótt mikill misjafnadr lids vars þá er vér høfom orrosto átt vid sono Gunnhildar. Menn veitto hér ecki skjótann orskurd; þá svarar Eyvindr máli Konúngs:

Samira nordr eñ nordar
Naddregns hvotom þegni
Ver getom bili at bølva
Bordmærar skæ færa:
Nú er þat er rekr á rakna
Rymleid flota breidan
(Grípom ver í greipar
Gunñbord) Haraldr sunñan.

Konúngr svarar: raustliga er þetta mælt Eyvindr ok nær skaplyndi mino; en þo vil ek heyra fleiri manna úrskurd of þetta mál. En er menn

þótt-

þóttuz skilja hverso Konúngr vildi vera láta, þá svörudo margir, at heldr vildo falla med drengskap, en flýa fyrir Donom, at úreyndo; sögdo at opt hefdo þeir sigr fengit, þá er þeir hefdo barlz vid minna lid. Konúngr þackadi þeim vel ord sín, ok bad þá vapnaz, ok sva géra menn. Konúngr steypir brynjo á sik, ok gyrdir sik med sverdino Kvernbít, setr á höfot sér hjálm gullrodinn, tekr késjo í hönd sér, ok skjöld á hlid. Þá skipar hann hirdinni í eina fylkíng, ok böndom þar med, ok setti upp merki sín.

## Kap. XXIX.

### Frá fylkíngu Eiríks sona.

Haraldr Konúngr Eiríksson var þá höfdíngi yfir (fyrir) þeim brædrom eptir fall Gamla. Þeir brædur hefdo þar her mikinn sunnan af Danmörk. Þar vóro þá í lidi med þeim módorbrædor þeirra, Eyvindr Skreya ok Alfr Askmadr; þeir vóro sterkir menn ok raustir, ok hinir mesto manndrápa menn. Eiríks synir héldo skipom sínom til eyarinnar, ok gengo á land upp, ok fylkto, ok er sva sagt, at ecki væri minni lidsmunr, enn 6 menn mundo vera um einn, at Eiríks synir mundo fjölmennari.

## Kap. XXX.

### Frá fylkíngu Hákonar Konúngs.

Hákon Konúngr hafdi þá fylkt lidi síno, ok segja menn sva, at hann steypti af sér bryn-

jonni, ádor orrostan tókz. Sva segir **Eyvindr** Skáldaspillir í **Hákonar Málom**:

Bródor fundo þar Bjarnar
Or brynjo fara,
Konúng hinn kostsama
Komina und gunnfána;
Drupdo dólgar
En darrar hristiz,
Upp var þá
Hildr of hafin.
Het á Hólmrygi,
Sá er her kallar,
Jarla einbani,
Fór til orrosto.
Gott hafdi hinn gjøfli
Gengi Nordmanna,
Eigir ey-dana,
Stód und ár hjálmi.
Hraudz or hervádom,
Hratt á vøll brynjo,
Vísi verdúngar,
Adr til vígs tæki.
Lek vid ljódmøgo,
Skyldi land verja,
Gramr hinn gladværi
Stód und gullhjálmi.

**Hákon** Konúngr valdi menn mjøk í hird med sér, at afli ok reysti, sva sem gørt hafdi **Haraldr** Konúngr fadir hans. **Þorólfr** inn **Sterki Skolmsson** var þar, ok géck á adra hlid Konúngi; hann hafdi hjálm ok skjøld, kesjo ok sverd, þat er kallat var **Fetbreidr**. Þat var kallat, at þeir **Hákon** væri jamsterkir: þess gétr **Þórdr Sjáreksson**, í drápo þeirri er hann orti um **Þórálf**:

Þar er bødhardir børdoz
Bandz jó draugar landa,
Lystr geck herr til hjørva
Hnitz í Stord á Fitjom:
Ok gymsleyngvir gánga
Gífrs hlemána drifo
Rausta blaks et næsta
Nordmanna gram þordi.

En er fylkingar gengo saman, vard þar orrosta hørd ok mannskæd. En er menn høfdo skotit spjót-

om, þá brugdo menn sverdom, gêck þá Hákon Konúngr ok Þórálfr med hanom, fram um merkin, ok hjuggo til beggja handa. Sva segir Eyvindr Skáldaspillir:

Sva beit þá sverd
Or siklings hendi
Vadir vafadar
Sem í vatn brygdi.
Brokodo broddar,
Brotnodo skildir,
Glumrudo glym-ríngar
I gotna hausom.

Troddoz torgor
Fyrir týs ok bauga
Hjalta hardfótom
Hausar Nordmanna.
Róma vard í eyo,
Rudo Konúngar
Skírar skjaldborgir
I skatna blódi.

## Kap. XXXI.
### Fall Eyvindar Skreyo ok Alfs Askmanns.

Hákon Konúngr var audkéndr, meir enn adrir menn; lýsti ok af hjálminom, er sólin skein á: var vapnaburdr mikill at hánom. Þá tók Eyvindr Finnsson hött, ok setti yfir hjálm Konúngs. Eyvindr Skreya kalladi þá hátt: leyniz Nordmanna Konúngr nú? edr hefir hann flýit, edr hvar er nú gullhjálmrinn? Eyvindr gêck þá fram, ok Alfr bródir hans med hanom, ok hjoggo til beggja handa, ok léto sem odir eda galnir væri. Hákon Konúngr mælti hátt til Eyvindar: hallto svo fram stefnunni, ef þú villt finna Nordmanna Konúng. Sva segir, Eyvindr Skáldaspillir:

L Badat

Badat valgrindar vinda
Vedr heyandi Skreyo
Gumnom hollr ne gulli
Gefnar sinni stefno.
Ef svipkenni svinnan
Sigr minnigr vilt finna,
Fram hallto njótr at nýtom
Nordmanna gram þannig.

Var þá ok skammt at bída, ádr Eyvindr kom þar, ok reiddi upp sverdit, ok hjó til Konúngs. Þórálfr skaut vid hánom skildinom, ok stakradi Eyvindi vid: en Konúngr tók sverdit Kvernbít tveim höndom, ok hjó til Eyvindar ofan í hjálminn, ok klauf hjálminn ok höfudit allt í herdar nidr. Þá drap Þórálfr Alf Askmann. Sva segir Eyvindr Skáldaspillir:

Veit ek at beit hinn bitri
Byggving medal dyggvan
Búlka skíds or bádom
Ufælinn klauf ála
Eldrangr skarar hanga
Gullhjoltodom galltar.

Benvöndr konungs höndom. Grandrádr Dana brædi. Eptir fall þeirra brædra gëck Hákon Konúngr sva hardt fram, at þá hröck allt fólk fyrir hanom. Slær þá í lid Eiríks sona felmt ok flótta því nærst: en Hákon Konúngr var í öndverdri sinni fylkingo, ok fylgdi fast flóttamönnom, ok hjó tídt ok hardt: þá flaug ör ein, er fleinn er kalladr, ok kom í handlegg Hákoni Konúngi, upp í músina, fyrir nedan öxl. Ok er þat margra manna sögn, at skósveinn Gunnhildar, sá er Kispíngr er nefndr, ljóp fram í þysinom, ok kalladi: gëfit rúm Konúngs bananom, ok skaut fleininom til Hákonar Konúngs. En sumir segja, at engi viti hverr skaut: má þat ok vel vera, þvíat örvar ok spjót ok allskonar skotvopn flugo sva þyckt, sem drífa. Fjöldi manns féll af Eiríks sonom, bædi

á vígvellinom, ok á leid til skipanna, ok sva í fiorunni; ok fiøldi lióp á kaf. Margt komst á skipin, allir Eiriks synir, ok ræro þegar undan, en Hákonar menn eptir þeim. Sva segir Þórdr Sjáreksson:

| | |
|---|---|
| Vardi varga myrdir | Þrótt var syntþar er settoz |
| Vitt, sva skal frid slíta | Siñ ródrs vid þrøm stiñan |
| Jofor vildot þann eldaz, | (Madr let ønd ok annarr) |
| Øndvert fólk at løndom. | Ofár búendr sárir. |
| Starf hófz upp þar er arfi, | Afreks veit þat er jøfri |
| Otta vanr á flótta | Allríkr í styr slíkom. |
| Gulls, en gramr var falliñ, | Gøndlar niørdr sá er gerdi |
| Gunnhildar kom suñan. | Geck næst, hugins drecko. |

## Kap. XXXII.

### Daudi Hákonar Konúngs.

Hákon Konúngr géck út á skeid sína, lét þá binda sár sitt, en þar rann blód sva mikit, at ecki féck stødvat. Ok er áleid dag, þá úmætti Konúng. Segir hann þá mønnom sínom, at hann vill fara nordr á Alreksstadi, til bús síns. En er þeir komo nordr at Hákonar-hello, þá lagdo þeir þar at, ok var þá Konúngr nær lífláti; kalladi hann þá til sín vini sína, ok segir þeim skipan þá er hann vill géra of ríkit; hann átti dóttur eina barna, er Þóra er nefnd, ok engann son; hann bad þá senda þau ord Eiriks sonom, at þeir skyldo Konúngar vera yfir landi: en hann bad af þeim virkta vinom sinom ok frændom. En þótt mér verdi lífs audit segir hann, þá man ek af

 landi

landi fara til kristinna manna, ok bæta þat er ek hefi brotit vid Gud. En ef ek dey hér í heidni, þá veiti mér hér grøpt þann er ydr sýniz. Litlo sídar andadiz Hákon Konúngr, þar á hellunni, sem hann hafdi fæddr verit. Hákon Konúngr var sva mjøk harmadr, at bædi vinir ok úvinir grétu dauda hans, ok køllúdo at ecki mundi jafngódr Konúngr koma aptr í Noreg. Vinir hans flutto lík hans nordr á Sæheim á Nordr-hørdaland, ok urpó þar hang mikinn, ok løgdo þar í Konúng med alvæpni sitt, ok hinn besta búnat sinn, en ecki fé annat. Mælto þeir sva fyrir grepti hans, sem heidinna manna var sidr til; ok vísodo honom til Valhallar.

## Kap. XXXIII.

### Hákonar-Mál.

Eyvindr Skáldaspillir orti qvædi eitt um fall Hákonar Konúngs, ok sva þat. hverso honom var fagnat í Valhøll; þat er køllot Hákonar-mál, ok er þetta upphaf:

Gøndol ok Skøgol Hverr Yngva ættar
Sendi Gauta týr Skyldi med Odni fara,
At kjósa of Konúnga, I Valhøll at vera.
Brædor funda þeir Bjarnar, etc. (sjá bls. 160.)
Het á Háleygi, etc. (sjá somu bls.)
Hraudz or hervadom, etc. (sjá somu bls.)
Sva beit þá sverd, etc. (sjá bls. 151.)
Trøddust tørgor, etc. (sjá somu bls.)

Brunn-

Brunno ben-eldar
J blódgom undom;
Luto langbardar
At lýda fiorvi.
Svarradi sár gómir
A sverdanesi;
Fiell flód fleina
J fioro Stordar.
Blendoz vid rodnar
Und randar himni
Skoglar vedr lieko
Vid' skýs um bauga,
Umdo odd-lár
J Odins vedri;
Hneig margt manna
Fyrir mækis straumi.
Sáto þá dóglingar
Med sverd um togin,
Med skarda skiolldo
Ok skotnar brynjor,
Vara sá herr í hugom
Er átti til Valhallar vega.
Gondol þat mælti,
Studdiz geir skapti:
Vex nú gengi góda,
Er Hákoni hafa
Med her mikinn
Heim bond of bodit.
Visir þat heyrdi
Hvat valkyrior mælto
Mærar af mars baki:
Hyggiliga leto,
Ok hiálmadar sáto
Ok hofdoz hlífar fyrir.
Hví þú sva gunni
(qvad Hákon)
Skiptir geirskogol,
Værom þó verdir
Gagns frá gódom;
Ver því voldom
(qvad Skogol)
Er þú velli hellz,
En þínir fiandr flugo.
Rida vid nú skulom,
(Qvad hin ríka Skogol)
Græna heima góda,
Odni at segia
At nú muu allvaldr koma
Ok hann siálfann at siá.
Hermódr ok Bragi
(Qvad hropta týr)
Gáugit í gogn grani;
Þvíat Konúngr ferr,
Sá er kappi þyckir,
Til hallar hinnig.
Ræsir þat mælti,
Var frá rómu kominn,
Stód allr í dræra drifinn:
Jllúdigr miok
Þyckir oss Odinn vera
Siám ver hans of hugi.
Einherja grid

Skalt þú allra hafa,
Þygg þú at Asom øl;
Jarla bægi,
Þú átt inni her
Atta brædur, qvad Bragi.
Gerdar várar
(Qvad hinn gódi Konúngr)
Viljom ver sjálfir hafa
Hjálm ok brynjo
Skal hirda vel;
Gott er til geirs at taka.
Þá þat kyndiz
Hve sá Konúngr hafdi
Vel of þyrmt veom,
Er Hákon bádo
Heilann koma
Ráð øll ok regin.

Gódo dægri verdr
Sá gramr of borinn,
Er ser getr slíkan sefa;
Hans aldar
Æ mun vera
At gódo getit.
Man ó-bundinn
A ýta sjót
Fenris úlfr of fara,
Adr jafn gódr
A auda trød
Konúngmadr komi.
Deyr fe,
Deya frændor,
Eydiz land ok láð:
Siti Hákon
Med heidin god:
Mørg er þjód of þjáð.

V. Saga

# V.
# Saga
of
# Haraldi Konúngi Gráfeld
ok
# Hákoni Jarli Sigurdarsyni.

## Kap. I.
### Frá upphafi Eiríks sona, ok Eyvindi Skáldaspilli.

Eiríks synir tóko þá konúngdóm yfir Noregi, síðan er Hákon Konúngr var fallinn: var Haraldr mest fyrir þeim brædrom at virdingo, ok hann var ellztr þeirra er þá lifdo. Gunnhildr módir þeirra hafdi mjøk landráð med þeim; hon var kølloð Konúnga-módir. Þá vóro høfdíngjar í landino: Tryggvi Olafsson austr í landi, ok Gudrødr Bjarnarson á Vestfold, Sigurdr Hlada-Jarl í Þrándheimi: en Gunnhildar synir høfdo midt-land hinn fyrsta vetr. Þá fóro ord ok sendimenn milli

 Gunn-

Gunnhildar sona, ok þeirra Tryggva ok Gudrødar, ok var þar allt mælt til sætta, at þeir skyldo hafa þvílíkann lut ríkis af Gunnhildar sonom, sem þeir hofdo ádr haft af Hákoni Konúngi. Glúmr Geirason er madr nefndr, hann var skáld Haralds Konúngs, ok reystimadr mikill: hann orti víso þessa eptir fall Hákonar Konúngs:

Vel hefir hefnt, en hafna
Hjørs ben draugar fiørvi,
Fólkrackr of vant fylkir
Framligt Haraldr
Gamla.
Er dockvalir drecka
Dólg brands fyrir ver
handan
Rodin frá ek randra benja
Reyr, Hákonar dreyra.

Þessi vísa vard allkær. En er þetta spyr Eyvindr Finnsson, qvad hann víso, er fyrr er ritin:

Fyrr rand fenris varra, etc. (siá blf. 157.)

Var sú vísa ok miøg flutt. En er þat spyrr Haraldr Konúngr, þá gaf hann þat Eyvindi at dauda-søk, allt til þess er vinir þeirra sætto þá, med því, at Eyvindr skyldi gêraz skáld hans, sva sem hann hafdi ádr verit skáld Hákonar Konúngs. Var frændsemi þeirra mikil, sva at Gunnhildr var módir Eyvindar, dóttir Hálfdanar Jarls; en módir hennar var Ingibjørg, dóttir Haralds Konúngs ens Hárfagra. Þá orti Eyvindr víso um Harald Konúng;

Litt qvádo þik láta
Landvørdr er brast Hørda
Brynjo hagl í benjom
Buggoz álmar, ged fálma.
Þá er úfólgin ylgjar
Endr or þinni hendi
Fetla svell til fyllar
Full egg, Haraldr, gullv.

Gunn-

Gunnhildar synir sato mest um midt land, þvi at bædi þótti þat ecki trúligt, at sitia undir hendi Þrændom, edr Víkverjom, er mestir hef;o verit vinir Hákonar Konúngs; en stórmenni margt var í hvaromtveggja stad. Þá fóro menn med sættar-bodom í milli þeirra Gunnhildar sona ok Sigurdar Jarls; þvíat þeir fengo engar skyldir ádr or Þrándheimi, ok vard þat at lyktom, at þeir gérdo sætt sina Konúngar ok Jarl, ok bundo þat svardøgom. Skyldi Sigurdr Jarl hafa ríki slíkt af þeim í Þrándheimi, sem hann hafdi fyrr haft af Hákoni Konúngi; vóro þeir þá sáttir kalladir. Allir synir Gunnhildar vóro kalladir menn sínkir, ok var þat mælt, at þeir fæli lausafé í jordo. Um þat orti Eyvindr Skáldaspillir vísu:

Bárom ullr of alla
Imon lauks á hauka
Fiollom Fýrisvalla
Fræ Hákonar æfi.
Nú hefir fólk-stridir Fróda
Fáglýadra þýa
Meldr í móđor holdi
Mello dólgs of fólginn.

Ok enn:

Fullar skein á fiollom
Fallsól bráa vallar
Ullar kiøls of allan
Aldr Hákonar skáldom.
Nú er álfrødull elfar
Iøtna dólgs of fólginn
(Rád ero rammar þiódar
Rík) í móđor líki.

Þá er Haraldr Konúngr spurdi um vísor þessar satt, þá sendi hann ord Eyvindi at hann skyldi koma á sinn fund. En er Eyvindr kom á Konúngs fund, þá bar Konúngr sakar á hann, ok kalladi hann vera úvin sinn, ok samir þér þat illa, segir hann, at veita mér útrúnat, því-

 at

at þú hefir ádr gêrzk minn madr. Þá qvad Eyvindr víso:

| | |
|---|---|
| Einn drottin̄ hefi ek áttan, | Trúr var ek tiggja dýrom, |
| Jofr dórr, enn þik fyrri, | Tveim skioldom lek ek aldri |
| Hellr bragníngr elli, | Fylli ek flock þinn stillir, |
| Bid ek eigi mer ens þridja. | Fellr á hønd mer elli. |

Haraldr Konúngr lèt Eyvind festa sèr fyrir mál þetta sinn dóm. Eyvindr átti gullbríng mikinn ok gódann, er kalladr var Moldi; hann hafdi verit tekinn laungo ádr or jørdo; hríng þann segir Konúngr at hann vill hafa, ok var þá ecki annar kostr á. Þá qvad Eyvindr:

| | |
|---|---|
| Skylda ek skerja foldar | Er valjardar verdum |
| Skiorennand; sídan | Veljandi, þer selja |
| Þursa bæs fyrir þvísa | Løngva mens-þat er lengi |
| Þinn gódan byr finna. | Láttr, minn fadir átti. |

Fór þá Eyvindr heim, ok er ecki þess gétit, at hann findi Harald Konúng sídan.

## Kap. II.

### Frá Gunnhildar sonom ok kristnihaldi þeirra.

Gunnhildar synir tóko kristni á Englandi, sem fyrr var ritit; en er þeir komo til forráda í Noregi, þá fengo þeir ecki áleidis komit at kristna menn í landino; en allt þar er þeir komo því vid, þá bruto þeir nidr hof ok spillto blótom, ok fengo af því mikla óvinsáttu. Var þat brátt á þeirra døgom, at árferd spilltiz í landino, þvíat Konúngar vóro marg-

margir, ok hafdi hverr þeirra hird um sik; þurfto þeir mikils vid ok um kostnad, ok vóro þeir inir fégjørnzto. En ecki héldo þeir mjøk løg þau er Hákon Konúngr hafdi sett, nema þat er þeim þótti fellt. Þeir vóro allir hinir fríduzto menn, sterkir ok stórir, íþrótta menn miklir. Sva segir Glúmr Geirason í drápo þeirri er hann orti um Harald Gunnhildarson:

Kunni tólf sá er tanna
Tídom hallinskída
Ognar stafr of jøfra
Iþróttir fram sótti.

Optliga fóro þeir brædor allir saman, en stundom sér hverr: þeir vóro menn grimmir ok raustir, orrosto menn miklir, ok mjøk sigrsælir.

## Kap. III.

### Rádagjørd Gunnhildar ok sona hennar.

Gunnhildr Konúnga-módir ok synir hennar, vóro opt á tali ok málstefnom, ok rédo landrádom. Ok eitt sinn spyr Gunnhildr sono sína: hvernig ætli þér at láta fara um ríki í Þrándheimi? þér berit Konúnga nøfn, sva sem fyrr høfdo haft lángfedgar ydrir, en þér hafid lítit lid ok land, ok erot margir til skiptis. Víkina austr hafa þeir Tryggvi ok Gudrødr, ok hafa þeir þar nockora tiltelo fyrir ættarsakir. En Sigurdr Jarl rædr einn fyrir øllom Þrændaløgom, ok veit ek ecki hver skyldа ber til þess, at láta Jarl einn ráda ríki sva miklo undan

an ydr. Þycki mér þat undarligt, er þér farit hvert sumar í víking á ønnor lønd, en látit Jarl innanlands taka af ydr fødorleifd ydar. Lítit mundi Haraldi Konúngi þyckja, er þú ert eptir heitinn fødor-fødor þínom, at setja Jarl einn af ríki ok lífi, er hann vann allann Noreg undir sik, ok réd sídan til elli. Haraldr svarar: þat er ecki sva, módir! sagdi hann, audvelt, at taka Sigurd Jarl af lífdøgom, sem at skéra kid eda kálf; Sigurdr Jarl er ættstór ok frændmargr, vinsæll ok vitr, vætti ek, ef hann spyrr at sønno, at hann á úfridar van af oss, þá ero þar allir Þrændir sem hann er. Ego vér þar þá ecki erindi nema íllt eitt. Líz mér sva sem engom varom brædrá þycki tryggt, at sitja undir hendi þeim Þrændom. Þá segir Gunnhildr: vér skulom þá fara allt annann veg med varo rádi, gøra oss minna fyrir. Haraldr ok Erlingr skulo sitja í haust á Nordmæri, má ek ok fara med ydr: skulo vér þá øll saman freista hvat atsýsliz. Nú gêra þau á þessa leid.

## Kap. IV.

### Rádagérd Gunnhildar sona ok Grjótgards.

Bródir Sigurdar Jarls hét Grjótgardr, hann var yngri miklo þeirra, ok virdr minna, hafdi hann ok ecki tignar nafn; en hann héllt þó sveit, ok var í víking á sumrom, ok fèck sér fjár. Haraldr Konúngr sendi menn inn

inn í Þrándheim á fund Sigurdar Jarls, med vingjøfom ok vinmælom. Sendimenn søgdr, at Haraldr Konúngr vill leggja vid hann þvílika vináttu, sem ádr hafdi Hákon Konúngr haft vid Sigurd Jarl. Þat fylgdi ok ordsendíngo, at Jarl skyldi koma á fund Haralds Konúngs, skyldo þeir þá binda at fullo vináttu sína. Sigurdr Jarl tók vel sendimønnom ok vináttu Konúngs, en segir at hann mátti ecki fara á fund Konúngs fyrir fjølskyldom sínom: en sendi Konúngi vingjafir ok ord góð ok blíd í móti vináttu hans. Fóro sendimenn í brott. Þeir fóro ok á fund Grjótgards; ok flutto til hans et sama erindi, vináttu Haralds Konúngs ok heimbod, ok þar med gódar gjafir. En er sendimenn fóro heim, þá hét Grjótgardr ferd sinni: ok át áqvednom degi kémr Grjótgardr á fund Haralds Konúngs ok Gunnhildar; ok var þar vid honom tekit allfeginsamliga. Var hann þar hafdr í enom mestom kjærleikom, sva at Grjótgardr var hafdr vid einka-mál, ok marga leynda luti: kémr þar nidr, at sú ræda var uppi høfd til Sigurdar Jarls, sem þau høfdo ádr samit Konúngr ok drottníng: tøldo þau fyrir Grjótgardi hverso Sigurdr Jarl hafdi hann lengi litinn mann gérvann; edr hvert hann mundi vilja fara at Jarli med þeim brædrom. En ef hann vildi vera í þesso rádi med þeim, þá segir Konúngr, at Grjótgardr skyldi vera Jarl hans, ok hafa ríki þat allt, er ádr hafdi Sigurdr Jarl haft:

kom

kom sva, at þau sømdo þetta med einka-málom, at Grjótgardr skyldi halda njósn til, nær likaz væri at veita atferd Sigúrdi Jarli, ok gêra þá ord Haraldi Konúngi. Fór þá Grjótgardr heim vid sva búit, ok þá gódar gjafir af Konúngi.

## Kap. V.

### Brenna Sigurdar Jarls.

Sigurdr Jarl fór um haustit inn í Stjórnadal, ok var þar á veizlom; þadan fór hann út á Oglo, ok skyldi þar taka veizlor. Jarl hafdi jafnan mikit fjølmenni med sér, þvíat hann trúdi illa Konúngom. En med því, at þá høfdo farit vinátto mál med þeim Haraldi Konúngi, þá hafdi hann nú ecki mikla sveit manna. Grjótgardr gêrdi þá njósn til Haralds Konúngs, at ecki mundi í annat sinn vænna at fara at Jarli; ok þegar á sømo nótt fóro þeir Konúngarnir Haraldr ok Erlíngr inn eptir Þrándheimi, ok høfdo skip 4 ok lid mikit; sigla inn um nóttina vid stjørnoljós; kom þá Grjótgardr til móts vid þá; komo þeir ofanverda nótt á Oglo, þar sem Sigúrdr Jarl var á veizlo. Þeir løgdo þar eld í hús, ok brendo bæinn, ok Jarl inni, med øllo lidi sino. Fóro braut þegar árdegis um morguninn, út eptir firdi, ok sva sudr á Mæri, ok dvøldoz þar lánga hríd.

Kap.

## Kap. VI.

### Upphaf Hákonar Jarls Sigurdarsonar.

Hákon sonr Sigurdar Jarls var þá inn í Þrándheimi, er hann spurdi þessi tídindi. Var þegar herhlaup mikit um allann Þrándheim, var þar á vatn dregit hvert skip, er herfært var. En er her sá kom saman, þá tóko þeir til Jarls ok høfdíngja yfir lidit Hákon son Sigurdar Jarls: héldo þeir lidi því út eptir Þrándheimi. En er þetta spyrja Gunnhildar synir, þá fara þeir sudr í Raumsdal, ok á Sunnmæri, halda þá hvarir njósnom til annara. Sigurdr Jarl var drepinn tveim vetrom eptir fall Hákonar Konúngs Eyvindr Skáldaspillir segir sva í Háleygja-tali:

| | |
|---|---|
| Ok Sigurd hinn | Ok ødlíngr |
| Er svanom veitti | J elon jardar |
| Hróka bjór | Alnar orms |
| Haddíngja vals, | Ofælinn vard |
| Farma týs | Lífs of lattr; |
| Fjørvi næmdo | Þar er landrekar |
| Jardrádendor | Týs áttúng |
| A Ogloe. | J trygd svíko. |

Hákon Jarl héllt Þrándheimi med styrk frænda sinna 3 vetor, sva at Gunnhildar synir fengo engar tekjor í Þrándheimi. Hákon átti margar orrostor vid Gunnhildar syni, ok drápoz marga menn fyrir. Þess getr Einar Skálaglam

glam í Vellekló, er hann orti um Hákon Jarl:

Ok oddneytir úti
Eidvandr flota breidan
(Gladr í Gøndlar vedrom
Gramr svafdi bil) hafdi.
Ok rand mána reynir
Rógsegl Hedins bóga
Upphóf jøfra kappi
Etjo lund at setja.

Ok enn qvad hann:

Varak of byrjar ørva
Odda vífs ne drífo
Sverda sverri fiardar
Svan glýadi at frýa.
Brak-røgnir skók bogna
Barg óþyrmir varga
Hagl or Hlackar seglom
Hjørs rakliga fiørvi.
Mart vard el ádr ála
Austrlønd at mun banda
Randar lauks af ríki
Ræki lundr of tæki.

Enn gétr Einarr hvernog Hákon Jarl hefndi fødor síns:

Ber ek fyrir hefnd þá er hrafna
Hljóms lof togin skjóma
Þat nam vørdr at vinna
Vann síns fødor hranna.
Rigndi hiørs af hersa
Hridremmis fiør vída
Þrimlundr ofjók þundi
Þegns gnótt ok men regni.
Ok haldvidr holda
Haf-Faxa let vaxa
Lausa vedr at lífom
Líkkold Hárs í drífo.

Eptir þetta fóro milli beggja vinir, ok báro sættarord milli þeirra, þvíat bændom leiddiz hernadr ok ófridr innanlands, ok kémr sva med rádi vitra manna, at sætt var gørr milli þeirra, sva at Hákon Jarl skyldi hafa þvílikt ríki í Þrándheimi, sem hafdi Sigurdr Jarl fadir hans; en Konúngar skyldo hafa þvílikt ríki, sem Há-

Hákon Konúngr hafdi haft fyrir þeim, ok var þat þá bundit fullom trúnadi. Þá gérdiz kærleikr mikill med þeim Hákoni Jarli, ok Gunnhildi, ok stundom beittoz þau vélrædom; leid sva fram adra 3 vetor; sat þá Hákon um kyrt í ríki sino.

## Kap. VII.

### Frá Haraldi Gráfeld.

Haraldr Konúngr sat optaz á Hørdalandi ok Rogalandi, ok sva þeir fleiri brædor; þeir sáto optliga í Hardangri. Þat var á eino sumri, at hafskip kom af Islandi, er átto íslendskir menn; þat var hladit af vararfeldom, ok héldo þeir skipino til Hardangrs, þvíat þeir spurdo at þar var fjølmenni mest fyrir. En er menn komo til kaupa vid þá, þá vildi engin kaupa varar-feldina. Þá fer styrimadr á fund Haralds Konúngs, þvíat honom var hann málkunnigr, ok segir hanom til þessa vandræda. Konúngr segir at hann mun koma til þeirra, ok hann gérir sva. Haraldr Konúngr var madr lítillátr, ok gledimadr mikill; hann kom med skúto alskipada, ok leit á varníng þeirra, ok mælti vid styrimann: vilto géfa mér einn gráfeldinn? gjarna, segir styrimadr, þótt fleiri væri. Þá tók Konúngr einn gráfeldinn, ok skyckti sik; sídan gèck hann ofan í skútuna. En ádr þeir réro í brott, hafdi hverr hans manna feld keyptann. Fám døgom sídar kom

M þar

þar sva margt manna þeirra, er hverr vildi feld kaupa, at ecki fengo hálfir þeir er hafa vildo. Sidan var hann kalladr Haraldr Gráfeldr.

## Kap. VIII.

### Fæddr Eirikr Jarl.

Hákon Jarl fór einn vetr til Upplanda, ok á nockora gisting; þá vard sá atburdr, at hann lagdiz med kono einni, ok var sú litillar ættar. En þá er þadan lido stundir, gëck sú kona med barni; en er barn þat var alit, var þat sveinn, ok var vatni ausinn ok kalladr Eirikr. Módirin flutti sveininn til Hákonar Jarls, ok segir at hann var fadirinn. Jarl lët sveininn uppfædaz med manni þeim er kalladr var Þorleifr hinn Spaki; hann bjó upp í Medaldal; hann var rikr madr ok audigr, ok vin mikill Jarls. Var Eirikr brátt mannvænn, hinn fridasti sýnom, mikill ok sterkr snemma. Jarl lët fátt um til hans. Hákon Jarl var allra manna fridastr sýnom, ecki hárr madr, vel sterkr, ok íþrótta madr mikill, spakr at viti, ok hermadr hinn mesti.

## Kap. IX.

### Dráp Tryggva Konúngs.

Þat var á eino hausti at Hákon Jarl fór til Upplanda, en er hann kom út á Heidmørk, þá këmr þar í móti honom Tryggvi

Konúngr Olafsson ok Gudrødr Konúngr Bjarnarson, þar kom ok Dala Gudbrandr. Þeir átto stefnolag med sér, ok sáto lengi á einmæli, en þat kom upp, at hverr þeirra skyldi vera vin annars, ok skiljaz sídan; fór hverr heim til síns ríkis. Þetta spyr Gunnhildr ok synir hennar, ok er þeim grunr á, at þeir muni hafa gért landrád nockor vid Konúngana; tala þau optliga sín á milli. En er varadi, þá lýsa þeir Haraldr Konúngr ok Gudrødr Konúngr bródir hans því, at þeir mano fara í víking um sumarit vestr um haf, edr í Austrveg, sem þeir vóro vanir. Þá draga þeir lid at sér, ok hryndu skipom á vatn, ok búaz sídan. En er þeir drucko brottferdar øl sitt, þá vóro dryckjor miklar, ok margt mælt vid dryckinn; þá kom þar er mannjafnadr vard, ok þá var rædt um Konúnga sjálfa. Mælti madr, at Haraldr Konúngr væri framastr þeirra brædra at øllom lutom. Því reiddiz Gudrødr Konúngr mjøk; segir sva, at hann skal í engo hafa minna lut, enn Haraldr; segir, at hann er búinn at þeir reyni þat. Var þá brátt hvarrtveggi þeirra reidr, sva at hverr baud ødrom til vígs, ok hljópo til vapna. En þeir er vitrir vóro, ok midr drucknir, stødvado þá, ok ljópo í milli þeirra. Fóro þá hvarir til skipa sinna, en engi var van þá, at þeir mætti allir saman fara. Sigldi þá Gudrødr austr med landi, en Haraldr stefndi til hafs út, ok sagdi at hann mundi sigla vestr um haf. En er hann kom

út um eyar, þá stefndi hann austr með landi hafleið. Gudrødr Konúngr sigldi þjóðleið austr til Víkur, ok sva austr yfir Foldina. Þá sendi hann Tryggva Konúngi orð, at hann skyldi koma til móts við hann, ok færi þeir báðir um sumarit í Austrveg at herja. Tryggvi Konúngr tók því vel ok líkliga; hann spurði at Gudrødr Konúngr hafði lítit lið; fór þá Tryggvi Konúngr á fund hans með eina skuto. Þeir funnoz fyrir austan Sótanes við Veggina. En er þeir gengo á málstefno, þá ljópo at menn Gudrødar Konúngs, ok drápo Tryggva Konúng, ok 12 menn með hánom, ok liggr hann þar, sem nú er kallat Tryggva Hrer.

## Kap. X.

### Fall Gudrødar Konúngs.

Haraldr Konúngr sigldi mjek útleið; hann stefndi inn í Víkina, ok kom um nótt til Túnsbergs, þá spurði hann at Gudrødr var í veizlo þar skammt upp á land. Fóro þeir Haraldr Konúngr upp þannog, komo þar um nóttina, ok taka hús á þeim. Þeir Gudrødr Konúngr gánga út, varð þar skømm viðrtaka, aðr Gudrødr Konúngr féll, ok margt manna með hanom. Ferr þá Haraldr Konúngr í brott til fundar við Gudrødr Konúng bróður sinn, leggja þeir þá undir sik Víkina alla.

## Kap. XI.

### Frá Haraldi Grenska.

Gudrødr Konúngr Bjarnarson hafdi fengit sér gott qvanfáng ok makligt: þau átto son er Haraldr hét; hann var sendr til fóstrs upp á Grenland til Hróa ens Hvíta, lends manns; sonr Hróa var Hrani hinn Vídförli; vóro þeir Haraldr mjøk jafnaldrar ok fóstbrædor. Eptir fall Gudrødar fødor síns flýdi Haraldr, er kalladr var hinn Grenski, fyrst til Upplanda, ok med hanom Hrani fóstbródir hans, ok fáir menn med þeim; dvaldiz Haraldr þar um hríd med frændom sinom. Eiriks synir leitodo mjøk eptir þeim mønnom, er í søkom vóro bundnir vid þá, ok þeim ellom mest, er þeim var uppreistar af ván. Þat rédo Haraldi frændor hans ok vinir at hann færi or landi í brott. Haraldr Grenski fór þá austr til Svíþjódar, ok leitadi sér skipanar, at koma sér í sveit med þeim mønnom, er í hernat fóro, at afla sér fjár: Haraldr var hinn gérviligsti madr. Tosti hét madr í Svíþjód er einn var ríkastr ok gøfgastr í þvi landi, þeirra, er ecki bæri tignar nafn. Hann var hinn mesti hermadr, ok var laungom í hernadi; hann var kalladr Skøglar-tosti. Haraldr Grenski kom sér þar í sveit, ok var med Skøglar-tosta um sumarit í víkingo, ok virdiz Haraldr hverjom manni vel. Haraldr var eptir um vetrinn med Tosta. Haraldr hafdi verit 2 vet

er á Upplöndom, en 5 vetor med Tosta. Sigridr hèt dóttir Tosta, úng ok fríd, ok svarkr mikill; hún var sídan gipt Eiriki Svíakonúngi inom Sigrsæla, ok var þeirra son Olafr Sænski, er sídan vard Konúngr í Svíþjód. Eirikr Konúngr vard sóttdaudr at Uppsølom, 10 vetrom sídar enn Styrbjørn fèll.

## Kap. XII.

### Hernadr Hákonar Jarls.

Gunnhildar synir budo út lidi miklo or Víkinni, fara sva nordr med landi, ok hafa lid ok skip or hverjo fylki. Gèra þeir þá bert, at þeir mano her þeim stefna nordr til Þrándheims á hendor Hákoni Jarli. Þessi tídindi spyr Jarlinn, ok samnar her saman ok rædr til skipa. En er hann spyr til hers Gunnhildar sona, hverso mikinn þeir hafa, þá heldr hann lidi síno sudr á Mæri, ok herjar allt þar er hann fór, ok drap mikit mannfólk, bædi ríka ok úríka. Sídan sendi hann aptr til Þrándheims bóanda lidit allt; en hann fór herskildi um Mæri, hvaratveggjo, ok Raumsdal, ok hafdi njósnir allt fyrir sunnan Stad um her Gunnhildar sona; ok er hann spurdi at þeir vóro komnir í Fjørdo, ok bido byrjar, at sigla nordr um Stad, þá, sigldi Hákon Jarl nórdan fyrir Stad útleid, sva at ecki sá af landi segl hans; lèt sva gánga hafleidis austr med landi, ok kom fram í Danmørk,

mørk; sigldi þá í Austrveg, ok herjadi þar um sumarit. Gunnhildar synir héldo lidi' síno nordr' til Þrándheims, ok dvøldoz þar mjök lengi um sumarit; tóko þar skatta alla ok skyldir. En er áleid sumarit, þá settoz þar eptir Sigurdr Sleva ok Gudrødr, en Haraldr ok adrir þeir brœdor fóro austr í land, ok leidángurs lid' þat er farit hafdi med þeim um sumarit.

## Kap: XIII.

### Frá Hákoni Jarli ok Gunnhildar sonom.

Hákon Jarl fór um haustit til Helsíngjalands, ok setti þar upp skip sín, fór sídan landveg um Helsíngjaland ok Jamtaland, ok sva austan um Kjøl ofan í Þrándheim: dreif þegar lid mikit til haus, ok réd hann til skipa. En er þat spyrja Gunnhildar synir, þá stíga þeir á skip sín, ok halda út eptir firdi: en Hákon Jarl fer útá Hladir, ok sat þar um vetrinn; en Gunnhildar synir sato á Mæri, ok veitto hvarir ødrom áráſir, ok drapoz menn fyrir. Hákon Jarl héllt riki síno í Þrándheimi, ok var þar optaz á vetrom, en fór á sumrom stundom austr á Helsíngjaland, ok tók þar skip sín, ok fór í Austrveg, ok herjadi þar á sumrom. En stundom sat hann í Þrándheimi, ok hafdi her úti, ok héldoz þá Gunnhildar synir ecki fyrir nordan Stad.

## Kap. XIV.

### Dráp Sigurdar Slevo.

Haraldr Gráfeldr fór á eino sumri med her sinn nordr til Bjarmalands, ok herjadi þar, ok átti orrosto mikla vid Bjarma á Vinobacka; þar hafdi Haraldr Konúngr sigr, ok drap margt fólk; herjadi þá vída um landit, ok féck ofa mikit fé. Þess gétr Glúmr Geirason:

Austr raud jøfra þrýstir
Ordrackr fyrir bý nordan
Brand, þar er Bjarmskar kindir
Brennanda sá ek renna.
Gott hlaut gumna sættir,
Geirvedr í før þeirri
Ødlíngi fekz úngom,
Ord á Vino bordi.

Sigurdr Konúngr Slefa kom til búss Klypps Hersis, hann var son Þórdar Hørda-Kárasonar; hann var ríkr madr ok kynstór. Klyppr var þá ecki heima, en Aløf kona hans tók vel vid Konúngi, ok var þar veizla gód ok dryckjor miklar. Aløf var Asbjarnardóttir, systir Járnskeggja, nordan af Yrjom. Hreidarr var bródir Asbjarnar, fadir Styrkárs fødor Endrida, fødor Einars Þambaskelfis. Konúngr géck um nóttina til hvilo Aløfar, ok lá þar at úvilja hennar; sídan fór Konúngr í brott. Eptir um haustit fóro þeir Haraldr Konúngr ok Sigurdr bródir hans uppá Vørs, ok

ok stefndo þar þíng vid bændor. En á þíng-ino veitto bændor þeim atfør, ok vildo drepa þá, en þeir komoz undan, ok fóro í brot sídan. Fór Haraldr Konúngr í Hardángr, en Sigurdr Konúngr fór á Alreksstadi. En er þat spyrr Klyppr Hersir, þá heimtaz þeir saman frændor, ok veita atferd Konúngi, ok var høfdíngi fyrir lidino Vemundr Vølubrjótr. En er þeir koma á bæinn, veita þeir Konúngi atsókn; er sva sagt, at Klyppr lagdi Konúng med sverdi í gegnom, ok vard þat bani hans. En þegar í stad drap Erlíngr Gamli Klypp.

## Kap. XV.

### Fall Grjótgards.

Haraldr Konúngr Gráfeldr ok Gudrødr Konúngr bródir hans draga saman her mikinn austan or landi, ok hǫ́ldo lidi því nordr til Þrándheims. En er þat spyrr Hákon Jarl, safnadi hann lidi at sér, ok hǫ́llt sudr á Mæri ok herjar. Þá var þar Grjótgardr fødorbródir hans, ok skyldi hafa landvørn af Gunnhildar sonom; hann baud her út, sva sem Konúngar hefdo ord til sendt. Hákon Jarl hǫ́llt til fundar vid hann, ok til bardaga: þar féll Grjótgardr, ok tveir Jarlar med hánom, ok margt lid annat. Þessa gętr Einar Skálaglam:

Hiálm grapi vann hilmir
Hardr lopz vinar barda
Pví kom vextr í Vino
Vínheims fiandor sína.
At forsnjallir fello
Furs íþróttar skúrom
Pat fær þjódar snytri
Prír Jarls synir, tírar.

Sídan sigldi Hákon Jarl út til hafs, ok sva útleid, sudr med landi: hann kom fram sudr í Danmørk, ok fór á fund Haralds Gormssonar Dana Konúngs, fær þar gódar vidtøkor; dvaldiz med hanom um vetrinn. Pá var ok med Dana Konúngi madr sá er Haraldr hét, hann var sonr Knúts Gormssonar, bródorson Haralds Konúngs: hann var kominn or víking, hafdi lengi herjat, ok fengit þar of lanfafiár; hann var kalladr Gull-Haraldr; hann þótti vel til kominn at vera Konúngr í Danmørk.

## Kap. XVI.

### Fall Erlings Konúngs.

Haraldr Konúngr Gráfeldr, ok þeir brædor héldo lidi síno nordr til Prándheims, ok fengo þar enga mótstødo; tóko þar skatt ok skyld,

skyld, ok allar Konúngs-tekjor, ok léto bændor gjalda stór gjøld; þvíat Konúngar høfdo þá lánga hríd litit fé fengit or Þrándheimi, er Hákon Jarl hafdi þar setit med fjølmenni miklo, ok átti úfrid vid Konúnga. Um haustit fór Haraldr Konúngr sudr í land, med þat lid flest, er þar átti heimili; en Erlíngr Konúngr sat eptir med síno lidi; hann hafdi þá enn miklar krafir vid bændor, ok gërdi hardann rétt þeirra; en bændor kurrodo ílla, ok baro ecki vel skada sinn. Ok um vetrinn sømnodoz bændor saman, ok fá lid mikit; stefna sídan at Erlíngi Konúngi, þar sem hann var á veizlo, ok halda vid hann orrosto: féll Erlíngr Konúngr þar, ok mikil sveit manna med hánom.

## Kap. XVII.
### Hallæri í Noregi.

Þá er Gunnhildar synir rédo fyrir Noregi, gërdiz hallæri mikit, ok vár því meira at, sem þeir høfdo lengr verit yfir landi; en bændor kénndo þat Konúngom; ok þat med at Konúngar vóro fégjarnir, ok vard hardr gërr réttr bænda. Sva kom um sídir, at náliga misti

misti landsfólk vídazt korns ok fiska. Á Hálogalandi var sva mikill sulltr ok seyra, at þar óx náliga ecki korn, en snjár lá þar á ollo landi, at midjo sumri, ok bú allt var inn bundit at midjo sumri. Sva qvad Eyvindr Skáldaspillir; hann kom út, ok dreif mjøk:

Snjór á svølnis varo
Sva høfom inn sem Finnar
Birki hind of bundit
Brums, at midjo sumri.

## Kap. XVIII.
## Frá Islendingom ok Eyvindi Skáldaspilli.

Eyvindr orti drápo um alla Islendínga, en þeir launodo hanom sva, at hverr bóndi gaf hanom skattpenníng þann er stód 3 penínga silfrs vegna, ok hvítr í skør. En er silfrit kom fram á Alþíngi, þá rédo menn þat af, at fá smida til at skíra silfrit: sídan var gérr af feldardálkr; en þar af var greidt smídarkaupit; þá stód dálkrinn 50 marka: hánn sendo þeir Eyvindi. En Eyvindr lét høggva í sundr dálkinn, ok keypti sér bú med. Þá kom

ok

ok þar um vár þat, vid útver nockor, broddr af síld. Eyvindr skipadi róðrar-ferjo hús-karlom sínom ok landsbúom, ok réri þannog til, sem síldin var rekin: hann qvad:

Látom lángra nóta
Løg sóta ver fótom
At spá þernom sporna
Spord fiødrodom nordan.
Vita ef akar mútor
Eldgerdar falar verdi,
It þær er upp um róta
Unn svín vinom mínom.

Ok sva vendiliga var uppgengit allt lausa-fé hans, at hann hafdi keypt til bords sér, hann keypti síldina med bogaskoti síno; hann qvad:

Fengom feldar stinga
Fiørd ok galt vid hjørdo,
Þann er ál-himins utan
Oss lendíngar sendo
Mest selda ek mínar
Mæ vid ørom sævar
(Hallærit veldr hvaro)
Hlaupsildr egils gaupna.

Endir ens Fyrsta Heftis.

# VI.

# Saga
af
# Olafi Konúngi Trygg-vasyni.

## Kap. I.

### Fæddr Olafr Tryggvason.

Astrídr hét kona sú er átt hafdi Tryggvi Konúngr Olafsson; hún var dottir Eiríks Bjódaskalla er bjó á Ofrostødom, ríks manns. En eptir fall Tryggva flýdi Astrídr á brótt, ok fór á laun úngo med lausa-fé þat er hún mátti med sér hafa. Henni fylgdi fóstorfadir hennar, sá er Þórólfr Lúsaskéggr hét; hann skildiz aldregi vid hana, en adrir trúnadar-menn hennar fóro á njósn, hvat er spurdiz af úvinom hennar, edr hvat þeir fóro. Astrídr géck med barni Tryggva Konúngs; hún lét flytja sik út í vatn eitt ok leyndiz þar í hólma nockorom vid fá menn. Þar fæddi
N hún

hún barn, þat var sveinn; en er hann var vatni ausinn var hann kalladr Olafr, eptir fødorfødor sínom. Þar leyndiz hún of sumarit. En er nótt myrkdi, ok dag tók at skémma, ein vedr at kólna, þá byrjadi Astrídr ferd sína, ok Þórólfr med henni, ok fátt manna, fóro þat eina med bygdom, er þau leyndoz of nætor, ok funno enga menn. Þau komo fram einn dag at qveldi, til Eiriks á Oprostødom, fødor Astrídar; þau fóro leyniliga. Sendi Astrídr menn til bæarins, at segia Eiríki, en hann lét fylgja þeim í eina skémmo, ok setja þeim bord vid enom bestom faungom. En er þau Astrídr høfdo þar dvaliz litla hríd, þá fór brott føroneyti hennar, en hún vard eptir, ok tvær þjónustu-konor hennar, ok sonr hennar Olafr, Þórólfr Lúsarskégg ok Þórgils son hans 6 vetra gamall; vóro þau þar um vetrinn.

## Kap. II.

### Frá Gunnhildar sonom.

Haraldr Gráfeldr ok Gudrødr bródir hans fóro eptir dráp Tryggva Olafssonar, til búa þeirra, er hann hafdi átt; en þá var Astrídr í brott, ok spurdo þeir ecki til hennar. Sá pati kom fyrir þá, at hún mundi vera med barni Tryggva Konúngs; fóro þeir of haustit nordr í land, sva sem fyrr er ritit. En er þeir funno Gunnhildi módor sína, segdo þeir alla atburdi um þessi tídindi, er þá høfdo gerz

í fer

í fer þeirra. Hún spurdi at vendiliga, þar sem var Astridr; þeir segja slíkann qvitt þar af, sem þeir høfdo heyrt; en fyrir þá søk, at þat haust et sama átto Gunnhildar synir deild vid Hákon Jarl, ok sva um vetrinn eptir, sem fyrr er ritit; vard þá engi eptirleitan hefd um Astrídi ok son hennar, á þeim vetri.

## Kap. III.
## Ferd Astrídar.

Eptir um varit sendi Gunnhildr njósnarmenn til Upplanda, ok allt í Víkina, at njósna um þat, hvat um hag Astrídar mundi vera. En er sendimenn koma aptr, þá kunnu þeir þat hellz ad segja Gunnhildi, at Astrídr mundi vera vid fedor sínom Eiríki, segja ok þess meiri van, at hún man þar uppfæda son þeirra Tryggva Konúngs. Þá gérir Gunnhildr þegar sendimenn, ok býr þá vel at vapnom ok hestom, ok hafa þeir 30 manna, ok var þar til forráda ríkr madr, vin Gunnhildar, er Hákon er nefndr. Hún bad þá fara á Oprostadi til Eiríks, ok hafa þadan son Tryggva Konúngs, ok færa henni Þá fara sendimenn alla leid sína. En er þeir átto skamma leid til Oprostada, verda varir vid ferd þeirra vinir Eiríks, ok báro hanom þegar njósn um ferd sendimanna, at qveldi dags. En þegar um nóttina bjó Eiríkr brottferd Astrídar; fékk henni góda leidtoga, ok sendi hana

austr til Svíþjódar, á fund Hákonar ens Gamla vinar síns, ríks manns. Fóro þau í brot, er mikit lifdi nætor; þau komo at qveldi dags í hérad. þát er Skøn heitir, ok sá þar bæ mikinn, ok fóro þannog til, ok bádo sér nætorvistar; þau duldoz, ok høfdo vaund klædi. Sá bóndi er nefndr Bjørn Eitrqveisa, audigr madr ok illr þegn; hann rak þau brott; fóro þau of qveldit í annat þorp skamt þadan, er hét í Vizkom: Þorsteinn hét þar bóndi, sá er þau herbergdi, ok veitti þeim gódann forbeina um nóttina, ok sváfo þau í gódom umbúnadi. Hákon ok þeir menn Gunnhildar komo á Oprostadi snemma um morgin, ok spyrja at Astrídi ok syni hennar. Eirikr segir at hún er ecki þar. Þeir Hákon rannsokodo bæinn allann, ok dvøldoz þar lengi um daginn, ok fá nockora njósn um ferd Astrídar. Rida þá sømo leid, ok koma sídla um qveldit til Bjarnar Eitrqveiso í Skøn, taka þar gisting. Þá spyr Hákon Bjørn ef hann kynni hanom nockot segja til Astridar; hann segir: at þar komo menn um daginn, ok bádu gistingar; en ek rak þau brott, ok mano þau vera herbergd hér nockorstadar í þórpino. Verkmadr Þorsteins fór um qveldit or skógi, ok kom til Bjarnar; þvíat þat var á leid hans; vard hann var vid at gestir vóro þar, edr hvert erindi þeirra var; hann segir Þorsteini bónda. En er lifdi þridjúngr nætor, vakti Þorsteinn upp gesti sína, ok bad þau brottfara; mælti styggliga.

figa. En er þau vóro komin á veg út úr gardinom, þá segir Þorsteinn þeim, at sendimenn Gunnhildar vóro at Bjarnar, ok fóro at leita þeirra. Þau bádo hann hiálpar nockorar; hann fèck þeim leidtoga, ok vísi nockura, ok fylgdi sá þeim fram á skóginn, þar sem var vatn nockot, ok hólmi í reyri vaxinn. Þau mátto vada í hólmann út; þar fálo þau sik í reyrnom. Snimma dags reid Hákon frá Bjarnar í bygdina, en hvar sem hann kom, spurdi hann eptir Astrídi; en er hann kom til Þorsteins, þá spyr hann ef þau sén þar komin; hann segir at þar væri menn nockorir, ok fóro þegar á móti degi austr á skóginn. Hákon bad Þorstein fara med þeim, er hánom var leid kunnig edr leyni. Þorsteinn fór med þeim; en er hann kom í skóginn, vísadi hann þeim þvert frá því sem Astrídr var. Fóro þeir þann dag allann ad leita, ok funno þau hvergi. Fara aptr sídan, ok segja Gunnhildi sitt erindi. Astrídr ok hennar føruneyti fóro leid sína; komo fram í Svíþjód til Hákonar Gamla; dvaldiz Astrídr þar ok sonr hennar Olafr lánga hríd, í gódom fagnadi.

## Kap. IV.

### Sendiferd Hákonar til Svíaríkis.

Gunnhildr Konúnga-módir spyr, at Astrídr ok Olafr sonr hennar ero í Svíaveldi, sendi hon enn Hákon, ok gott føruneyti

 med

med hanom austr til Eiríks Svía-konúngs, med gódar gjafir ok vináttu mál. Var þar vid sendimønnom vel tekit, vóro þeir þar í gódo yfirlæti. Sídan ber Hákon upp fyrir Konúngi erindi sín, segir at Gunnhildr hafdi til þess ord send, at Konúngr skyldi styrkt sá hanom, sva at hann hafi vid sér Olaf Tryggvason til Noregs; vill Gunnhildr fóstra hann. Konúngr fær hanom menn, ok rída þeir á fund Hákonar Gamla; býdr Hákon Olafi at fara vid sér, med vinsamligom ordom mørgom. Hákon Gamli svarar vel, ok segir at módir hans skal ráda ferd hans; en Ástrídr vill fyrir engann mun at sveininn fari. Fara sendimenn í brott, ok segja sva búit Eiríki Konúngi. Sídan búaz sendimenn til heimferdar, bidja enn Konúng at fá sér styrk nockorn, at hafa sveininn brott, hvart sem Hákon Gamli vill, edr ecki: fær Konúngr þeim enn sveit manna, koma sendimenn til Hákonar Gamla, ok krefja þá at sveinninn fari vid þeim; en er því var seint tekit; þá hafa þeir frammi mikilmæli, ok heita afarkostom, ok láta reidu-liga. Þá leypr frammi þræll einn, er Bursti er nefndr, ok vill ljósta Hákon, ok koma þeir nauduliga í brott óbardir af þrælinom; fara sídan heim til Noregs, ok segja sína ferd Gunnhildi, ok sva at þeir hafa síed Olaf Tryggvason.

Kap-

## Kap. V.

### Frá Sigurdi Eiríkssyni.

Sigurdr hét bródir Astrídar, son Eiríks Bjódaskalia; hann hafdi þá lengi verit af landi á brott austr í Gardarîki, med Valdimar Konúngi; hafdi Sigurdr þar metnat mikinn: fýstiz Astrídr nú at fara þanňog til Sigurdar bródor síns: fèck Hákon Gamli henni gott føruneyti, ok øll faung góð: fór hún med Kaupmønnom nockorom. Þá hafdi hún verit 2 vetr med Hákoni Gamla; Olafr var þá þrevetr. En er þau hèldo austr í haf, þá komo at þeim víkingar; þat vóro Eistir, hertóko þeir bædi menn ok fé, en drápo suma; en sumum skiptu þeir med sèr til ánaudar. Þar skildiz Olafr vid módor sína, ok tók vid hánom Klerkon eistneskr madr, ok þeim Þórólsi og Þorgilsi. Klerkon þótti Þórólfr ofgamall til þræls, þótti ok ecki forverk í hánom, ok drap hann, en hafdi sveinana med sèr, ok seldi þeim manni er Klerkr hét, ok tók fyrir hafr einn vel gódann. Hinn þridji madr keypti Olaf, ok gaf fyrir vesl gott edr slagníng; sá hét Reas, kona hans hét Rekon, en sonr þeirra Rekoni. Þar var Olafr lengi, ok vel haldinn, ok unni bóandi hánom mikit. Olafr var 6 vetor á Eistlandi í þessari útlegd.

## Kap. VI.

### Frelstr Olafr af Eistlandi.

Sigurdr Eiriksson kom til Eistlands í sendiferd Valdimars Konúngs af Hólmgardi, ok skyldi hann heimta þar í landi skatta Konúngs. Fór Sigurdr ríkuliga med marga menn ok fé mikit. Hann sá á torgi svein fridann mjøk, ok skildi hann, at sá mundi þar útlendr, ok spyrr hann at nafni ok ætt sinni; hann nefndi sig Olaf en Tryggva Olafsson fødor sinn, en módor sína Astrídi, dóttor Eiríks Bjódaskalla: þá kannadiz Sigurdr vid, at sveininn var systorson hans. Þá spurdi Sigurdr sveininn, hvi hann væri þar kominn? Olafr sagdi hánom alla atburdi um sitt mál. Sigurdr bad hann fylgja sér til Reas bóanda. En er hann kom þar, þá keypti hann sveinana báda Olaf ok Þorgils, ok hafdi med sér til Hólmgards, ok lét ecki upp víst fyrzt um ætt Olafs, en hèllt hann vel.

## Kap. VII.

### Dráp Klerkons.

Olafr Tryggvason var staddr einn dag á torgi; var þar fjølmenni mikit; þar kèndi hann Klerkon, er drepit hafdi fóstra hans Þórólf Lúsarskègg. Olafr hafdi litla øx í hendi, ok setti í høfot Klerkon, sva at stód í heila nidri; tók þegar á hlaup heim til herberg-

bergis, ok segir Sigurdi frænda sínom, en Sigurdr kom Olafi þegar í herbergi drottningar, ok segir henni tídindin. Hon hét Allogía; bad Sigurdr hana hjálpa sveininom; hon svarar, ok leit á sveininn, segir at ecki má drepa sva frídann sveinn, ok bad kalla menn til sín med alvæpni. J Hólmgardi var sva mikil fridhelgi, at þat vóroløg, at drepa skyldi hvern, er mann drap ódæmdann. Þeystiz allr lýdr eptir sid þeirra ok løgom, ok leitadi eptir sveininom, hvar hann væri kominn. Þá var sagt, at hann var í gardi drottningar, ok þar her manns alvapnadr: var þá sagt Konúngi, géck hann þá til med síno lidi, ok vildi ecki at þeir berdiz, kom þá gridom á, ok því nærst sættom; dæmdi Konúngr bætor, en drottning héllt gjøldom upp; sídan var Olafr med drottníngo, ok var hon allkær til hans. Þat vóro løg í Gardaríki, at þar skyldo ecki vera konúngbornir menn, nema at Konúngs rádi; þá segir Sigurdr drottníngo, hverrar ættar Olafr var, edr fyrir hvørja søk hann var þar kominn, at hann mátti ecki vera í síno landi fyrir úfridi; bad hana þetta ræda vid Konúng; hon gérdi sva, bad Konúng hjálpa vid Konúngs syni þessom, svo hardliga sem hann var leikinn, ok komo sva færtølor hennar, at Konúngr játti henni þesso; tók þá Olaf í sitt vald, ok hellt hann vegliga, sva sem Konúngs syni byrjadi at vera haldinn. Olafr var 9 vetra, er hann kom í Gardaríki, en dvaldiz þar med

Valdimar Konúngi adra 9 vetor. Olafr var allra manna fridaſtr ok meſtr ok ſterkaſtr, ok umfram alla menn at íþrottom, þá er frá er ſagt af Nordmønnom.

## Kap. VIII.

### Frá Hákoni Hlada-Jarli.

Hákon Jarl Sigurdarſon var med Haraldi Gormsſyni Dana-konúngi, um vetrinn eptir, er hann hafdi ſtockit or Noregi fyrir Gunnhildar ſonom. Hákon Jarl hafdi ſva ſterkar áhyggjor um vetrinn, at hann lagdiz í reckjo, ok hafdi andvøkor miklar, át ok drack þat eino er hann mátti halda vid ſtyrk ſínom. Þá ſendi hann menn ſína leyniliga nordr í Þrándheim til vina ſinna, ok lagdi þat rád fyrir þá, at þeir ſkyldo drepa Erlíng Konúng, ef þeir mætti vidkomaz, ok ſagdi, at hann mundi aptrhverfa til ríkis ſíns, þá er ſumradi. Þann vetor drápo Þrændir Erlíng, ſem fyrr er ritat. Med Hákoni ok Gull-Haraldi var kær vinátta, bar Haraldr fyrir Hákon rádagérdir ſínar; ſegir Haraldr, at hann vill þá ſetjaz at landi, ok vera ecki lengr á herſkipom; ſpurdi hann Hákon, hvat hann hygdi, hvert Haraldr Konúngr mundi vilja ſkipta ríki vid hann, ef hann krefdi. Þat hygg ek, ſegir Hákon, at Dana-konúngr mun engra varna þér réttinda; en þó veizto þá gørr þetta mál, ef þú rædir fyrir Konúngi; vetti ek, at þú fáir ecki ríkit, ef þú krefr ecki. Brátt eptir þeſſa rædo taladi Gull-

Gull-Haraldr vid Harald Konúng, sva at nær vóru margir ríkismenn beggja vinir, ok krafdi þá Gull-Haraldr Harald Konúng, at hann skipti ríkino vid hann í helminga, sva sem burdir hans vóro til ok ætt, þar í Dana-veldi. Vid þetta ákall vard Haraldr Konúngr reidr mjøk, segir at engi madr krefdi þess Gorm Konúng fødor hans, at hann skyldi géraz Hálf-konúngr yfir Dana-veldi; ecki heldr hans fødor Hørda-knút, edr Sigurd Orm í Auga, edr Ragnar Lodbrók: gérdi sik þá sva reidann ok ódann, at ecki mátti vid hann mæla.

## Kap. IX.
### Frá Gull-Haraldi.

Gull-Haraldr undi þá miklo verr enn ádr, at hann hafdi þá ecki ríki heldr enn fyrr, en reidi Konúngs; kom hann þá til Hákonar vinar síns, ok kærdi sín vandrædi fyrir hanom, ok bad hann heilla ráda, ef til væri, þau er hann mætti ríki ná; sagdi, at hann hafdi þat hellz hugsat, at sækja ríkit med styrk ok vapnom. Hákon bad hann þat fyrir engom manni mæla, sva at spurdiz; liggr þar líf ydart vid, hugsa þá med sjálfom þér, til hvers þú mant færr verda, þarf til slíkra stórræda, at madr sé djarfr ok uruggr, spara hvarki til góda luti né illa, at þá megi framgánga þat er upp er tekid: en hitt er úfært, at hefja upp stór-rád, ok leggja nidr sídan med úsæmd. Gull-Haraldr svarar: sva skal ek þetta upp-

uppkaka tilkallit, at ecki skal ek mínar hendor til svara, at drepa Konúng sjálfann, ef ek kém í færi, med því er hann vill synja mér þess ríkis, er ek á at hafa at rétto: skilja þeir þá rædo sína. Haraldr Konúngr géck þá tilsundar vid Hákon Jarl, ok taka þeir tal med sér; segir Konúngr Jarli, hvat ákall Gull-Haraldr hefir haft vid hann til ríkis, ok svor þau er hann veitti; segir sva, at hann vill fyrir engann mun minka ríki sitt. En ef Gull Haraldr vill nockot halda á þesso tilkalli, þá er mér lítit fyrir, at láta drepa hann; þvíat ek trúi hanom illa, ef hann vill ecki af þesso láta. Jarl svarar: þat hygg ek, at Haraldr hafi sva fremi þetta uppqvedit, at hann mun ecki þetta láta nidrfalla; er mér þess van, ef hann reisir úfrid hér í landi, at hanom verdi gott til lids, ok mest fyrir sakir vinsælda fødor hans; en þat er ydr hin mesta úhæfa, at drepa frænda ydarn; þvíat allir menn munu kalla hann saklausann at sva búno. Ecki vil ek ok þat mitt ráð kalla, at þú gérir þik minna Konúng, enn fadir þinn var Gormr; jók hann ok mjøk sitt ríki, en minkadi í engann stad. Þá segir Konúngr: hvert er þá ráð þitt, Hákon! ef ek skal ecki midla ríki, ok ráda ecki af hendi mér ugg þenna? Vid skulom finnaz nockorom døgom sídar, segir Hákon Jarl; vil ek hugsa ádr þetta vandamál, ok veita þá nockorn orskurd. Géck þá Konúngr í brott, ok allir hans menn.

Kap.

## Kap. X.

### Rádagérd Haralds Konúngs ok Hákonar Jarls.

Hákon Jarl hafdi nú af nýo enar mesto áhyggjor ok rádagérdir, ok lét fá mean vera í húsino hjá sér. Kam døgom sídar kom Haraldr til Jarls, ok taka þeir þá tal; spyr þá Konúngr, ef Jarl hafi hugsat þa rædo, er þeir komo á fyrra dags. Þar hefi ek, segir Jarl, vakat um nótt ok dag sídan, ok sinz mér þat helltz rád, at þú hafir ok stýrir ríki þvi ollo, er þú tókt eptir fødor þinn, en fáir Haraldi frænda þinom í hendor annat Konúngs ríki, þat er hann megi sæmdr madr af verda. Hvert er þat ríki, segir Konúngr, er ek má heimiliga fá Haraldi, ef ek hefi úskért Dana-veldi? Jarl segir: þat er Noregr; Konúngar þeir er þar ero, ero illir ollo landsfólki; vill hverr madr þeim íllt, sem verdt er. Konúngr segir: Noregr er land mikit, ok hardt fólk, ok er íllt at sækja vid utlendann her: gafz oss svo, þá er Hákon vardi landit; léto vér lid mikit, en vard engi sigr unninn; er Haraldr Eiríksson fóstorson minn ok knésetníngr. Þá segir Jarl: laungo visso ek þat, at þér hofdot opt veittann styrk Gunnhildar sonom, en þeir hafa ydr þó engo launat nema íllo. Vér skulom komaz miklo léttligar at Noregi, enn berjaz til med allann Dana-her. Sento bod Haraldi fóstorsyni þínom, ok bjód hanom at taka af þér land ok lén, þat sem þeir hafdo fyrr hér í Danmørk:

stefn-

stefn honom á þinn fund. Nú má Gull-Haraldr þá litla stund afla rikis í Noregi af Haraldi Konúngi Gráfeld: Konúngr segir, at þetta munn kallat íllt verk, at svíkja fóstorson sinn. Þat máno Danir kalla, segir Jarl, at betra er þat skipti, at drepa víking norrœnann, heldr enn bródorson danskann. Tala þeir nú hér um lánga hríd, þar til er þetta semz med þeim.

## Kap. XI.

## Sendibod Haralds Gormssonar til Noregs.

Gull-Haraldr kom enn til tals vid Hákon Jarl, ok segir Jarl honom, at hann hefir nú fylgt hans málom, sva at meiri van er, at nú muni Konúngs ríki liggja laust fyrir honom í Noregi; skulo vid þá, segir hann, halda félagskap ockrom, mun ek þá mega veita þér mikit traust í Noregi. Hafdo fyrst þat riki; Haraldr Konúngr er nú gamall mjøk, en hann á þann einn son, er hann ann litit, ok frillo-son er. Talar Jarl þetta fyrir Gull-Haraldi, þar til er hann lætr sér þetta vel lika. Sídan tala þeir allir optliga, Konúngr ok Jarl, ok Gull-Haraldr. Sídan sendi Dana-konúngr menn sína nordr í Noreg á fund Haralds Gráfelds, var sú ferd búin allvegliga; fengo þeir gódar vidtøkor er þeir finna Harald Konúng, segja hanom þau tídindi, at Hákon Jarl er í Danmørk, ok liggr banvænn, ok nær ørviti, ok þau

ønnor tídindi, at Haraldr Dana-konúngr baud til sín Haraldi Gráfeld, fóstorsyni sínom, at taka þar af sèr veizlor, sva sem þeir brædor hæfdo fyrr haft þar í Danmørk, ok bad Harald koma til sín, ok finna sik á Jótlandi. Haraldr Gráfeldr bar þetta mál fyrir Gunnhildi módor sína, ok adra vini sína: lø̨gdo menn þar allmisjafnt til; sumum þótti þessi fø̨r ecki trúlig, sva sem þar var mønnom fyrirskipat; hinir vóro fleiri, er fýsto at fara skyldi, þvíat þá var sva mikill sulltr í Noregi, at Konúngar fengo varlega fœdt lid sitt; þá fèck fjørdrinn þat nafn, er Konúngar sáto optaz, at hann hèt Hardángr. Arferd var í Danmørk at nockori hlýto; hugdoz menn þá þar mundo faung fá, ef Haraldr Konúngr fengi þar lèn ok yfirsókn. Vard þat rádid ádr sendimenn fóro í brott, at Haraldr Konúngr mundi koma til Danmerkr um sumarit, á fund Dana-konúngs, ok taka af hanom þenna kost, er Haraldr Konúngr baud hanom.

## Kap. XII.

### Svikrædi Haralds Konúngs ok Hákonar Jarls vid Gull-Harald.

Haraldr Gráfeldr fór um sumarit í Danmørk, ok hafdi 3 lángskip; þar stýrdo eino Arnbjørn Hersir or Fjørdum. Haraldr Konúngr sigldi út or Vikinni ok til Limafjardar, ok lagdiz þar at Hálsi: var hanom sagt, at Dana-

Dana-konúngr mundi þar koma brátt. En er þetta frá Gull-Haraldr, þá heldr hann þann-og með 9 skipom; hann hafdi ádr búit lid þat at fara í víkíng. Hákon Jarl hafdi þá ok búit sitt lid, ok ætladi ok í hernad; hafdi hann 12 skip, ok öll stór. En er Gull-Haraldr var brott farinn, þá mælti Hákon Jarl vid Konúng: nú veit ek ecki nema vér róim leidáugrinn, ok gjaldim leidvítit; nú mun Gull-Haraldr drepa Harald Gráfeld; sídan mun hann taka konúngdóm í Noregi; ætlar þú hann þér þá tryggvaun, ef þú fær hanom svo mikinn styrk, en hann mælti þat í vetr fyrir mér, at hann mundi drepa þik, ef hann qvæmiz í færi um. Nú mun ek vinna Noreg undir þik, ok drepa Gull Harald, ef þú vilt því heita mér, at ek skyla audvelliga sættaz vid ydr fyrir þat; vil ek þá géraz Jarl ydar, ok binda þat svardegom, ok vinna Noreg undir ydr med ydrom styrk, halda þá sídan landino undir ydar ríki, ok gjalda ydr skatta; ok erto þá meiri Konúngr enn fadir þinn, ef þú rædr 2ur þjódlöndom. Þetta semz med þeim Konúngi ok Jarli; fer þá Hákon med lidi síno at leita Gull-Haralds.

## Kap. XIII.

### Fall Haralds Konúngs Gráfelds.

Gull-Haraldr kom til Háls í Limafjörd; baud hann þegar Haraldi Gráfeld til orrosto. En þótt Haraldr hefdi lid minna, þá

géck

gêck haun þegar á land, ok bjóz til orrosto, ok fylkdi lidi sino; en ádr fylkíngar gengi saman, þá eggjar Haraldr Gráfeldr hardt lid sitt, ok bad þá bregda sverdom, hljóp þegar fram í øndverda fylkíng, ok hjó til beggja handa. Sva segir Glúmr Geirason í Gráfeldar-drápo:

Mælti mætra hjalta
Málm ódin sá blódi
Þróttar ord, er þordi
Þjódom vøll at rjóda.
Vídlendr of bad vinda
Verdúng Haraldr sverdom,
(Frægt þótti þat flotnom
Fylkis ord) at mordi.

Þar féll Haraldr Konúngr Gráfeldr: sva segir Glúmr Geirason:

Vard á vído bordi
Viggjom hollr at liggja
Sætir glamma sóta
Gards Eylimafjardar.
Sendir fell á sandi
Sævar báls at Hálsi;
Olli jøfra spjalli
Ordheppinn því mordi.

Þar féll flest lid Haralds Konúngs med hanom; þar féll Arinbjørn Hersir. Þá var lidit frá falli Hákonar Konúngs Adalsteinsfóstra 15 vetor; en frá falli Sigurdar Hlada-Jarls 13 vetor. Sva segir Ari prestr hinn Fródi, at Hákon Jarl væri 13 vetor Jarl yfir fødorleifd sinni í Þrándheimi, ádr Haraldr Gráfeldr féll; en 6 vetor ena sídorsto, er Haraldr Gráfeldr lifdi, segir Ari, at Gunnhildar synir ok Hákon børdoz, ok stucko hvorir or landi.

## Kap. XIV.

### Daudi Gull-Haralds.

Hákon Jarl ok Gull-Haraldr fundoz litlo sídar enn Haraldr Gráfeldr féll: leggr þá Hákon Jarl til orrosto vid Gull-Harald. Fær Hákon þar sigr, en Haraldr var haudtekinn, ok lét Hákon hann festa á gálga. Sídan fór Hákon á fund Dana-konúngs, ok sættiz vid hann audvelliga, um dráp Gull-Haralds frænda hans.

## Kap. XV.

### Landa-skipti í Noregi.

Sídan býdr Haraldr Konúngr her út um allt sitt ríki, ok fór med 600 skipa; þar var þá med hanom Hákon Jarl Sigurdarson ok Haraldr Grænski, son Gudrødar Konúngs, ok margt annara ríkismanna, þeirra er flýit høfdo ódøl sín fyrir Gunnhildar sonom af Noregi. Høllt Dana-konúngr her sínom sunnan í Víkina, ok géck landsfólk allt undir hann. En er hann kom til Túnsbergs, þá dreif til hans mikit fiølmenni, ok féck Haraldr Konúngr lid þat allt í hendor Hákoni Jarli, er til hans hafdi komit í Noregi, ok gaf hanom til forráda Rogaland ok Hørdaland, Sogn, Firdafylki, Sunnmæri ok Raumsdal ok Nordmæri. Þessi 7 fylki gaf Haraldr Konúngr Hákoni Jarli til forráda, med því-

þvílíkom formála, sem Haraldr hinn Hárfagri gaf sonom sínom. Nema þat skildi, at Hákon skyldi eignaz þar ok sva í Þrándheimi, oll Konúngs-bú ok landskyldir, ok hafa Konúngs fé sem hann þyrfti, ef her væri í landi. Haraldr Konúngr gaf Haraldi Grænska Vingulmørk, Vestfold ok Agdir til Lidandisness, ok Konúngs-nafn, ok lét hann þar hafa ríki med ollo slíko, sem at forno hefdo haft frændor hans, ok Haraldr hinn Hárfagri gaf sonom sínom. Haraldr Grænski vaar þá 18 vetra, ok vard sídan frægr madr. Ferr þá Haraldr Konúngr heim med allann Dana her.

## Kap. XVI.

### Ferd Gunnhildar sona or landi.

Hákon Jarl fór med lidi síno nordr med landi: en er Gunnhildr ok synir hennar spurdo þessi tídindi, þá samna þau her, ok vard þeim íllt til lids. Tóko þau enn et sama rád sem fyrr, sigla vestr um haf, med þat lid er þeim vill fylgja, fara fyrst til Orkneya, ok dvoldoz þar um hríd; þar vóro ádr Jarlar, synir Þorfinns Hausakljúfs, Lødver ok Arnvidr, Ljótr ok Skúli. Hákon Jarl lagdi þá land allt undir sik, ok sat þann vetr í Þrándheimi. Þess gétr Einar Skálaglam í Vellekło:

Sjø fylkjom kom silkis | Geymir grundar síma
Snúnadr var þar brúna | Grandvarr und sik landi.

Hákon Jarl, er hann fór sunnan med landi um sumarit, ok landsfólk géck undir hann, þá baud hann þat um ríki sitt allt, at menn skyldo halda upp hofom ok blótom, ok var sva gért. Sva segir í Vellekló:

Øll let senn hinn svinni
Sønn Eindrida mønnom
Herjom kunnr of herjot
Hofs lønd ok ve banda.
At veg jótna vitui
Valfalls of siá allan
Þeim stýra god geira
Gards hlóridi fardi.
Ok herþarfir hverfa
Hlackar mótz til blóta,
Rand bríkar fremst rækir
Ríkr ásmegi slíko.
Nú grær jørd sem ádan
Aptr geirbrúar hapta
Audrýrir lætr áro
Ohryggia ve byggia.
Nú liggr allt und Jarli
Imon bordz fyrir nordan
Vedr grædis stendr vída
Vík Hákonar ríki.

Hinn fyrsta vetr er Hákon réd fyrir landi, þá géck síld upp um allt land, ok ádr um haustit hafdi korn varit, hvar sem sáit hafdi verit; en um varit øflodo menn sér fræ-korna, sva at flestir bændor sero jardir sínar, ok vard þat brátt árvænt.

## Kap. XVII.

### Orrosta Hákonar Jarls ok Ragnfredar Konúngs Gunnhildar sonar.

Ragnfrødr Konúngr sonr Gunnhildar, ok Gudrødr annar sonr Gunnhildar, þeir 2 vóro þá á lífi synir Eiríks ok Gunnhildar. Sva segir Glumr Geirason í Gráfeldar-drápo:

Fell-

Fellunnz hálf þá er hilmis
Hiørdrifa brá líſi.
Redat oſs til andar
Audvan Haraldz dandi.

En veit ek at hefir heitit
Hans bródir mer gódo
Sjá getr þar til ſælo
Seggfiold hvadartveggi.

Ragnfrødr byrjadi ferd ſína þegar um varit, þá er hann hafdi einn vetr verit í Orkneyom: héllt hann þá veſtan til Noregs, ok hafdi fridt lid ok ſkip ſtór. En er hann kom í Noreg, þá ſpurdi hann at Hákon Jarl var í Þrándheimi. Héllt Ragnfrødr þá nordr um Stad, ok herjadi um Sunnmæri. En er ſumt fólk geck undir hann, ſem opt verdr, þá er herflockar gánga yfir land, at þeir er fyrir ero, leita ſér hjálpar, hverr þannog ſem vænſt þykir. Hákon Jarl ſpurdi þeſsi tídindi at úfridr var ſudr um Mæri; réd Jarl þá til ſkipa, ok lét ſkéra upp herør, býzk ſem hvatligaz, ok héllt út eptir firdi, vard honom gott til lids; vard fundr þeirra Ragnfredar ok Hákonar Jarls á Sunnmæri nordarliga; héllt Hákon þegar til orroſto: hann hafdi lid meira ok ſkip ſmærri. Orroſta vard hørd, ok veitti Hákoni þyngra; þeir børdoz um ſtafna, ſem þar var ſidr til: ſtraumr var í ſundino, ok hóf øll ſkipin ſaman inn at landino: Jarl lét ok hamla at landino, þar er hanom þótti beſt til uppgaungo. En er ſkipin kéndo nidr, þá geck Jarl, ok allt lid hans af ſkipom, ok drógo upp, ſva at úvinir þeirra ſkyldo ecki mega útdraga. Sídan fylkti Jarl á vellinom ok eggjadi Ragnfred til uppgaungo; þeir Ragnfredr

løgdo at utan, ok skutoz á lánga hríd; vildi Ragnfredr ecki á land gánga, ok skildoz at svá búno: héllt Ragnfredr lidi síno sudr um Stad, þvíat hann óttadiz landsher, ef drifi til Hákonar Jarls. En Jarl lagdi fyrir því ecki optar til orrosto, at hanom þótti bordamunr ofmikill; fór hann þá um haustit nordr til Þrándheims, ok var þar um vetrinn. En Ragnfredr Konúngr hafdi þá allt fyrir sunnan Stad, Firdafylki, Sogn, Hørdaland, Rogaland; hafdi hann fjølmenni mikit um vetrinn, ok er varadi, baud hann leidángri út, ok fécк lid mikit; fór hann þá um øll þau fylki, at afla sér lids ok skipa, ok annarra fánga, þeirra er hann þurfti at hafa.

## Kap. XVIII.

### Onnor orrosta Hákonar Jarls ok Ragnfredar Konúngs í Sogni.

Hákon Jarl baud lidi út, þá er varadi, allt nordr or landi; hann hafdi mikit lid af Hálogalandi ok Naumodali, svá at allt frá Byrdo til Stads hafdi hann lid af øllom sjáløudom. Hanom drózk ok her um øll Þrændaløg, svá ok um Raumsdal. Sva er atqvedit, at hann hefdi her af 4um fólkløndom; hanom fylgdo 7 Jarlar, ok høfdo þeir allir saman ógrynni lids. Sva segir í Vellekło:

Hitt var meirr at mæra | Fólkverjandi fyrva
Mordfikinn lét nordan | Fór til Sogns ofgjørva.

Ytti

Otti freyr af fjórom
Fólklandom sá branda
Ullr stód af því allri
Yrþjód hedins byrjar.
Ok til mótz á meita
Mjúk hyrdom fram
þurdo

Med svor gæli svarfa
Sjø landrekar randa.
Glumdi allr þá er ullar
Egg-þings hedins veggjar
(Gnótt flaut nás fyri nes-
jom)
Noregr saman fóro.

Hákon Jarl hèllt lidi þessó ollo sudr um Stad, þá spurdi hann at Ragnfredr Konúngr med her sinn væri farinn inn í Sogn; snèri Jarl þá þannog síno lidi, ok vard þar fundr þeirra Ragnfredar; lagdi Jarl skipom sínom at landi, ok hasladi voll Ragnfredi Konúngi, ok tók orrosto stad. Sva segir í Vellekló:

Vard fyrir Vinda myrdi
Vídfrægt en gramr sídan
Gerdiz mest at mordi
Mannfall vid styr annan.

Hlym Rarsi bad hversa
Hlífar flagds ok lagdi
Jálks vid ondort fylki
Ondor sorf at landi.

Þar vard allmikil orrosta; hafdi Hákon Jarl lid miklo meira, ok fèck sigr. Þetta var á Þinganesi, þar er mætiz Sogn ok Hørdaland. Ragnfredr Konúngr flýdi til skipa sinna, en þar fèll af lidi hans þrjú hundrud manna. Sva segir í Vellekló.

Straung vard gndr ádr gunnar
Gammi nás und hramma
Þreyngvi meidr of þróng-
vi

Þrimr hundrodom lunda.
Knátti hafs at hofdom
Hagnadr var þat bragna
Fólk eflandi fylkir
Fángsæll þadan gánga.

Eptir orrosto þessa flýdi Ragnfredr Konúngr or Noregi, en Hákon Jarl fridadi land, ok

 lèt

lét fara aptr nordr her þann hinn mikla, er hanom fylgt hafdi um sumarit; en hann dvaldiz þar um haustit, ok sva um vetrinn.

## Kap. XIX.

### Qvanfáng Hákonar Jarls.

Hákon Jarl gêck at ega kono þá er Þóra hêt, dóttor Skaga Skoptasonar ríkmanns. Þóra var allra qvenna fridoz; þeirra synir vóro Sveinn ok Hemíngr; Bergljót hêt dóttir þeirra, er sídan átti Einar Þambarskélfir. Hákon Jarl var qvenna-madr mikill, ok átti mørg børn; Ragnhildr hêt dóttir hans; hana gipti hann Skopta Skagasyni, bródor Þóro. Jarl unni Þóro sva mikit, at hann gêrdi sér miklo kæri, enn adra menn, frændor Þóro; ok var þó Skopti mágr hans mest metinn af øllom þeim. Jarl veitti hanom stórar veizlor á Mæri. En hvert sinn er þeir vóro í leidángri, þá skyldi Skopti leggja skip sitt nærst skipi Jarls, en engom ødrom skyldi þat hlýda, at leggja nockot skip milli skipa þeirra.

## Kap. XX.

### Fall Tidinda-Skopta.

Þat var á eino sumri, er Hákon Jarl hafdi leidángr úti, þá stýrdi þar skipi med hanom Þorleifr Spaki. Eiríkr sonr Hákonar Jarls, var ok þar í før, var hann þá 10 vetra

edr

edr 11. En er þeir lęgdo til hafnar á qvelds om, þá lét Eiríkr sér ecki líka annat, enn þeir lęgdi til lægis nærst skipi Jarls. En er þeir komo sudr á Mæri, þá kom þar Skopti mágr Jarls med lángskip vel skipat. En er þeir róa at flotanom, þá kallar Skopti, at Þorleifr skuli rýma høfnina fyrir hanom, ok leggja or lægino. Eiríkr svarar skjótt, bad Skopta leggja í annat lægi. Þetta heyrdi Hákon Jarl, at Eiríkr son hans þóttiz nú sva ríkr, at hann vill ecki vegja fyrir Skopta; kalladi Jarl þegar, bad þá leggja or lægino, segir at þeim mundi annar kostr vera verri, ok þeir mundo vera bardir brátt. En er Þorleifr heyrdi þetta, hét hann á menn sína, ok bad leggja skipit or tengslom, ok sva var gert. Lagdi þá Skopti í lægit, þat sem hann var vanr at hafa, nærst skipi Jarls. Skopti skyldi segja tídindi øll Jarli, þá er þeir vóro bádir samt; en Jarl sagdi Skopta tídindi, ef hann spurdi fyrr; hann var því kalladr Tídinda-Skopti. Um vetrinn eptir var Eiríkr med Þorleifi fóstra sínom; en um varit snimma fęck Eiríkr sér sveit manna; Þorleifr gaf hanom skútu simtán-sesso, med øllom reida, tjøldom ok vistom; hellt Eiríkr þá út eptir firdi, ok sídan sudr á Mæri. Tídinda-Skopti fór med simtán-sesso alskipada millom búa sinna, en Eiríkr leggr til móts vid hann, ok til bardaga; þar fell Skopti; en Eiríkr gaf grid þeim mønnom er þá stódo uppi. Sva segir Eyólfr Dáda-skáld í Banda-Drápo:

 Meita

Meita fór at móti
Miok síd um dag skidi
Ungr med jofno gengi
Ut vers fromom Hersi-
Þá er ridloga reidir
Randvallar let falla
Ulfsteitir gaf áto
Opt blódvolom Skopta.

Hoddsveigir letz hníga
Harda ríkr þá er bardiz
Logreifiss brátto lisi
Landmann kiars handa.
Stálægir nam síga
Stafns flet hlackar hrafna
Af dynbeidi daudom
Oregr land at mun banda.

Sídan sigldi Eiríkr sudr med landi, ok kom fram í Danmörk, fór þá á fund Haralds Konúngs Gormssonar, ok var þar med hanom um vetrinn. En eptir um varit sendi Danakonúngr Eirík nordr í Noreg, ok gaf hanom Jarldóm, ok þar med Víngulmörk ok Raumariki til yfirsóknar, med þeim hætti, sem fyrr hefdo þar haft skatt-konúngar. Sva segir Eyólfr Dada-skáld:

Fólkstórir var fárra
Finnz olknarrar linna
Sudr at sjávar nadri
Setbergs gamall vetra

Adr at yggjar brúdi
Elhvetjandi setja
Hildar hjálmi faldinn
Hodd-mildíngar vildo.

Eiríkr Jarl vard sídan höfdíngi mikill.

## Kap. XXI.

### Ferd Olafs Tryggvasonar or Gørdom.

Olafr Tryggvason var þessar hrídir allar í Gardariki, ok hafdi þar et mesta yfirlát af Valdimar Konúngi, ok kærleika af drottníngo. Valdimar Konúngr setti hann höfdíngia yfir

yfir herlid þat, er hann sendi til at verja landit. Sva segir Hallar-Steinn:

Tólf var eldz at aldri  Hlódo hamdis klædom
Yfetrs hati vetra  Hiorva gnýs ok skióm
Hraustr þá er herskip glæsti  Hilmis mũ sem hjálmom
Hørda vinr or Gørdom.  Hlýr vigg en mól stýri.

Atti Olafr þar nockorar orrostor, ok vard hanom herstjórnin vel í hendi. Hélt hann þá sjálfr sveit mikla hermanna af sínom kostnadi, þeim er Konúngr veitti hanom. Olafr var ørr madr vid sina menn, vard hann af því vinsæll. En þá vard þat, sem optliga kann verda, þar er útlendir menn hefjaz til ríkis, eda til sva mikillar frægdar, at þeir verdi umfram innlendska menn, at margir øfundudo þat, hverso kærr hann var Konúngi, ok ecki sídr drottníngo; mælto menn þat fyrir Konúngi, at hann skyldi varaz at géra Olaf ecki ofstóranu, fyrir því at slíkr madr er þér hættastr, ef hann vill sik til þess ljá, at géra ydr mein, edr ydro ríki; er hann sva búinn at íþróttom ok atgérvi ok vinsæld: vitom vér ok ecki hvat er þau drottníng tala jafnan. Þat var sídr mikill hinna ríko Konúnga, í þann tíma, at drottníng skyldi eiga hálfa hirdina, ok halda med sínom kostnadi, ok hafa þar til skatta ok skyldir, sva sem þyrsti; var þar ok sva med Valdimar Konúngi, at drottníng hafdi ecki minni hird enn Konúngr, ok képptoz þau mjøk um ágætis menn, vildi hvarttveggja til sín hafa. Nú gérdiz sva, at Konúngr festi trúnad á slík-

ar rædor, sem mælt var fyrir hanom, ok gërdiz hann nockot fár ok styggr vid Olaf. En er Olafr fann þat, þá segir hann drottníngo, ok þat med, at hann fýstiz at fara í Nordrlend, ok segir, at frændor hans hafa þar fyrr ríki haft, ok hanom þyckir líkaz at þar mani þrosski hans mestr verda. Drottníng bidr hann vel fara, segir at hann mun þar gøfigr þyckja sem hann væri. Sídan býr Olafr ferd sína, ok gëck á skip, ok hëllt sva út í hafit í Eystra-Sallt. Sva segir Markús Skëggjason í Rekstefjo:

Senn øll sídan runno Vestrlond virda kindar
Sneckjo bord or Gørdom Verfákom let herjat
Her-mørg hala urgur Aldyggr arfi Tryggva
Hildíngs und gram mildom. Olafr, ok klauf stáli.

En er hann sigldi austan, þá kom hann vid Borgundarhólm, ok veitti þar upprás, ok herjadi, en landsmenn sótto ofan, ok hëldo orrosto vid hann, ok fëck Olafr sigr ok herfáng mikit.

## Kap. XXII.

### Qvanfáng Olafs Konúngs Tryggvasonar.

Olafr lá vid Borgundarhólm, ok fengo þeir vedor hvæss, ok storm sjávar, ok mego þeir þar ecki vidfestaz, ok sigla þadan sudr undir Vindland, ok fá þar høfn góda, fara þar allt med fridi, ok dvøldoz þar um hríd. Burislafr hét Konúngr í Vindlandi; hans dætor

vóro

vóro þær Geira, Gunnhildr ok Astridr. Geira Konúngs dóttir hafdi þar vald ok ríki, sem þeir Olafr komo at landi; Dixin er sá madr nefndr, er mest forrád hafdi med Geiro drottníngo. En er þau høfdo spurt, at þar vóro vid land komnir úkunnir menn, þeir er tíguglega léto yfir sér, ok þeir fóro þar med fridi, þá fór Dixin á fund þeirra med ordsendíng Geiro drottníngar, þá, at hún vill bjóda þeim mønnom til vetrvistar, er þar vóro komnir, þvíat þá var mjøk lidit á sumarit, en vedrátta hørd, ok stormar miklir. En er Dixin kom þar, þá vard hann brátt þess varr, at þar réd fyrir ágætr madr, bædi at ætt ok ásýnom. Dixin segir þeim, at drottníng baud þeim til sín med vinátto bodi; Olafr þeckiz bod þetta, ok fór um haustit til Geiro drottníngar, ok sýndiz hvart þeirra ødro afar vel, sva at Olafr hefir uppi ord sín, ok bidr Geiro drottníngar, ok verdr þat at rádi gert, at Olafr fær Geiro drottníngar þann vetr; gérdiz hann þar þá forráda-madr þess ríkis med henni. Hallfredr Vandrædaskáld gétr þess í drápo þeirri er hann orti um Olaf Konúng:

Hilmir let at Hólmi (Hvatt of dyldi þess hØldar)
Hræskód rodin blódi Hørd, ok austr í Gørdom.

## Kap. XXIII.

### Hákon Jarl géldr ecki skatta.

Hákon Jarl réd fyrir Noregi, ok galdt engann skatt, fyrir þá søk, at Dana-konúngr

veitti honom skatta alla, þá er Konúngr átti í Noregi, til starfs ok kostnadar, er Jarl hafdi til at verja landit fyrir Gunnhildar sonom.

## Kap. XXIV.

### Utbod Haralds Konúngs móti kristni-bodi Ottó Keisara.

Otta Keisari var þá í Saxlandi: hann sendi bod Haraldi Dana-konúngi, at hann skyldi taka skírn ok trú rétta, ok þat landsfólk allt, er hann styrdi; en at ødrom kosti, segir Keisari, at hann mundi fara med her á hendor hanom. Þá lét Dana-konúngr búa landsvarnir sínar, lét þá vel upphalda virki ok búa herskip sín. Þá sendi hann bod í Noreg Hákoni Jarli, at hann skyldi koma til hans snimma um varit, med allann her þann, sem hann fengi. Baud Hákon Jarl her út um varit af øllu ríki síno, ok vard hann allfiølmennr, ok hélt hann lidi því til móts vid Dana-konúng; tók Kónúngr allsæmiliga vid hanom. Margir adrir høfdingjar vóro þá med Dana-konúngi, þeir er hanom veitto lid; hafdi hann þá allmikinn her.

## Kap. XXV.

### Hernadr Olafs Konúngs Tryggvasonar.

Olafr Tryggvason hafdi verit um vetrinn í Vindlandi, sem fyrr er ritat: hann fór

um

um vetrinn til þeirra hêraða þar á Vindlandi, er legit hæfdo undir Geiro drottníngo, ok hæfdo þá undan horfit allri hlýdni ok skattgjøfom þanng. Þar herjar Olafr, ok drap marga menn, en brendi fyrir sumom, tók fê mikit, ok lagði undir sik þau ríki; fór síðan aptr til borgar sinnar. Snemma um varit bjó Olafr skip sín, ok sigldi síðan í haf; hann sigldi undir Skáni, veitti þar uppgaungo, en landsmenn sømnudoz saman, ok héldo orrosto, ok hafdi Olafr sigr, ok féck herfáng mikit. Síðan sigldi hann austr til Gotlands; þar tók hann kaupskip er Jamtar átto; þeir veitto vørn mikla, ok lauk sva, at Olafr raud skipit, ok drap margt manna, ok tók fê allt. Þridjo orrosto átti hann á Gotlandi; hafdi Olafr þar sigr, ok féck mikit herfáng. Sva segir Hallfredr Vandræða-skáld:

Endr let Jamta kindir
Allvaldr í styr falla,
Vandiz hann ok Vinda
Veggrimmr á þat snima.

Hættr var hersa drottinn
Hjør djarfr Gota fjørvi
Gullskerdi frá ek gerdo
Geir-þey á Skáneyo.

## Kap. XXVI.

### Orrosta vid Dana-virki.

Otta Keisari dró saman her mikinn; hann hafdi lid af Saxlandi ok Fracklandi ok Frislandi ok Vindlandi. Fylgdi hanom Burisleifr Konúngr med mikinn her, ok í lidi var med hanom Olafr Tryggvason, mágr hans. Keisarinn hafdi riddara her mikinn, en miklo

fleiri

fleiri fótgaungo her; hann hafdi ok af Holsetalandi mikinn her. Haraldr Dana-koúngr sendi Hákon Jarl med Nordmanna her þann sem hanom fylgdi, sudr til Dana-virkis, at verja þar landit. Sva segir í Velleklo:

Hitt var auk at eykir
Aurbords á vit nordan
Und sigr runni svinnyrt
Sunnr Danmarkar runno.
Ok hólmfjotrs hjálmi
Hørda valdr of faldinn
Dofra daustra jøfra
Dróttinn fund of jótti.

Ok vid fyrst at freista
Femildr Koningr vildi
Myrk foldynjar markar
Mord álfs þess er kom nordan
Þá er valserkjar virki
Vedr hirdir bad stirdan
Fyri hlymnjørdom Hørda
Hagbarda gramr varda.

Otta Keisari kom med her sinn sunnan til Danavirkis, en Hákon Jarl vardi med síno lidi borgar veggina. Dana-virki var sva háttat, at firdir tveir gánga í landit, sínom megin lands hvarr, en milli fjardarbotna høfdo Danir gért borgar-vegg mikinn af grjóti ok torfi ok vidom, ok grafit díki breidt ok djúpt fyrir utan, en kastalar fyrir borgar-hlidom. Þá vard orrosta mikil, þess gétr í Velleklo:

Vara í gøgu þótt gerdi
Gard røgnir styr hardan
Gengilikt at gánga
Geir rásar herr þeirra.

Þá er med Frísa fylki
Fór gunnvidor sunnan
Qvaddi vígs ok Vinda
Vags blackridi Fracka.

Hákon Jarl setti fylkingar yfir øll borgar-hlidin, en hitt var þó meiri lutr lids, er hann lét fara allt med borgar-veggjonom, ok verja þar

sem

sem hellz var at sótt: féll þar margt manna af Keisarans lidi; en þeir fengo ecki unnit at borg-inni. Snýr þá Keisari í brott, ok leitadi þar ecki lengr til. Sva segir í Vellekló:

Prym vid logs þar er Sund fara kom Sorom
logdo - Sœki þróttr á flótta
Leik midjúngar þridja Þar er sva gramr med
Arngreddir vard odda gunnom
Andvígr, saman randir: Gard ýr þjódom vardi.

Eptir þessa orrosto fór Hákon Jarl aptr til skipa sinna, ok ætladi þá at sigla nordr aptr í Noreg, en hanom gaf ecki byr, ok lá hann þá úti í Limafirdi.

## Kap. XXVII.

### Skírdr Haraldr Konúngr Gormsson ok Hákon Jarl.

Otta Keisari snýr þá þegar her sínom til Sles, dregr hann þar at sér skipa her-inn, flytr þar lidit yfir fjordinn á Jótland. En er þat spyrr Haraldr Dana-konúngr, þá ferr hann í móti med herr sinn, ok verdr þar orrosta mikil, ok at lyktom fær Keisarinn sigr, en Dana-konúngr flýdi undan til Limafjardar, ok fór út í Mársey. Fóro þá menn milli þeirra Konúngs ok Keisara, ok var kom-it gridom á ok stefnolagi, fundoz þeir Otta Keisari ok Dana-konúngr í Mársey. En þá bodadi Poppó Biskop heilaga trú fyrir Har-

aldi Konúngi, ok hann bar járn glóanda í hendi sér, ok sýndi Haraldi Konúngi hend sína óbrunna. Sídan lét Haraldr Konúngr skíraz med allann Dana her. Haraldr Konúngr hafdi ord send Hákoni þá er hann sat í Márs-ey, at Jarl skyldi koma til lidveizlo vid hann; var Jarl þá kominn til eyarinnar, er Konúngr hafdi skíraz látit; sendir þá Konúngr ord, at Jarl skyldi koma til fundar vid hann; en er þeir hittaz, þá naudgar Konúngr Jarli til at láta skíraz, var þá Hákon Jarl skírdr, ok þeir menn allir, er þar fylgdo hanom, feck þá Konúngr í hendor honom Presta ok adra lærda menn, ok segir at Jarl skal láta skíra allann lýd í Noregi. Skildoz þeir þá, fer Hákon Jarl út til hafs, ok bídr þar byrjar.

## Kap. XXVIII.

### Hákon Jarl kastar trú sinni, blótar ok herjar á Gautland.

En er vedr þat kémr, er hanom þótti, sem hann mundi í haf bera, þá skaut hann á land upp øllom lærdom mønnom, en hann sigldi þá út á haf, en vedr géck til útsudrs ok vestrs, siglir Jarl þá austr í gégnom Eyrarsund, herjar hann þá á hvarttveggja land. Sídan siglir hann austr fyrir Skáneyar sído ok herjadi þar, hvar sem hann kom vid land. En er hann kom austr fyrir Gauta-skér, þá lagdi hann at landi: gérdi hann þar blót mikit. Þá komo

komo þar flýgandi hrafnar tveir ok gullo hátt, þá þyckiz Jarl vita, at Odinn hefir þegit blótit, ok þá mun Jarl hafa dagrád til at berjaz. Þá brennir Jarl skip sín øll, ok gengr á land upp med lidi síno øllo, ok fór allt herskildi. Þá kom á móti hanom Ottarr Jarl, hann rédi fyrir Gautlandi, átto þeir saman orrosto mikla, fær þá Hákon Jarl sigr, en Ottarr Jarl féll, ok mikill luti lids med honom. Hákon Jarl fær um Gautland hvarttveggja, ok allt med herskildi, til þess er hann kémr í Noreg, fer sídan landveg allt nordr í Þrándheim. Frá þesso segir í Vellcklo:

Flótta geck til frettar
Felli njordr á velli
Draugr gat dolga sogo
Dagrád Hedins váda
Ok hald bodi hildar
Hræ gamma sá ramma
Týr vildi þá týna
Tein hlautar fjor Gauta.
Hádi Jarl þar er ádan
Engi manur und ranni
Hyrjar þing at herja
Hjør lautar kom Sørla.

Vara madr língs eñ lengra
Lopt vardadar barda
Allt vaun gramr of gengit
Gautland, frá siá randir.
Valføllom hlód vøllo.
Vard røgna kour gagni
Hrídar áss at hrósa
(Hlaut Odiñ val) Fróda.
Hver se if nema jøfra
Ætt rýri god stýra
Ramm aukinn qved ek ríki
Røgn Hákonar magna.

## Kap. XXIX.

### Heimferd Ottó Keisara.

Otta Keisari fór aptr í Saxland í ríki sitt. Skildoz þeir Dana-konúngr med

vinátto. Sva segja menn, at Otta Keisari gërdi gudsifjar vid Svein, son Haralds Konúngs, ok gaf honom nafn sitt, ok var hann sva skírdr, at hann hét Otta-Sveinn. Haraldr Konúngr héllt vel kristni allt til daudadags. Burislafr Konúngr fór þá til Vindlands, ok med hanom Olafr mágr hans. Þessarar orrosto gëtr Hallfredr Vandræda-skáld í Olafs-drápo:

Bød serkjar hjó birki
Barklaust í Danmørko
Hleypi meidr fyrir Heida-
Hlunn viggja-bæ sunnan.

## Kap. XXX.

### Ferd Olafs Konúngs af Vindlandi.

Olafr Tryggvason var 3 vetor á Vindlandi, ádr Geira drottníng tók sótt, þá er hana leiddi til bana. Olafi þótti þat sva mikill skadi, at hann festi ecki yndi á Vindlandi sídan: rëd hann sër þá til herskipa, ok fór þá enn í hernad: herjadi fyrst um Frísland, þar nærst um Saxland, ok allt í Flæmingjaland. Sva segir Hallfredr Vandrædaskáld:

Tíd høggvit let tiggi
Tryggvasonr fyri styggvan
Leiknar hest á-lesti
Ljótvaxin hræ Saxa
Vin hródigr gaf vída
Vísi margra Frísa
Blecko brúnt at drecka
Blód qveldrido stódi.
Rógs bar recka lægir
Ríkr valkæra líki,
Hersiefnir let hrafnom
Hold Flæmingja goldit.

Kap.

## Kap. XXXI.

### Hernadr Olafs Konúngs Tryggvasonar.

Sidan hêllt Olafr Tryggvason til Englands, ok herjadi vída um landit; hann sigldi allt nordr til Nordimbralands, ok herjadi þar; þadan hêllt hann nordr til Skotlands, ok herjadi þar vída: þadan sigldi hann til Sudreya, ok átti þar nockorar orrostor; sídan hêllt hann sudr til Manar, ok bardiz þar; hann herjadi ok vída um Irland; þá hêllt hann til Bretlands, ok herjadi vída þat land, ok sva þar er kallat er Kumraland: þadan sigldi hann vestr til Vallands, ok herjadi þar; þá sigldi hann vestan ok ætladi til Englands; þá kom hann í eyar þær er Syllingar heita, vestr í haf frá Englandi. Sva segir Hallfredr Vandrædaskáld:

Gørdiz úngr vid Engla
Ofvægr Konúngr bægja
Naddskúrar red nærir
Nordimbra sá mordi.
Eyddi úlfa greddir
Ogn blídr Skótom vída
Gerdi seims med sverdi
Sverdleik í Møn ferdir.

Ydrógar let ægir
Eyverskann her deya
Tyrr var tjørva dýrra
Týrargjarn ok Ira.
Bardi brezkrar jardar
Byggvendr ok hjó tiggi,
Grádr þvarr geira hrídar
Gjódi kunskar þjódir.

Olafr Tryggvason var 4 vetor í þessom hernadi sídan er hann fór af Vindlandi, til þess er hann kom í Syllingar.

## Kap. XXXII.

### Skírdiz Olafr Konúngr Tryggvason í Syllingom.

Olafr Tryggvason, þá er hann lá í Syllingom, spurdi hann at þar í eyonni var spámadr nockorr, sá er sagdi fyrir úordna luti, ok þótti mørgom mønnom þat mjøk eptir gánga. Gérdiz Olafi forvitnì á at reyna spádóm manns þessa. Hann sendi þann af mannom sínom, er frídaztr var ok mestr, ok bjó hann sem vegligaz, ok bad hann segja at hann væri Konúngr. Þvíat Olafr var þá frægr ordinn af því um øll lønd, at hann var fridari ok gøfugligri ok meiri enn allir menn adrir. En sídan er hann fór or Gardaríki, hafdi hann ecki meira af nafni síno, enn kalladi sik Ola, ak qvadst vera gerzkr. En er sendimadr kom til spámannsins, ok sagdiz vera Konúngr, þá feck hann þessi andsvør: ecki ertú Konúngr, en þat er ráð mitt, at þú sér trúr Konúngi þinom; ecki segir hann fleira þessom manni: fór sendimadr aptr, ok segir Olafi, ok fýsti hann þess at meirr at finna þenna mann, er hann heyrdi slík andsvør hans, ok tók nú ifa af hanom, at hann væri ecki spámadr. Fór þá Olafr á hans fund, ok átti tal vid hann, ok spurdi eptir hvat spámadr segdi Olafi fyrir, hvertnog hanom mundi veita at gánga til ríkis, edr annarar hamíngjo? Einsetomadrinn svarar med helgom spádómi: þú mant verda ágætr Konúngr, ok ágæt verk

verk vinna, þú mant mørgom mønnom til trú-ar koma ok skírnar, manto bædi þér hjálpa í því ok mørgom ødrom; ok til þess, at þú ifir ecki um þessi mín andsvør, þá mátto þat til marks hafa, þú mant vid skip þín svikom mæta ok flockom, ok mun á bardaga rætaz, ok manto týna nockoro lidi, ok sjálfr sár fá, ok manto af því sári banvænn verda, ok á skildi til skips borinn; en af þesso sári manto þó heill verda innan 7 nátta, ok brátt vid skírn taka. Síd-an fór Olafr ofan til skipa sinna, ok þar mætti hann úfridar-mannom þeim er hann vildo drepa ok lid hans, ok vard þar bardagi, ok fóro þeirra vidskipti sva sem einsetomadr hafdi sagt hon-om, at Olafr var sárr borinn á skildi á skip út, ok sva, at hann vard heill á 7 nóttom. Þóttiz þá Olafr vita, at þessi madr mundi hanom sanna luti sagt hafa, ok þat at hann var sannr spámadr, hvadan af sem hann hefdi þann spádóm. Fór þá Olafr annat sinn at finna þenna spámann, taladi þá margt vid hann, spurdi vendiliga hvadan honom kom sú speki, er hann sagdi fyrir úordna luti? Einsetomadr sagdi, at sjálfr Gud kristinna manna lét hann vita allt þat er hann forvitnadiz, ok sagdi hann þá Olafi mørg stórmerki almáttugs Guds, ok af þeim fortølom játti Olafr at taka skírn, ok sva var, at Olafr var skírdr þar, ok allt føro-neyti hans. Dvaldiz hann þar mjøk lengi, ok nam rétta trú, ok hafdi med sér Presta, ok adra lærda menn.

## Kap. XXXIII.

### Olafr fêck Gydo.

Olafr sigldi or Syllingom um haustit til Englands, lá þar í høfn einni, ok fór þar med fridi, þviat England var kristit, ok hann var ok kristinn ordinn. En þar fór um landit þíngbod nockot, ok allir menn skyldo til þings koma. En er þíng var sett, þá kom þar drottníng ein er Gyda er nefnd, systir Olafs Kvarans er Konúngr var á Irlandi í Diflinni; hon hafdi gipt verit á Englandi Jarli einom rikom, var sá þá andadr, en hon hêllt eptir rikino. En sá madr var í ríki hennar, er nefndr var Alfvini, kappi mikill, ok hólmgaungo madr; hann hafdi bedit hennar, en hon svarar svá, at hún vildi kjør af hafa, hvern hon vildi ega, af þeim mønnom er í hennar ríki vóro, ok var fyrir þá sêk þíngs qvadt, at Gyda skyldi sêr mann kjósá; var þar kominn Alfvini, ok búinn med hinom besto klædom, ok margir adrir vóro þar vel búnir. Olafr var þar kominn, ok hafdi vasklædi sín, ok lodkápo ytzta, stód hann med sína sveit út í frá ødrom mønnom. Gyda gêck ok leit á sêrhvern mann, þann er henni þótti nockot manns mót at vera. En er hon kom þar sem Olafr stód, ok sá upp í andlit hansom, spurdi hon, hver madr hann er? hann nefndi sik Ola; em ek útlendr madr hêr, segir hann. Gyda mælti: vilto ega mik, þá vil ek kjósa þik. Ecki vil ek neita því, segir hann.

Hann spurdi hvert nafn þeirrar kono var, ætt edr ødli. Gyda heiti ek, segir hon, dóttir Konúngs af Irlandi; var ek gipt hingat til lands Jarli þeim, er hér réd ríki. Nú sídan er hann andadiz, þá hefi ek stýrt ríkino, menn hafa bedit mín, ok engi sá er eg vilda giptaz. Hún var úng kona ok allfríd. Tala þau sídan þetta mál, ok semja þat sín á milli; festir Olafr sér Gydo.

## Kap. XXXIV.
### Hólmgánga Alfvina ok Olafs Konúngs.

Alfvina líkar nú afar illa. En þat var sidr á Englandi, ef tveir képtoz um einn lut, at þar skyldi koma til hólmgánga; býdr Alfvini Olafi Tryggvasyni til hólmgaungo um þetta mál. Þeir leggja med sér stefnolag til bardaga, ok skulo vera 12 hvarir. En er þeir finnaz, mælir Olafr sva vid sína menn, at þeir gëri sva sem hann gërir; hann hafdi øxi mikla: en er Alfvini vildi høggva sverdi til Konúngs, þá laust hann sverdit or høndom hanom, ok annat høgg sjálfann hann, sva at Alfvini fëll; sídan batt Olafr hann fast. Fóro sva allir menn Alfvina, at þeir vóro bardir ok bundnir, ok leiddir sva heim til herbergja Olafs. Sídan bad hann Alfvina fara or landi brott, ok koma ecki aptr; en Olafr tók allar eigor hans. Olafr fëck þá Gydo, ok dvaldiz á Englandi en stundom á Irlandi.

## Kap. XXXV.

### Olafr Konúngr Tryggvason fær hundinn Vígja.

Þá er Olafr var á Irlandi, var hann staddr í herferd nockorri, ok fóro þeir med skipom; ok þá er þeir þurfto strandhøggva, þá gánga menn á land upp, ok reka ofan fjølda búsmala: þá kémr þar eptir bóndi einn, ok bad Olaf géfa sér kýr þær, er hann átti. Olafr bad hann hafa kýr sínar, ef hann mætti kénna, ok dvel ecki ferd vora. Bóndi hafdi þar mikinn hjard-hund, hann vísadi hundinom í nautaflockana, ok varo þar rekin mørg hundrod nauta; hundrinn ljóp um alla nauta-flockana, ok rak í brott jam-mørg naut, sem bóndi qvadz von ega, ok vóro þau øll á einn veg mørkot; þóttoz þeir þá vita, at hundrinn mundi rétt kénnt hafa. Þeim þótti hundr sá furdo vitr. Þá spyr Olafr, ef bóndi vill selja hanom hundinn? at heldr, segir bóndi, at eg vil gjarna géfa þér. Olafr gaf hanom þegar í stad gullhring, ok hét hanom vináttu sinni. Sá hundr hét Vígi, ok var allra hunda beztr; átti Olafr hann lengi sídan.

## Kap. XXXVI.

### Frá Haraldi Konúngi Gormssyni ok hernadi hans til Islands.

Haraldr Gormsson Dana-konúngr spurdi at Hákon Jarl hafdi kastat kristni, en her-

jat land Dana-konúngs víða. Þá baud Haraldr Dana-konúngr her út, ok fór sídan í Noreg; ok er hann kom í þat ríki, er Hákon Jarl hafdi til forráda, þá herjar hann þar ok eyddi land allt, ok kom lidino í eyar þær er Sólundir heita. Fimm einir bæir stódo eptir í Lærádal, en fólk allt flýdi á fjøll ok markir, med lausafé þat allt er med mátti komaz. Þá ætladi Dana-konúngr at sigla lidi því mikla til Islands, ok hefna níds þess, er allir Islendíngar høfdo níddann hann. Þat var í løgom haft á Islandi, at yrkja skyldi um Dana-konúng nídvíso fyrir nef hvert, er á var landino. En sú var søk til, at skip þat er íslendzkir menn høfdo átt, braut í Danmørk; en Danir tóku upp fé allt, ok køllodo vagrek, ok réd fyrir því bryti Konúngs, er Birgir hét; var nídit ort um þá báda. Þetta er í nídino:

| | |
|---|---|
| Þá er sparn á mó morn-is | Vax eitt í ham' fara |
| Mordkunnr Haraldr sunnan, | En bergsalár Birgir |
| Vard þá Vinda myrdir | Bondom rækr í landi |
| | Þá sá øld í jøldo |
| | Urikr fyrir liki. |

## Kap. XXXVII.

### Haraldr Konúngr sendir kungan mann hamførom til Islands.

Haraldr Konúngr baud kungom manni at fara í hamførom til Islands, ok freista hvat

hvat hann kynni segja hanom: sá fór í hvalslíki. En er hann kom til landsins, þá fór hann vestr fyrir nordan landit; hann sá at fjöll öll ok hólar vóro fullir af landvættom, sumt stórt, en sumt smátt. En er hann kom fyrir Vapnafjørd, þá hélt hann inn á fjordian, ok ætladi á land at gánga; þá fór ofan or dalnom dreki mikill, ok fylgdo hanom margir ormar, poddor ok edlor, ok bléso eitri á hann; en hann lagdiz í brott, ok vestr fyrir land, allt fyrir Eyafjørd; fór hann inn eptir þeim firdi; þar fór moti hanom fugl sva mikill, at vængirnir tóko út í fjöllin tveggja vegna, ok fjøldi annara fugla, bædi störir ok smáir. Brant fór hann þadan, ok vestr um landit, ok sva sudr á Breidafjørd, ok stefndi þar inn á fjørd; þar kom móti hanom gridúngr mikill, ok ód á sæinn út, ok tók at gélla ógurliga; fjøldi landvætta fylgdi honom. Brott fór hann þadan, ok sudr um Reykjanes, ok vildi þar gánga upp á Vikar-skeidi. Þar kom í móti hanom bergrisi, ok hafdi járnstaf í hendi, ok bar høfudit hærra enn fjollin, ok margir adrir jøtnar med hanom. Þadan fór hann austr med endilaungo landi; var þá ecki, segir hann, nema sandar ok øræfi, ok brim mikit fyrir utan; en haf sva mikit millom landanna, segir hann, at ecki er þar fært lángskipom. Þá var Brodd-Helgi í Vapnafirdi; Eyólfr Valgérdarson í Eyafirdi; Þórdr Géllir í Breidafirdi; Þóroddr Godi í Ølfusi. Sídan snéri Dana-konúngr lidi sino sudr med landi, ok

ok fór sídan til Danmerkr; en Hákon Jarl lét byggja land allt, ok galdt enga skatta Danakonúngi, medan hann lifdi.

## Kap. XXXVIII.

### Fall Haralds Gormsonar.

Sveinn sonr Haralds Konúngs, sá er síkan var kalladr Tjúguskegg, beiddiz ríkis af Haraldi Konúngi fødor sínom; en þá var enn sem fyrr, at Haraldr Konúngr vildi ecki tvískipta Dana-veldi, ok vill ecki ríki fá honom. Þá aflar Sveinn sér herskipa, ok segir, at hann vill fara í víking; en er lid hans kom allt saman, ok þá var kominn til lids vid hann af Jómsvíkingom Pálnatóki, þá hélt Sveinn til Sjálands, ok inn í Ísafjørd; þá var þar fyrir med skipom sínom Haraldr Konúngr fadir hans, ok bjóz at fara í leidángr. Sveinn lagdi þegar til orrosto vid hann; vard þar bardagi mikill. Dreif þá lid sva mikit til Haralds Konúngs, sva at Sveinn vard ofrlidi borinn ok flýdi. Þar fékk Haraldr Konúngr sár þau, er hann leiddo til bana. Sídan var Sveinn til Konúngs tekinn í Danmørk. Þá var Sigvaldi Jarl yfir Jómsborg á Vindlandi: hann var son Strút-Haralds Konúngs, er rádit hafdi fyrir Skáni: brædor Sigvalda vóro þeir Hemíngr ok Þorkell enn Háfi. Þá var ok hefdíngi yfir Jómsvíkingom Búi Digri af Borgundarhólmi ok

Sigurdr brôdir hans. Þar var ok Vagn son þeirra Aka ok Þórgunno, systorson þeirra Búa. Sigvaldi Jarl hafdi høndom tekit Svein Konúng, ok flutt hann til Vindlands til Jómsborgar, ok naudgadi hanom til sætta vid Burislaf Vinda-konúng, ok til þess at Sigvaldi Jarl skyldi géra sætt milli þeirra. Sigvaldi Jarl átti þá Astrídi, dottor Burislafs Konúngs. En at ødrom kosti, segir Jarl, at hann mundi Svein Konúng fá í hendor Vindom. En Konúngr vissi þat, at þeir mundo qvelja hann til bana; játti hann fyrir því sættargérd Jarls. Sigvaldi Jarl dœmdi þat, at Sveinn Konúngr skyldi fá Gunnhildi dottor Burislafs Konúngs, en Burislafr skyldi fá Þyri Haraldsdóttur, systor Sveins Konúngs; en hvarttveggi þeirra skyldi halda ríki sino, ok skyldi vera fridr milli landa. Fór þó Sveinn Konúngr heim í Danmørk med Gunnhildi kono sina. Þeirra synir vóro þeir Haraldr ok Knútr hinn Riki. I þann tíma heitodoz Danir mjøk at fara med her í Noreg á hendor Hákoni Jarli.

## Kap. XXXIX.

### Heitstrenging Jómsvíkinga.

Sveinn Konúngr gérdi mannbod ríkt, ok stefndi til sín hefdíngjom øllom, þeim er í vóro ríkino. Hann skyldi erfa Harald fødor sinn. Þá hafdi ok andaz litlo ádr Strút-Haraldr

aldr á Skáni, ok Veseti í Borgundarhólmi, fadir þeirra Búa Digra. Sendi Sveinn Konúngr þá ord þeim Jómsvíkingom, at Sigvaldi Jarl ok Búi, ok brædor þeirra skyldo þer koma, ok erfa fedor sína, at þeirri veizlo, er Konúngr gërdi. Jómsvíkingar fóro til veizlonnar med ollo lidi síno, þvi er frækna; var. Þeir hofdo 11 skipa af Vindlandi, en 20 skip af Skáni. Þar kom saman allmikit fjolmenni. Fyrsta dag at veizlonni, ádr Sveinn Konúngr stígi í hásæti fodor síns, þá drack hann minni háns, ok strengdi heit, ádr 3 vetor væri lidnir, at hann skyldi kominn med her sinn til Englands, at drepa Adalrád Konúng, eda reka hann or landi. Þat minni skyldo allir drecka, þeir er at erfino vóro. Þvi næst var skeinkt fyrst hofdingjom Jómsvíkinga hin stærsto horn af enom sterkasta dryck, er þar var. En er þat minni var afdruckit, þá skyldi drecka Krists minni allir menn, ok var Jómsvíkingom borit æ fullaz ok sterkastr dryckrinn. Hit þridja var Michjals minni, ok drucko þat allir. En eptir þat drack Sigvaldi Jarl minni fodor síns, ok strengdi heit sídan, at ádr 3 vetor væri lidnir, skyldi hann vera kominn í Noreg, ok drepa Hákon Jarl, eda reka hann or landi. Sídan strengdi heit Þorkéll Hávi bródir hans, at hann skyldi fylgja Sigvalda bródor sínom til Noregs, ok flýja ecki or orrosto sva at Sigvaldi berdiz þá eptir. Þá strengdi heit Búi Digri, at hann mundi fara til Noregs med þeim, ok flýa

flÿa ecki or orrosto fyrir Hákoni Jarli. Þá strengdi heit Sigurdr bródir hans, at hann mundi fara til Noregs, ok flÿa ecki medan meiri lutr Jómsvíkinga berdiz. Þá strengdi heit Vagn Akason, at hann skyldi fara med þeim til Noregs, ok koma ecki aptr, fyrr enn hann hefdi drepit Þorkél Leiro, ok gengit í reckjo hjá Ingibjørgo dóttor hans utan frænda rád. Margir høfdingjar adrir strengdo heit ymissra luta. Drucko menn þann dag ersit. En eptir um morguninn, þá er Jómsvíkingar vóro údrucknir, þóttoz þeir hafa fullmælt, ok hafa málstefnor sínar, ok ráda rádom, hvernog þeir skulo tilstilla um ferdina; ráda þat af, at búaz þá sem skyndiligaz. Búa þá þegar skip sín ok herlid. Vard þat allfrægt vida um lend.

## Kap. XL.

### Herbod þeirra Eiriks ok Hákonar Jarla.

Eiríkr Jarl Hákonarson spyrr þessi tídindi, hann var þá á Raumaríki; dró hann þegar lid at sér, ok ferr til Upplanda, ok sva nordr um fjall til Þrándheims, á fund Hákonar Jarls fødor síns. Þess gétr Þórdr Kolbeinsson í Eiriks-drápo:

| | |
|---|---|
| Ok sannliga sunnan | Súdlaungom frá ek sveida |
| Sáſk vid bóendor hálka | Sunnor af dregnom hlunni |
| Strid of stála meida | Vangs á vatn of þrúngit |
| Stór hersøgor fóro | Viggoleid Dana skeidom. |

Hákon Jarl ok Eiríkr Jarl láta skéra upp herör um öll Prænda-lög; senda ok bod á Mæri hvaratveggjo, ok í Raumsdal, sva nordr í Naumodal, ok á Hálogaland. Stefna síðan út öllom almenning, bædi at lidi ok skipom. Sva segir í Eiríks-drápo:

Mjök let margar sneckjor
Mærdar örr sem knörro
(Odr ver skálds) ok skeidar
Skjald lynr á brim dynja.
Þá er ólítin utan
Elherdir fór gerda
(Mörg var lind fyrir landi)
Lönd síns födor rondo.

Hákon Jarl héllt þegar sudr á Mæri í njósn, ok lidsamnat; en Eiríkr Jarl dró saman herinn ok flutti nordan.

## Kap. XLI.

### Ferd Jómsvíkinga í Noreg.

Jómsvíkingar héldo lidi síno til Limafjardar, ok sigldo þadan út á hafit ok hesdo 60 skipa, ok komo utan at Ögdom; halda þegar lidino nordr á Rogaland, taka þá at herja, þegar er þeir koma í ríki Hákonar Jarls, ok fara sva nordr med landi, ok allt vid herskildi. Geirmundr er sá madr nefndr, er fór med hleypiskúto eina, ok nockorir menn med hánom; hann kom fram nordr á Mæri, ok fann þar Hákon Jarl, geck inn fyrir bordit, ok segir Jarli tídindi, at herr var sudr í landi, kominn af Danmörk. Jarl spurdi, ef hann vissi sannindi á því. Geirmundr brá upp hendi

Q anns

annari, ok var þar afhøggvinn hreifinn, segir at þar vóro jartegnir, at herr var í landino. Sídan spurdi Jarl inniliga um her þenna. Geirmundr segir at þar vóro Jómsvíkingar, ok høfdo drepit marga menn, ok vída rænt; fara þeir þó, segir hann, skjótt ok allákafliga; vætti ek, at ecki muni ádr lángt lída, enn þeir muni hér nidr koma. Sídan réri Jarl alla fjørdo inn med ødro landi, en út med ødro, ok féck sér lid, fór dag ok nótt. ok hafdi njósn et efra um Eid, sva sudr í Fjørdo; sva ok nordr, þar er Eiríkr fór med herinn. Þess gétr í Eiríks-drápo:

Setti Jarl sá er átti
Ognfródr á løg síódi
Hrefnis háfa siafna
Hót Sigvalda at móti.
Margr skalf hlumr enn hvergi
Huggendr bana ugdo
Þeir er gáto sjá slíta
Sárgammus blodom ára.

Ferr Eiríkr Jarl med herinn sudr sem snúdoligaz.

## Kap. XLII.

### Frá Jómsvíkingom ok þeirra hernadi.

Sigvaldi Jarl hellt lidi síno nordr um Stad, lagdi fyrst til Hereyja. Þótt Víkingar finni landsmenn, þá søgdo þeir aldri satt til hvat Jarlar høfdoz at. Jómsvíkingar herjado hvar sem þeir fóro; þeir løgdo utan at Höd, runno þar upp ok herjado, ráko til skipa bædi menn ok bú, en drápo karla þá er vígt var at. En er þeir fóro ofan til skipa,

þá

þá kom þar til þeirra gángandi bóndi einn: en þar fór nær sveit Búa. Bóndinn mælti: þér farit óhermannliga, rekit til strandar kýr ok kálfa, væri ydr meiri veidr at taka björninn, er nú er nær kominn á bjarnbásinn. Hvat segir karl, segja þeir, kanto nockot segja oss til Hákonar Jarls? bóndi sagdi: hann fór í gær inn í Hjörundarfjörd, hafdi Jarl eitt skip eda tvö, ecki vóro fleiri enn 3, ok hafdi ecki til ydar spurt. Þeir Búi taka þegar á hlaup til skipanna, ok láta laust allt herfáng. Búi mælti: njótom vér nú, er vér höfom fengit njósn af Jarli ok verom nærstir sigrinom. En er þeir koma á skipin, róa þeir þegar út. Sigvaldi Jarl kallar á þá, ok spurdi tídinda. Þeir segja at Hákon Jarl vár þar inn í fjördinn. Sidan leysir Jarl flotann ok róa fyrir nordan eyna Höd.

## Kap. XLIII.

### Upphaf Jómsvíkinga orrosto.

Hákon Jarl ok Eiríkr Jarl son hans lágo í Hallkélsvik, var þar samann kominn herr þeirra allr; höfdo þeir hálft annat hundrat skipa, ok höfdo þá spurt, at Jómsvíkingar höfdo lagt utan at Höd: réro þá Jarlarnir sunnan at leita þeirra. En er þeir koma þar sem heitir Hjörúnga-vagr, þá finnaz þeir: skipa þá hvarirtveggjo lidi síno til atlögo. Var í midjo lidi merki Sigvalda Jarls framborit: þar

 í mót

í mót skipadi Hákon Jarl til atløgo; hafdi Sigvaldi Jarl 20 skip en Hákon Jarl 60 skipa. Í lidi Hákonar Jarls vóro þessir hofdingjar: Þórir Hjørtr af Hálogalandi; annar Styrkár af Gimsom. Í annan fylkingar arm var Búi Digri ok Sigurdr bródir hans, med 20. skipom. Þar lagdi í mót Eiríkr Jarl Hákonarson med 60 skipa, ok med honom þessir hofdingjar: Gudbrandr Hvíti af Uppløndom, ok Þorkéll Leira, víkverskr madr. Í annan fylkingar arm lagdi fram Vagn Akason med 20 skipom; en þar í mót Sveinn Hákonarson, ok med hánom Skéggi af Yrjom af Upphaugi, ok Røgnvaldr or Ærvík af Stadi, med 60 skipa. Sva segir í Eiríks-drápo:

Enn í gegn at gunni
Glæheims skrido mœar
(Rendi lángt med landi
Leidángr) Dana skeidom.
Þær er Jarl und árom
Ærins gulls á mæri
Barms rak vigg und vørmom
Valkesti, raud flestar

Eyvindr Skáldaspillir segir ok sva í Hálеygja-tali:

Þar vard minztr
Mein vinnøndom
Yngvi Freys
Ondverdann dag
Fagna fundr
Er flota þeysto
Jardrádendr
At eydøndom
Þá er sverd álfr
Sunnan knýdi
Lagar stód
At lidi þeirra

Sid-

Sidan lagdo þeir saman flotann, ok tók; þar en grimmasta orrosta, ok féll margt af hvarsomtveggjom, ok miklo fleira af Hákonar lidi, þvíat Jómsvíkingar bordoz bædi hraustliga ok diarfliga ok snarpliga ok skuto allt í gégnom skjøldona. Ok sva mikill vapnaburdr var at Hákoni Jarli, at brynja hans var slitin til ónýts, sva at hann kastadi af sér. Þess gétr Finnr Hallkelsson:

Varda gims sem gerdi
Gerdr bjúglimom herda
Gnýr ór Fiølnis fura
Farlig sæing Jarli
Þá er hring fám hánga
Hrynserk vidor brynjo

Hrndoz ridmarar roda
Rastar vard at kasta.
Þars í sundr á sundi
Sorla hjós fyrir Jarli
Þess hefir seggja sessi
Serk hríngofin merki.

## Kap. XLIV.

### Flótti Sigvalda Jarls.

Jómsvíkingar høfdo skip stærri ok bordmeiri, en hvaritveggjo sótto et djarfasta. Vagn Akason lagdi sva hart fram at skipi Sveins Hákonarsonar, at Sveinn lét á hømlo síga undan, ok hélt vid flótta. Þá lagdi þannog til Eiríkr Jarl ok fram í fylking móti Vagni. Þá lét Vagn undan síga, ok lago skipin sem í fyrsto høfdo legit. Þá réd Eiríkr aptr til lids síns, ok høfdo þá hans menn undan hamlat: en Búi hafdi þá heggvit tengslin, ok ætladi at reka flóttann. Þá lagdi Eiríkr Jarl síbyrt vid skip Búa, ok vard þá heggorrosta

en snarpasta, ok lęgdo þá 2 eda 3 Eiríks skip at Búa skipi eino; þá gërdi illvidri ok el sva mikit, at haglkorn eitt va eyri. Þá hjó Sigvaldi tengslin, ok snêri undan skipi sino, ok vildi flýa. Vagn Akason kallar á hann, ok bad hann ecki flýa; Sigvaldi Jarl gaf engan gaum at, hvat hann sagdi; þá skaut Vagn spjóti at honom, ok laust þann er vid stýri sat. Sigvaldi Jarl rêri í brott med hálfan fjórda tug skipa, en eptir lá hálfr þridi tugr.

## Kap. XLV.

### Búi Digri steypiz fyrir bord.

Þá lagdi Hákon Jarl sitt skip á annat bord Búa; var þá Búa mönnom skamt hęggva í millom. Vigfús Víga-Glumsson tók upp nefstedja er lá á þiljonom, er madr hafdi ádr hnodit vid hugró á sverdi sino; Vigfús var allsterkr madr; hann kastadi stedjanom tveim höndom ok fœrdi í höfot Aslákı Hólmskalla, sva at geirinn stód í heila nidri. Aslák hęfdo ecki ádr vapn bitit, en hann hafdi hęggvit til beggja handa; hann var fóstri Búa, ok stafnbúi. En annarr var Hávardr Höggvandi: hann var enn sterkasti madr ok allfrœkn. I þessari atsókn gengo upp Eiríks menn á skip Búa, ok aptr at lyptingunni at Búa. Þá hjó Þorsteinn Midlángr til Búa um þvert nefit, í sundr nefbjörgina, ok vard þat allmikit sár; en Búi hjó til Þorsteins utan á sídona,

sva

sva at í sundr tók manninn í midjo. Þá tók Búi upp kistor tvær fullar gulls, ok kalladi hátt: fyrir bord allir Búa lidar! steyptiz Búi þá utan bords med kisturnar, ok margir hans menn hljópo þá fyrir bord, en sumir féllo á skipino, þvíat ecki var gott grida at bidja; var þá hrodit allt skip Búa med stefnom, en sídan hvert af ødro.

## Kap. XLVI.

### Bundnir Jómsvíkingar á streng.

Sídan lagdi Eiríkr Jarl at skipi Vagns, ok var þar allhørd vidrtaka. En at lyktom var hrodit skip þeirra, en Vagn handtekinn, ok 30 manna med honom, ok fluttir á land upp bundnir. Þá geck til Þorkéll Leira, ok mælti: þess streingdir þú heit Vagn, at drepa mik; en mér þikir hitt nú líkara, at ek drepa þik. Þeir Vagn sáto á einni lág allir saman: Þorkéll hafdi eina mikla øxi, hann hjó þann er yztr sat á láginni. Þeir Vagn vóro sva bundnir, at einn strengr var snúinn at fótom þeim øllom, en lausar vóro hendor þeirra. Þá mælti einn þeirra: dálk hefi eg í hendi, ok mun ek stínga í jørdina, ef ek veit nockot þá er høfot er af mér høggvit: høfot var af honom høggvit, ok féll nidr dálkrinn or hendi hánom. Þá sat madr allfrídr ok hærdr vel, hann sveipti hárino fram yfir høfot sér, ok rétti fram hálsin ok mælti: gérit ecki hárit í blódi. Einn

madr tók hárit í hönd sér ok héllt fast. Þor-kéll reiddi at öxina; víkingrinn kipti höfdino fast, laut sá eptir er hárino héllt, en öxin reid ofan á bádar hendor honom, ok tók af svo at öxin nam í jördo stad. Þá kom at Eiríkr Jarl ok spurdi: hverr er þessi madr hinn frídi? Sigurd kalla mik sveinar, segir hann, ok em ek kenningar-son Búa; ecki ero allir Jóms-víkingar daudir. Eiríkr segir: þú munt vera at víso sannr son Búa, villtu hafa grid, segir Jarl. Þat skiptir hverr býdr, sagdi Sigurdr. Sá býdr, segir Jarl, er vald hefir til, Eiríkr Jarl. Vil ek þá, segir hann: var hann þá tekinn or streinginom. Þá mælti Þorkéll Leira: vilto Jarl þessa menn alla láta grid hafa, þá skal aldrei med lífi fara Vagn Áka-son; hleypr þá fram med reidda öxina, en víkingr Skardi reiddi sik til falls í strenginom, ok féll fyrir fætor Þorkéli; Þorkéll féll flatr um hann. Þá greip Vagn öxina, ok hjó Þorkél med bana-högg. Þá mælti Jarl: Vagn, villtu hafa grid. Vil ek segir hann, ef ver höfom allir. Leysi þá or streinginom, segir Jarl, ok svo var gért. 18 vóro drepnir, en 12 þágo grid.

## Kap. XLVII.

### Dráp Gissurar af Valdresi.

Hákon Jarl ok margir menn med honom sáto á tré eino, þá brast strengr á skipi

Búa, en er sú kom á Gitzorr af Valdresi, lendan mann, hann sat næst Jarli, ok var búinn allvegliga. Sídan gengo menn á skipit út, ok fundo þar Hávard Hoggvanda, ok stód hann á knjám vid bordit út, þviat fætornir vóro af honom hoggnir; hann hafdi boga í hendi. En er þeir komo á skipit út, þá spurdi Hávardr: hverr fèll af láginni? þeir sogdo, at sá hèt Gitzorr. Þá vard minna happit enn ek vilda, segir hann.Ærit var óhappit, segja þeir, en ecki skallto vinna fleiri, ok drepa hann. Sídan var valrinn kannadr, ok borit fè til lutskiptis, hálfr þridi tugr skipa af þeim Jómsvíkingom. Sva segir Tindr Hallkélsson:

Vann á Vinda sinni | Ádr hior meidar hrjóda
Verd bjódr hugins ferdar | Hætting var þat mætti
Beit solgagar seilar | Lidar lángra skeida
Sverds eggja spor leggi. | Lids halfan tog þridja.

Sídan skilja þeir hèr þenna; fer Hákon Jarl til Prándheims, ok ilkadi stórilla, er Eirikr Jarl hafdi grid gèfit Vagni Akasyni. Þat er sogn manna, at Hákon Jarl hafi í þessari orrosto blótit til sigurs sèr Erlingi syni sínom, ok sídan gérdi el, ok þá snéri mannfallino á hendor Jómsvíkingom. Eirikr Jarl fór þá til Upplanda, ok sva austr í ríki sitt, ok fór Vagn Akason med hánom. Þá gipti Eirikr Jarl Vagni Ingibjorgo dóttor Þorkéls Leiro, ok fèck hánom lángskip gott med ollom reida, ok fèck hánom skipan til. Skildoz þeir inir kærsto vinir: fer þá Vagn heim

 sydr

sudr til Danmerkr, ok vard hann sídan ágætr madr, ok er margt stórmenni frá honom komit.

## Kap. XLVIII.

### Daudi Haralds Konúngs Grænska.

Haraldr Grænski var Konúngr á Vestfold, sem fyrr er ritit, hann fékk Asto dóttor Gudbrands Kúlo. Eitt sumar þá er Haraldr Grænski fór í Austrveg í hernat, at fá sér fjár, þá kom hann í Svíþjód. Þá var þar Konúngr Olafr Sænski; hann var son Eiriks Konúngs ens Sigursæla, ok Sigrídar dóttor Skøglar-Tosta; var Sigrídr þá eckja, ok átti mørg bú ok stór í Svíþjód. En er hon spurdi at þar var kominn vid land skamt í brott Haraldr Grænski fóstbródir hennar, þá sendi hon menn til hans, ok baud hánom til veizlo. Hann lagdiz þá ferd ecki undir høfot ok fór vid mikla sveit manna til Sigrídar. Þar var allgódr fagnadr; sat Konúngr ok drottníng í hásæti, ok drucko bædi samt um kveldit, ok var veitt allkappsamliga øllom mønnom hans. Um kveldit, er Konúngr fór til hvílo, þá var þar sæng tjøldot pellom, ok búin dýrligom klædom; í því herbergi var fátt manna: en er Konúngr var afklæddr ok kominn í hvílo, þá kom drottníng þar til hans, ok skeinkti hánom sjálf, ok lockadi hann mjøk til ad drecka, ok var hin blídasta: Konúngr var allmjøk druckinn ok bædi þau. Þvi nærst sofnadi

adi hann; en drottníng gêck þá ok til svefns. Sigridr var hin vitrasta kona, ok forspá um marga luti. Eptir um morguninn var veizla enn hin kappsamligsta. En þar vard sem jafnan verdr, þar er menn verda allmjök drucknir, at hinn næsta dag eptir varaz flestir menn vid dryckinn. En drottníng var kát, ok tölodo þau Konúngr sín á milli. Sagdi hon svá at hon virdi ecki minna eignir þær ok ríki, er hon átti í Svíþjód, enn Konúngdóm hans í Noregi ok eignir. Vid þessar rædr vard Konúngr ógladr, ok fannz fátt um allt, ok bióz í brott, ok var allhugsjúkr: en drottníng var hin kátasta, ok leiddi hann í brott med stór gjöfom. Fór þá Haraldr um haustit aptr til Noregs, var heima um vetrinn, ok allókatr. Eptir um sumarit fór hann í Austrveg med lidi síno, ok hêllt þá til Svíþjódar. Hann sendi ord Sigrídi drottníngo þau, at hann vill finna hana: hon reid ofan á fund hans, ok talaz þau vid; hann vekr brátt þat mál, ef Sigrídr vildi giptaz hánom. Hon segir, at þat var hánom hêgoma mál, ok hann er ádr svá vel kvangadr, at hánom er fullrædi í. Haraldr seigir, at Asta er góð kona ok göfog, en ecki er hon svá störborinn sem ek. Sigrídr svarar: vera kann þat, at þú sér ættstærri enn hon; hitt mundi ek ætla, at med henni mundi vera nú beggja yckar hamingja. Litlo skiptoz þau fleirom ordom vid ádr drottníng reid í brott. Haraldi Konúngi var þá heldr skapþúngt. Hann bióz

at

at ríða uppá land, ok fara enn á fund Sig-
ríðar drottníngar: margir hans menn letto hann
þess, en ecki at síðr fór hann með mikla sveit
manna, ok kom til þess bæar er drottníng réð
fyrir. Hit sama kveld kom þar annar Kon-
úngr, sá hét Vísavaldr, austan or Gardaríki;
sá fór at biðja Sigríðar drottníngar. Þeim
var skipat báðom Konúngunom í eina stofo
mikla, ok ollo liði þeirra; stofan var gømol, ok
eptir því var allr búnaðr stofunnar, en dryck
skorti þar ecki um kveldit, sva ásengann, at all-
ir vóro fulldrucknir, ok hofutverdir ok útverdir
sofnodo. Þá lèt Sigríðr drottning um nótt-
ina veita þeim atgaungo, bæði með eldi ok vapn-
om; brann þar stofan, ok þeir menn sem inni
vóro; en þeir vóro drepnir sem út komoz. Sig-
ríðr sagði, at sva skyldi hon leiða smá-konúng-
om at fara af ødrom lendom, til þess at biðja
hennar. Síðan var hún kollot Sigríðr hin
Stórráða.

## Kap. XLIX.

### Fæddr Olafr Konúngr Haraldsson.

Hann vetr áðr var Jómsvíkínga orrosta á
Hjørúngavagi. Hrani hafði verit eptir
at skipom, þá er Haraldr hafði gengit á land
upp með því liði er eptir var til forráða. En
er þeir Hrani spurðo at Haraldr var af lífi
tekinn, þá fóro þeir í brott sem tíðaz ok aptr
til Noregs, ok sogdo þessi tíðindi. Hrani
fór á fund Ásto, ok segir henni allan atburð

um

um for þeirra, ok sva hverra erinda Haraldr fór á fund Sigrídar drottníngar. Asta fór þegar til Upplanda til fodor sins, er hon hafdi spurt þessi tídindi, ok tók hann vel vid henni, en bædi þau vóro miøk reid um þá ráda ætlan, er verit hafdi í Svíþjód, ok þat er Haraldr Konúngr hafdi henni ætlat einlæti. Asta Gudbrandsdóttir ól sveinbarn þá um sumarit; sá sveinn var nefndr Olafr, er hann var vatni ausinn; Rani jós hann vatni. Var sa sveinn þar uppfæddr fyrst med Gudbrandi ok Asto módor sinni.

## Kap. L.

### Frá Hákoni Jarli.

Hákon Jarl réd Noregi allt út ytra med siá, ok hafdi hann til forráda 16 fylki. En sídan er Haraldr hinn Hárfagri hafdi sva skipat, at Jarl skyldi vera í hverjo fylki, þá héllzt þat lengi sídan. Hákon Jarl hafdi 16 Jarla undir sér. Sva segir í Vellekló:

| | |
|---|---|
| Hvar viti old und einom | Þess rídr furs med fjórom |
| Jardbyggvi sva liggja, | Fólk leikr Hedins reikar |
| (Þat skyli herr of hugsa) | Løgskundadar lindar |
| Hjarl ok sextán Jarla. | Lofkendr himins endom. |

Medan Hákon Jarl réd fyrir Noregi var gód árferd í landi, ok gódr fridr innanlands med bændom. Jarl var vinsæll vid bændor lengsta stund æfi sinnar: en er áleid, þá gérdiz þat miøk at um Jarl, at hann var úsidugr um kvenna far; gérdiz þar sva mikit at, at Jarl

lét

lét taka ríkra manna dætor, ok flytja heim til sín, ok lá hjá þeim viko eda tvær, en sendi þær heim sídan, fêck hann af því óþocka mikinn af frændom kvennanna, ok tóko bændor at kurra illa, sva sem Þrændir ero vanir um allt, er þeim er í móti skapi.

## Kap. LI.

### Ferd Þóris Kløcko at leita Olafs Tryggvasonar.

Hákon Jarl fær nockorn pata af því, at sá madr mun vera fyrir vestan haf, er Ali nefndiz, ok halda þeir hann þar fyrir Konúng. En Jarl grunadi af frásøgn nockorra manna, at vera mundi nockor af Konúnga-ætt Norrænni: hánom var sagt, at Ali kalladiz Gerskr ad ætt, en Jarl hafdi þat spurt, at Tryggvi Olafsson hafdi átt son, þann er farit hafdi austr í Gardaríki úngr, ok þar uppfædz med Valdimari Konúngi, ok hét sá Olafr: hafdi Jarl ok mjøk at spurníngom leidt um þann mann, ok grunadi at sá hinn sami mundi nú vera kominn þar í Vestrløndom. Madr er nefndr Þórir Klacka, vin mikill Hákonar Jarls: hann var laungom í víking, en stundom í kaupferdom, ok var vída kunnikt fyrir. Þenna Þóri sendi Hákon Jarl vestr um haf, bad hann fara kaupferd til Dyflinnar, sem þá var mørgom títt, en skynja þar reyndar hverr madr Ali þessi væri: en ef hann spyr þat til sanns, at þar væri Olafr Tryggvason, edr nockr annarr af Konúnga-ætt Norrænni,

þá

þá skyldi Þórir koma vid hann svikrædom nockrom ef hann mætti.

## Kap. LII.

## Olafr Tryggvason kom í Noreg.

Sídan fór Þórir vestr til Irlands til Dyflinnar, ok spurdi þar til Ala; var hann þar med Olafi Konúngi Kvaran mági sínom. Brádliga kom Þórir sér í tal vid Ala; var Þórir madr ordspakr. En er þeir høfdo opt ok mjøk lengi talat, þá tók Ali at spyrja af Noregi, fyrst frá Upplendínga Konongom, ok mørgo stórmenni, hverir þeir vóro þá á lífi, edr hvat ríki þeir høfdo: hann spurdi ok um Hákon Jarl, hver vinsæld hans var í landino. Þórir segir: Jarl er sva ríkr madr, at engi þorir annat at mæla, enn hann vill. En þat veldr því, at hvergi er í annan stad til at gánga. En þér satt til at segja, þá veit ek margra gøfigra manna skaplyndi, ok sva alþýdunnar, at þess væri fúsastir ok búnastir, at nockor Konúngr kæmi þar til ríkis, af ætt Haralds ens Hárfagra. En vér sjáum nú engan þann til; ok mest fyrir þá søk, at þat er nú reynt, at illa dugir at berjaz vid Hákon Jarl. En er þeir tøludo þetta opt, þá lætr Olafr í ljós fyrir Þóri nafn sitt ok ætt, ok spyr hann ráds, hvat hann hyggi, ef Olafr fer til Noregs, hvert bændor mundi vilja taka vid hánom at Konúngi. Þórir eggjadi hann ákafliga þessar ferdar, ok lofadi hann mjøk, ok atgervi hans.

hans. Tók Olafr þá at fýsaz mjøk at fara til ættleifdar sinnar. Siglir Olafr þá vestan med 5 skipom, fyrst til Sudreya; Þórir var þar í før med hánom; þadan sigldi hann til Orkneya. Sigurdr Jarl Lødvisson lá þá í Røgnvaldsey í Asmundarvogi, med eitt lángskip, ok ætladi at fara yfir á Katanes. Þá sigldi Olafr sino lidi vestan at eyonom, ok lagdi þar til hafnar, þviat Petlandsfjørdr var ecki færr. En er Konúngr vissi, at Jarlinn var þar fyrir, þá lét hann Jarl kalla til tals vid sik. En er Jarl kom á skipit til tals vid Konúng, þá høfdo þeir fátt talat, ádr Konúngr segir at Jarl skyldi skíraz láta, ok allt landsfólk hans; en ad ødrom kosti skyldi hann þá deyja þegar í stad; en Konúngr qvedzk mundo fara med eld ok usla yfir eyjarnar, ok eyda landit þat, nema landsfólkit kristnadiz. En sva sem Jarl var þá vid kominn, þá kaus hann þann af, at taka skírn; var hann þá skírdr, ok allt þat fólk, er þar var med honom. Sídan svardi Jarl Konúngi eida, ok gérdiz hans madr; fékk honom son sinn til gíslingar, er hét Hvælpr eda Hundi; ok hafdi Olafr Konúngr hann med sér til Noregs. Sigldi Olafr þá austr í haf, ok kom af hafi utan at Morstr; gékk þar fyrst á land upp í Noregi; ok lét Konúngr þar messo syngja í landtjaldi; en sídan var í þeim sama stad kirkja gjør. Þórer Klacka sagdi Konúngi, at þat eina var honom ràd, at gera ecki bert um, hverr hann var, ok láta enga njósn fara fyrir sér, ok fara sem á-

kaf-

kafligaz á fund Hákonar Jarls, ok láta hann óbúinn vid verda. Ok sva gérir Olafr Kóngr at hann ferr nordr dagfari ok náttfari, sva sem leidi gaf, ok gérdi ecki landsfólk vart vid ferd sína, hverr þar fór. En er hann kom nordr til Agdanes, þá spurdi hann at Hákon Jarl var inn í firdinom, ok þat med, at hann var ósáttr vid bøndor. En er Þórir heyrdi þetta sagt, þá var mjøk annann veg enn hann hugdi; þvíat eptir Jómsvíkínga orrost) vóro allir menn í Noregi fullkomnir vinir Hákonar Jarls, fyrir sigr þann er hann hafdi fengit, ok frelsat land allt af úfridi. En nú var sva illa atborit, at høfdingi mikill er kominn í landit, en bændor vóro ósáttir vid Jarlinn.

## Kap. LIII.

### Flótti Hákonar Jarls.

Hákon Jarl var á veizlo í Gaulardal at Medalhúsom, en skip hans lágo út vid Viggjo. Ormr Lyrgja er madr nefndr, ríkr bóndi; hann bjó á Býnesi; hann átti kono þá er Godrún er nefnd, dóttir Bergþórs af Lundom; hon var kellot Lundarsól: hon var qvenna frídoz. Jarl sendi þræla sína til Orms þeirra erinda, at hafa Godrúno kono Orms til Jarls; þrælar báro upp erindi sín; Ormr bad þá fyrst fara til náttverdar, en ádr þrælar høfdo mataz, þá vóro kommr til

R Orms

Orms margir menn or bygdinni, er hann hafdi ord send. Lét Ormr þá engann kost at Godrún færi med þrælouom. Godrún mælti, bad þræla sva segja Jarli, at hon mundi ecki til hans koma, nema hann sendi eptir henni Þóro af Rimol; hon var húsfreya rík, ok ein af unnostom Jarls. Þrælarnir segja at þeir skulo þar sva koma ordo sinni, at bóndi ok húsfreya mundo þessa ydraz skambrags, ok heitaz þrælarnir mjøk, ok fóro brott sídan. En Ormr lét fara herør fjøgurra vegna um bygdina, ok lét því bodi fylgja, at allir skyldo med vapnom fara at Hákoni Jarli ok drepa hann; ok sendi til Haldórs á Skerdíngstedjo; en Haldór lét þegar fara herør. Litlo ádr hafdi Jarl tekit kono þess manns er Brynjólfr hét, ok var þat verk allmjøk úþockat; ok var þá vid sjálft, at herr mundi upplaupa; eptir þesso ørbodi ljóp upp múgi manns, ok sótti til Medalhúsa; en Jarl fêck njósn, ok fór af bænom med lid sitt, ok í dal djúpann þann er nú er kalladr Jarlsdalr, ok leyndoz þeir þar. Eptir um daginn hafdi Jarl njósn af bónda-herinom. Bøndor tóko vego alla, ok ætlado helzt at Jarl mundi hafa farit til skipa sinna; en fyrir skiponom rédi þá Erlendr son hans, hinn mannvænsti madr. En er náttadi þá dreifdi Jarl lidino, ok bad fara markleidi út til Orkadals, ok mun ydr engi madr mein géra, ef ek em hvergi í nánd: gørit ord Erlendi, at hann fari út eptir firdinom, ok hittumz

umz vid á Mæri. En ek mun vel fá leynt mèr fyrir bændom. Fór Jarl þá ok þræll hans vid honom, er Karkr er nefndr. Js var á Gaul, ok ratt Jarl þar út á hesti sinom, ok þar lèt hann eptir mottol sinn. En þeir fóro í helli þann er sídan er kalladr Jarlshellir. Þá sofnado þeir; en er Karkr vaknadi, þá segir hann draum sinn, at madr svartr ok illiligr fór hjá hellinom, ok hræddiz hann, at hann mundi inngánga, en sá madr sagdi honom, at Ulli var daudr; Jarl svarar, at Erlendr son hans mundi drepinn. En sofnar Karkr ødro sinni, ok lætr illa í svefni sem fyrr; en er hann vaknar, segir hann draum sinn, at hann sá þá enn sama mann fara ofan aptr, ok bad þá segja Jarli, at þá vóro lokin sund øll. Karkr sagdi Jarli drauminn; hann grunadi at slíkt mundi verda fyrir skammlífi síno; sídan stód hann upp, ok gengo þeir heim á bæinn Rimol; þá sendi Jarl Kark á fund Þóro, bad hana koma leyniliga til sín; hon gèrdi sva, ok fagnar vel Jarli. Jarl bad hana fela sik um nockorra nátta sakir, þar til er bændor rysi samnadinn. Hèr mun þín leitat, segir hon, um bæ minn, bædi úti ok inni; þvíat þat vito margir, at ek mun gjarna hjálpa þèr, allt þat er ek má. Einn stadr er hèr á mínom bæ, er ek munda ecki kunna leita slíks manns, þat er svína bæli nockot. Þau komo þannog til; þá mælti Jarl, hèr skulo vèr um búaz; lissins skal nú fyrst

gæta. Þá gróf þrællinn þar gröf mikla, ok bar í brott moldina; síðan lagði hann þar viðo yfir. Þóra sagði Jarli tíðindi þau, at Olafr Tryggvason var kominn utan í fjörðinn, ok hafði hann drepit Erlend son hans. Siðan gêck Jarl í gröfina, ok báðir þeir Karkr, en Þóra gérdi yfir með viðom, ok sópaði yfir moldo ok myki, ok rak þar yfir svínin. Svínabæli þat var undir steini einom miklom.

## Kap. LIV.

### Dauði Erlends.

Olafr Tryggvason hêllt utan í fjörðinn með 5 lángskipom; en þar réri innan í móti Erlendr son Hákonar Jarls, með 3 skipom; en er skipin nálgaðoz, þá grunaði þá Erlend, at úfriðr mundi vera, ok snúa at landi. En er þeir Olafr sá lángskipin eptir firðinom fara, ok róa í móti sér, þá hugði hann þar mundi fara Hákon Jarl, ok bað róa eptir þeim sem ákafaz, en er þeir Erlendr vóro komnir mjök at landi, réro þeir þegar á grunn ok ljópo þegar fyrir borð, ok leitoðo til lands, þá rendo at skipin Olafs. Olafr sá hvar lagðiz maðr forkunnar friðr; Olafr greip upp hjálmunvölinn ok kastar at þeim manni, ok kom höggit í höfot Erlendi syni Jarls, sva at hausinn brotnaði til heila; lêt Erlendr þar líf sitt. Þeir Olafr drápo þar margt manna, en sumt kom á flótta, en sumt tóko þeir ok gáfo grið,

ok

ok hefdo af tídinda sogn; var þá Olafi sagt at bændor hefdo rekit Hákon Jarl, ok hann var farflótti fyrir þeim, ok dreifi var ollom flocki hans.

## Kap. LV.

## Daudi Hákonar Jarls.

Sídan koma bondor á fund Olafs, ok verda hvarir odrom fegnir, ok taka þegar samlag sitt; taka bændor hann til Konúngs yfir sik, ok taka allir eitt ráð, at leita sídan allir samt eptir Hákoni Jarli; fara upp í Gaulardal, ok þyckir þat líkaz at Jarl muni vera á Rímol, ef hann er nockot at bæjom, þvíat Póra var þar kjærstr vin hans í þeim dal. Fara þeir þannog ok leita Jarls úti og inni, ok finna hann ecki. Þá átti Olafr húsþíng úti í gardinom, hann stód upp á stein þann inn mikla, er þar stód hjá svínabælino; þá taladi Olafr fyrir mønnom, ok vard þat í rædo hans, at hann mundi þann mann gæda bædi fé ok virdíng, er Hákoni Jarli yrdi at skada. Þá rædo heyrdo þeir Jarl ok Karkr præll; þeir hefdo ljós hjá sér; þá mælti Jarl: hví ertú sva bleikr, en stundom svartr sem jørd? er ecki þat ná, at þú viljir svíkja mik? Ecki, segir Karkr. Vid vórom fæddir á einni nótt, segir Jarl, ok mun skammt verda milli dauda ockars. Þá fór Olafr Konúngr á brott, er qveldadi. En er náttadi, þá hèllt Jarl voko yfir sér, en Karkr sofnadi, ok lèt illiliga; þá vakti Jarl hann, ok

spurdi hvat hann dreymdi? hann segir, ek var nú á Lødom, ok lagdi Olafr Tryggvason gull-men á háls mér; Jarl svarar: þar mun Olafr láta hríng raudann um háls þer, ef þú finnr hann; vara þú þik sva; en af mér muntú gott hljóta, sva sem fyrr hefir verit, ok svik mik ecki. Sidan vøkto þeir bádir, sva sem hverr vekti yfir ødrom. En í mót degi, þá sofnadi Jarl brátt ok lét hann illa; ok sva mikit vard at því, at Jarl skaut hælonom undir sik, ok hnackanom, sva sem hann mundi vilja upprísa, ok lét hátt ok ógrliga. En Karkr vard hræddr ok felmsfullr, ok greip kníf mikinn af linda sér ok skaut í gégnom barka Jarli ok skar út or, var þat bani Hákonar Jarls. Sidan sneid Karkr høfot af Jarli, ok ljóp í brott med, ok kom eptir um daginn inn á Ladir, ok færdi høfot Jarls Olafi Konúngi, segir ok þá alla þessa atburdi ok um ferdir þeirra Hákonar Jarls. Sidan lét Olafr Konúngr leida hann í brott ok høggva høfot af.

## Kap. LVI.

### Grýting høfuds Hákonar Jarls.

Þá fór Olafr Konúngr út til Nidarhólms, ok fjøldi bønda med honom, ok hafdi med sér høfot þeirra Hákonar Jarls ok Karks; sá hólmr var þá hafdr til þess, at drepa þar þjófa ok illmenni, ok stód þar gálgi, ok lét hann þar til bera høfót Hákonar Jarls, ok svá Karks,

Karls, gêck þá til allr herinn ok ræpti upp, ok grýtti þar at, ok mælto, at þar skyldi fara nídingr med ødrom nídingom. Sídan láta þeir fara upp í Gaulardal, ok taka búkinn. Vard hér svo mikill máttr at fjandskap þeim er Prændir gérdo til Hákonar Jarls, at engi madr mátti hann nefna annann veg enn Jarl hinn illa; var þetta kall haft lengi sídan. En hitt er þó satt at segja frá Hákoni Jarli, at hann hafdi til þess marga luti at vera høfdíngi; fyrst kynqvíslir stórar, þar med speki ok kjænleik, at fara med ríkdóminom, røskleik í orrostom at vega sigrinn, ok þar med hamíngjona at drepa fjandmenn sína. Sva segir Þorleifr Raudfeldarson:

Hákon! vitom hvergi,
Hafiz hefir runnr af grunni
Fremra Jarl und ferli
Fólk ranar þer mána.

Þú hefir ødlínga Ódni
Etr hrafn af ná getnom
Vera máttu af því vísi
Vídlendor, nío senda.

Manna ørvastr var Hákon Jarl; en hina mesto óhamíngjo bar slíkr høfdíngi til dánar dægor síns. Pat bar mest til er sva vard, at þá var sú tíd komin, at fyrirdæmaz skyldi blótskaprinn ok blótmennirnir, en í stad koma heiløg trúa ok réttir sidir.

## Kap. LVII.

### Olafr Tryggvason tók konúngdóm yfir Noregi.

Olafr Tryggvason var til Konúngs tekinn í Þrándheimi á allzherjar þíngi, um

land allt, svá sem haft hafdi Haraldr hinn Hárfagri; hljóp þá upp múgr og margmenni, ok vildi engi annat heyra enn Olafr Tryggvason skyldi vera Konúngr. Fór Olafr þá um land allt, ok lagdi undir sik, snéroz þá til lydni vid hann allir menn í Noregi, samt þeir høfdíngjar á Uppløndom ok í Vikinni, er ádr høfdo land haldit af Dana-konúngi, þá gérdoz þeir menn Olafs Konúngs, ok hèldo land af honom. Fór hann svá yfir land hinn fyrsta vetr ok eptir um sumarit. Eirikr Jarl Hákonarson ok Sveinn bródir hans, ok adrir frændor þeirra ok vinir, flýdo landit, ok sótto austr í Svía-veldi til Olafs Konúngs hins Sænska, ok fengo þar gódar vidtøkor. Sva segir Þórdr Kolbeinsson:

Meintennir brá manna
Margs sósa skop varga
Ljóda litlo sidar
Læ, Hákonar æfi.
Entil lands þess er lindar
Ládstafr vegit hafdi
Hraustir þá er herr fór vestan,
Hygg ek qvæmi son Tryggva.

Ok enn:

Hafdi ser vid særi
Slíks var ván at hanom
Auds, enn upp um qvædi
Eirikr í hug meira.
Sótti reidr at rádom
Rann engi því manna
Þrályndr sekz Þrondom,
Þrænskr Jarl Konúng sænskan.

## Kap. LVIII.

### Qvanfáng Lodins.

Lodinn er madr nefndr víkverskr, audigr ok ættadr vel. Hann var optliga í kaupferd-

om, en stundom í hernadi. Þat var eitt sumar, at Lodinn fór í kaupferd, átti hann einn skip þat ok hafdi mikinn kaupeyri. Hann hélt til Eistlands, ok var þar í kaupstefno um sumarit. En þá er markadrinn stód, þá var þángat flutt margskonar kaupskapr; þar kom man margt falt; þar sá Lodinn kono nockora, er seld hafdi verit mansali, ok er hann leit á konona, þá kéndi hann at þat var Astríðr Eiríksdóttir, er átt hafdi Tryggvi Konúngr, ok var hon þá úlík því sem fyrr, er hann sá hana: hún var þá føl ok grannleit ok illa klædd. Hann gêck til hennar, ok spurdi hvat ráds hennar var; hon segir: þúngt er frá því at segja, ek em seld mansali, en híngat høfd til sølo. Sídan kønnodoz þau vid, ok vissi Astridr skyn á honom; bad hon sídan ef hann vildi kaupa hana, ok hafa heim med sér til frænda hennar. Ek man gêra þér kost á því, segir hann, ek man flytja þik til Noregs ef þú vill giptaz mér. En med því at Astrídr var þá naudoliga vidkomin, ok þat annat, at hon vissi Lodinn var madr stórættadr, vaskr ok audigr, þá heitir hon honom þesso til útlausnar sér. Sídan keypti Lodinn Astrídi, ok hafdi heim med sér til Noregs, ok féck hennar þar þá med frænda rádi. Þeirra børn vóro þau Þorkéll Nefja; dætor Astridar ok Tryggva Konúngs, vóro þær Ingibjørg ok Astrídr. Synir Eiriks Bjódaskalla vóro þeir Sigurdr Karlshøfot, Jósteinn ok Þor-

fell Dydrill; þeir vóro allir gøfgir menn ok audgir, ok átto bú austr í landi. Brædor tveir bjuggo í Vík austr, audgir ok kynstorir; hét annarr Þorgeirr en annar Hyrníngr, þeir fengo dætor Lodins ok Astrídar; hét ønnr þeirra Ingiríðr en ønnr Ingigérdr.

## Kap. LIX.

### Olafr Konúngr kristnadi Víkina.

Haraldr Gormsson Dana-konúngr, þá er hann hafdi vid kristni tekit, sendi hann bod um allt ríki sitt, at allir menn skyldo skíraz láta, ok snúaz til réttrar trúar. Fylgdi hann siálfr því bodi, ok veitti þar styrk ok refsíngar, er ecki gengi vid ella. Hann sendi tvo Jarla í Noreg med lid mikit, er sva héto, Urgoþrjótr ok Brímilskjar, þeir skyldo boda kristni í Noregi; þat géck vid í Víkinni, þar er ríki Haralds Konúngs stód yfir, ok skírdiz þar margt landsfólk. En brátt eptir dauda Haralds, þá fór Sveinn Tjúguskégg sonr hans í hernat, bædi í Saxland ok Frísland, ok at lyktom til Englands. En þeir menn í Noregi er vid kristni høfdo tekit, þá hurfo þeir aptr til blóta, sva sem fyrr, ok sva gérdo menn nordr í land. En er Olafr Tryggvason var Konúngr ordinn í Noregi, þá dvaldi hann lengi um sumarit í Víkinni: komo þar til hans margir frændor hans, en sumir mágar; en margir høfdo verit miklir vinir fedr

hans,

hans, ok var honom þar fagnat med allmiklom kærleik. Þá kallar Olafr til tals vid sik mödrbrædor sína, Lodinn stjúpfødr sinn, mága sína Þorgeirr og Hyrning; bar sídan fyrir þá med enom mesta alhuga þat mál, at þeir skyldo sjálfir undir taka med honom, ok fylgja sídan med øllom krapti, at hann vill kristnibod upphefja um allt ríki sitt; segir at hann skal því áleidis koma at kristna allt í Noregi, edr deyja at ødrom kosti; ek skal gëra ydr alla mikla menn ok ríka, þvíat ek trúi ydr best, fyrir sakir frændsemis ok annarra tengda. Allir þeir játado þesso, at gëra hvat sem hann baud, ok fylgja honom til þess alls er hann vildi, ok allir þeir menn er þeirra rádom vilja fylgja. Gørdi þá Olafr Konúngr þegar bert fyrir alþýdo, at hann vill bjóda kristni øllom mønnom í ríki síno; tóko þeir þegar fyrstir undir at játa þesso bodi, er ádr høfdo undir gengit; vóro þeir ok ríkastir af þeim mønnom er þá vóro vidstaddir; ok þá gërdo allir at þeirra dæmom; vóro þá skírdir menn allir austr um Víkina. Fór þá Konúngr nordr í Víkina, ok baud øllom mønnom at taka vid kristni; en þeir er í móti mælto veitti hann stórar ressíngar, drap suma, suma lét hann hamla, suma rak hann af landi á brott; kom þá sva at um þat ríki allt, er fyrr hafdi stýrt Tryggvi Konúngr fadir hans, ok sva þat er átt hafdi Haraldr Grenski frændi hans gëck þat fólk allt undir kristnibod, þat er Olafr bodadi, ok vard þat sumar ok eptir um vetrinn alkristit um Víkina.

Kap.

## Kap. LX.
### Frá Hørdom.

Olafr Konúngr fór snemma um varit út í Víkina ok hafdi lid mikit, fór hann þá nordr á Agdir, en hvar sem hann átti þíng vid bændor, þá bodadi hann øllom mønnom at láta skíraz, ok gengo menn undir kristni; þvíat engi feckz uppreist af bøndom móti Konúngi, ok var fólkit skírt hvar sem hann fór. Menn þeir vóro á Hørdalandi margir ok gøfgir, er komnir voro af ætt Hørda-Kára; hann átti 4 sono; einn var Þorleifr Spaki, annarr Augmundr fadir Þórólfs Skjálgs, fødr Erlings af Sóla, þridji var Þórdr fadir Klyps Hersis, er drap Sigurd Konúng Slevo Gunnhildar son; fjórdi Ølmódr fadir Askéls, fødor Asláks Fitjaskalla; þessi ættbogi var þá mestr ok gøfgaztr á Hørdalandi. En er þeir frændor spurdo til vannqvædis þessa, at Konúngr fór austan med landi, ok hafdi lid mikit, ok braut forn løg á mønnom; en allir sættu refsíngom ok afarkostom, þeir er í móti mælto Þeir frændor gérdo stefnolag milli sín, ok skulo géra rád fyrir sér, þvíat þeir vita at Konúngr mun brátt koma á fund þeirra, ok semst þat med þeim at þeir skulo koma allfjølmennt til Gulaþíngs, ok stefna þar fund vid Olaf Konúng Tryggvason.

## Kap. LXI.

### Kristnat Rogaland.

Olafr Konúngr stefndi þíng þegar er hann kom á Rogaland; en er bóndom kom þíngaboð, þá samnaz þeir fiølmennt saman ok með alvæpni; en er þeir koma saman, taka þeir tal ok ráðagerð; ok ætla til þess þriá menn, þá er málsnjallastir vóro í þeirra flocki, at svara Olafi Konúngi á þíngino, ok tala móti honom; ok þat með, at þeir vilja ecki gánga undir ólog, þótt Konúngr bjóði þeim. En er bændor koma til þíngs, ok þíng var sett, þá stóð Olafr Konúngr upp, ok talaði fyrst blídt til bænda, fannz þat þó í hans máli, at hann vill at þeir taki við kristni, ok bad þá til með fögrom orðom, en at lyktom lét hann það fylgja, við þá er í móti mælto, ok ecki vildo undirgánga boð hans, at þeir mundo sæta af honom reiði ok refsíngom, ok hørðom afarkostom, hvar sem hann mætti viðkomaz. En er hann lauk máli síno, þá stóð upp sá maðr af bóndom er einna var málsnjallastr, ok fyrst var til þess tekinn, at svara skyldi Olafi Konúngi. En er hann vildi til máls taka, þá setr at honom hósta ok þraunga sva mikinn, at hann fécc engo orði uppkomit; ok setz hann niðr. Þá stendr upp annar bóndi, ok vill sá ecki fallaz láta andsvørin, þótt enom fyrra hefði ecki vel tiltekizt; en er sá hefr upp mál sitt, þá var hann sva stamr, at hann fécc engo orði uppkomit, tóko þá allir at hlæja, er á heyrðo,

settiz

settiz þá bóndi nidr. Þá stód upp enn þridji, ok vill tala í móti Olafi Konúngi, en er sá tók til máls, var hann sva hás ok rámr at engi madr heyrdi þat er hann taladi, ok settiz hann nidr; þá vard engi til af bóndom at mæla í móti Konúngi; en er bændor fengo engann til andsvara vid Konúng, þá vard engi uppreist þeirra til mótstødo vid Konúng; kom þá sva at at allir játto því er Konúngr baud; var þá skírt allt þat þíngfólk, ádr Konúngr skildiz þar vidr.

## Kap. LXII.

### Qvanbón Erlings Skjálgssonar.

Olafr Konúngr stefndi lidi síno til Gulaþíngs; þvíat bændor hafa honom þau ord send, at þeir vilja þar svara máli hans. En er þar koma hvarirtveggjo til þíngs, þá vill Konúngr fyrst ega tal sitt vid Landshøfdingja. En er þeir koma á stefno allir saman, þá ber Konúngr upp erindi sín, ok býdr þeim at taka vid skírn eptir bodi hans. Þá segir Ølmódr hinn Gamli: rædt høfom vér frændor um mál þetta, ok mano vér frændor allir hverfa ad eino rádi. Medr því Konúngr! at þú ætlar at pínda oss frændor til slíkra luta, at brjóta løg var, ok brjóta oss undir þik med nockorri naudúng, þá mano vér í móti standa med øllo afli, ok fái þeir sigr er audit verdr. En ef þú vill Konúngr, leggja nockora farsælliga luti til vor frænda, þá mátto þat gjøra sva vel, at vér manom allir hverfa til

þin

þín med fullkominni þjónusto. Konúngr segir, hvers vilįit þêr mik beida, til þess at sætt vor verdi sem best. Þá svarar Ölmódr: þat er et fyrsta ef þú villt gipta Astrídi systir þína Erlíngi Skjálgssyni frænda varom, er vêr kollom mannvænstann allra úngra manna í Noregi. Olafr Konúngr segir, at honom þyckir líkligt, at þat gjaford muni gott vera, segir at Erlíngr er ættadr vel, ok madr hinn líkligsti sýnom; en þó segir hann at Astrídr á svør þessa máls. Sídan ræddi Konúngr þetta vid systr sína: litt nýt eg nú þess, segir hún, at ek em Konúngs dóttir, ok Konúngs systir, ef mig skal gipta útignom manni; man ek heldr bída nockora vetor annars gjafords, ok skildo þau ræduna at sinni.

## Kap. LXIII.

### Kristnat Hördaland.

Olafr Konúngr lêt taka hauk er Astrídr átti, ok lêt plocka af fjadrir allar, ok sendi henni sídan. Þá mælti Astrídr: reidr er bródir minn nú; sídan stód hún upp ok gêck til Konúngs, hann fagnadi henni vel. Þá mælti Astrídr: segir at hún vill at Konúngr sjái fyrir hennar rádi, slíkt sem hann vill. Þat hugda ek, segir Konúngr, at ek munda fá vald til at gêra þann tiginn mann, sem ek vil, hêr í landi. Lêt Konúngr þá kalla til tals Ölmód ok Erlíng, ok alla þá frændor, var þá talat bónord þetta, lauk sva at Astrídr var festnot Erlíngi. Sídan

lét Konúngr setia þíngit, ok baud bændom kristni; var þá Olmódr og Erlíngr forgángsmadr at flytja þetta Konúngs mál, ok þar med allir frændor þeirra; bar þá engi madr traust til at mæla í móti; var þá skírt þat allt fólk ok kristnat.

## Kap. LXIV.

### Brullaup Erlings Skjálgssonar.

Erlíngr Skjálgsson gérdi um sumarit brullaup sitt, ok var þar allmikit fjölmenni; þar var Olafr Konúngr; þá baud Konúngr at géfa Erlíngi Jarldóm. Erlíngr segir svá: Hersar hafa verit frændor mínir, vil ek ecki hafa nafn hærra enn þeir; hitt vil ek þyggja, Konúngr, af ydor, at þér látit mik vera mestann med því nafni hér í landi. Konúngr jatti honom þat; ok at skilnadi þeirra veitti Olafr Konúngr Erlíngi mági sínom nordan frá Sognsæ ok austr til Lidandisness, med þvílíkum hætti sem Haraldr hinn Hárfagri hafdi veitt sonom sínom, ok fyrr er ritat.

## Kap. LXV.

### Kristnadir Firdir ok Raumdælir.

Þetta sama haust stefndi Olafr Konúngr fjögra fylkna þíng nordr á Stadi á Drageidi; þar skyldo koma Sygnir ok Firdir, Sunnmærir ok Raumdælir. Fór Olafr Kon-

Konúngr þannog med allmikit fiølmenni, er hann hafdi austan or landi, ok sva þat lid er þá hafdi komit til hans á Rogalandi ok Hørdalandi. En er Olafr Konúngr kom þar til þings, þá bodadi hann þar kristni sem í ødrom stødom; en fyrir því at Konúngr hafdi þar styrk mikinn fiølmennis, ok óttudoz þeir þat; en at lyktom þess máls, þá baud Konúngr þeim tva kosti, annathvert at þeir tæki kristni ok léti skiraz, edr enn at ødrom kosti at þeir skyldo halda vid hann orrosto. En er bændor sá ecki faung til at berjaz vid Konúng, þá var hitt rád upptekit, at allt fólk kristnadiz. En Olafr Konúngr fór þá med lidi síno á Nordmæri, ok kristnar hann þat fylki. Sídan siglir hann inn á Ladir, ok lætr brjóta ofan hofit, ok taka allt skraut ok fé or hofino, ok af godino. Hann tók gullhríng mikinn or hofshurdunni, er Hákon Jarl hafdi látit gëra. Sídan lét Olafr Konúngr brenna hofit, en er bændor verda þessa varir, þá láta þeir fara herør um øll fylki, ok stefna herr út, ok ætla at Konúngi. Olafr Konúngr hellt þá lidi síno út eptir firdi, ok stefnir sídan nordr med landi, ok ætlar at fara nordr á Hálogaland, ok kristna þar. En er hann kom nordr í Bjarney, þá spyr hann þat af Hálogalandi, at þeir hafa þar herr úti, ok ætla at verja land fyrir Konúngi. Ero þeir þar høfdíngjar fyrir lidi, Hárekr or Þjótto, ok

ok Þórir Hjörtr or Vagom, Eyvindr Kinnrifa. En er Olafr Konúngr spurdi þetta, þá snýr hann leid sinni, ok siglir sudr med landi. En er hann kom sudr um Stad, þá fór hann allt tómligar, ok kom þó ondverdann vetr allt austr í Vikina.

## Kap. LXVI.

### Bónord Olafs Konúngs til Sigridar drottníngar Stórrádo í Svíþjód.

Sigrídr drottníng í Svíþjód, er kollct var en Stórráda, sat at búom sínom; þann vetr fara menn milli Olafs Konúngs ok Sigrídar, ok hóf Olafr Konúngr þar upp bónord sitt, ok bad Sigrídar, en hún tók því likt; ok var þat mál fest med einka-málom. Þá sendi Olafr Konúngr Sigrídi drottníngo gullhríng þann enn mikla, er hann hafdi tekit úr hofs-hurdinni á Hlødom, ok þótti þat høfot gersemi. Stefnolag skyldi vera til þessa måla eptir um varit í Elfinni, vid lauda-mæri. En er hríngr þessi, er Olafr hafdi sendt Sigrídi drottníngo, var sva mjøk lofadr af øllom mønnom, þá vóro med drottníngo smidir hennar, brædor tveir. En er þeir høfdo hrínginn med høndom, ok handvetto, ok mæla einmæli milli sín, þá lét drottníng kalla þá til sín, ok spurdi hvat þeir spottadi? þeir dylja þess; hon segir: at þeir skulo fyrir hvern mun láta hana vita hvat þeir hafa atfunnit; þeir segja: at fals sé í hríng-

í hringinom. Síðan lét hún brjóta í sundr hringinn, ok fannz þar eyr í innan; þá varð drottníng reið, ok sagði at Olafr mundi at fleira falsa hana, enn þesso eino. Þenna enn sama vetr fór Olafr Konúngr uppá Hríngaríki, ok kristnaði þar.

## Kap. LXVII.

### Skírdr Olafr Haraldsson.

Asta Gudbrandsdóttir giptiz brátt eptir fall Haralds Grenska, þeim manni er nefndr er Sigurdr Sýr; hann var Konúngr á Ríngaríki. Sigurdr var son Hálfdánar, en hann var son Sigurdar Hrísa, Haraldssonar ens Hárfagra. Þá var þar med Asto ok Sigurdi Olafr son þeirra Haralds Grenska; hann fæddiz upp í æsku med Sigurdi Sýr stjúpfødor sínom. En er Olafr Konúngr Tryggvason kom á Hríngaríki at boda þar kristni, þá lét skíraz Sigurdr Sýr ok Asta kona hans, ok Olafr son hennar; ok gérdi Olafr Tryggvason gudsifjar vid Olaf Haraldsson; þá var hann þrevetr. Fór Olafr Konúngr þá enn út í Víkina, ok var þar um vetrinn; þann var hann enn þridja vetr Konúngr yfir Noregi.

## Kap. LXVIII.

### Tal þeirra Olafs Konúngs ok Sigrídar Stórrádo.

Snemma um varit fór Olafr Konúngr austr til Konúnga-hello, til stefno móti Sigrídi drottníngo; en er þau funnoz, þá tolodo þau þat mál er rædt hafdi verit ádr um vetrinn, at þau mundo géra samgáng sinn, ok fór þat mál allt likliga. Þá mælti Olafr Konúngr, at Sigrídr skyldi taka skírn ok rétta trú. Hon sagdi sva: ecki mun ek gánga af trú þeirri, er ek hefi fyrr haft ok frændor mínir fyrir mér; man ek ok ecki at því telja, þótt þú trúir á þann Gud er þér líkar. Þá vard Olafr Konúngr reidr mjøk, ok mælti brádliga: hví mun ek vilja eiga þik afgamla ok hundheidna, ok laust í andlit henni med glófa sínom, er hann hèllt á. Stód hann upp sídan ok bædi þau. Þá mælti Sigrídr: þetta mætti verda vel þinn bani. Sídan skildu þau; fór Konúngr nordr í Víkina, en drottníng austr í Svía-veldi.

## Kap. LXIX.

### Seidmanna brenna.

Olafr Konúngr fór þá til Túnsbergs, ok átti þar þá enn þíng, ok taladi á þínginu, at þeir menn allir, er kunnir ok sannir yrdi at því, at færi med galdra og gérníngar,

edr

edr seidmenn, þá skyldo allir fara af landi á brott. Sídan lét Konúngr ransaka eptir þeim mønnom, um þær bygdir, er þannog vóro í námunda, ok boda þeim øllom til sín. En er þeir komo til þíngs, þá var einn madr af þeim, er nefndr er Eyvindr Kélda; hann var sonarson Røgnvalds Réttilbeina, sonar Haralds Hárfagra. Eyvindr var seidmadr ok allmjøk fjølkunnigr. Olafr Konúngr lét skipa þessom mønnom øllom í eina stofo, ok lét þar vel umbúaz; lét gêra þeim þar veizlo, ok fá þeim sterkann dryck. Ok þá er þeir vóro mjøk drucknir, lét Olafr Konúngr leggja eld í stofona, ok brann stofa sú, ok allt þat fólk er þar var inni, nema Eyvindr Kélda; hann komst út um ljórann, ok sva í brott. En er hann var lángt í brott kominn, faun hann menn þá á leid sinni, er fara ætlado til Konúngs, ok bad þá sva segja Konúngi, at Eyvindr Kélda, var brott kominn úr eldinom, ok mun aldri sídan koma á vald Olafs Konúngs; en hann mun allt fara á sømo leid, sem fyrr gêrdi hann, um alla kunnosto sína. En er þessir menn komo á fund Olafs Konúngs, þá segja þeir slíkt frá Eyvindi, sem hann hafdi þeim bodit. Konúngr lætr illa yfir, er Eyvindr var ecki daudr.

## Kap. LXX.

### Dráp Eyvindar Kéldo.

Olafr Konúngr fór, er varadi, út eptir Vikinni, ok tók veizlor at stórbúom sínom,

ok sendi bod allt um Vikina, at hann vill lid hafa úti um sumarit, ok fara nordr í land. Sidan fór hann nordr á Agdir, ok er á leid Langa-fösto, þá sótti hann nordr á Rogaland, ok kom Páska-aptan nordr í Rörme á Ögvaldsnesi; var þar búin fyrir honom Páska-veizla; hann hafdi nær 300 manna. Þá somo nótt kom þar vid eyna Eyvindr Kélda, hann hafdi lángskip alskipat; vóro þat allt seidmenn, ok annat fjölkyngis fólk. Eyvindr gékk upp af skipi, ok sveit hans öll, ok mögnodo fjölkyngi sína: gerdi Eyvindr þeim huliz hjálm ok þokomyrkr sva mikit, at Konúngr ok lid hans skyldo ecki mega sjá þá. En er þeir komo mjök sva til bæarins á Ögvaldsnesi, þá gerdiz ljóss dagr; vard þá mjök annann veg enn Eyvindr hafdi ætlat; kom þá myrkvi sá, er hann hafdi gört med fjölkyngi, yfir hann ok hans föroneyti, sva at þeir sá ecki heldr augom enn hnacka, ok fóro allt í hríng um eyna. En vardmenn Konúngs sá þá hvar þeir fóro, ok visso ecki hvat lid þat var; var þá sagt Konúngi; stód hann þá upp, ok allt lidit, ok klæddiz. En er Konúngr sá hvar þeir Eyvindr fóro, bad hann sína menn vapna sik, ok gánga til, ok vita hvat mönnom þat væri. En er Konúngs-menn kéndo þar Eyvind, þá tóko þeir hann höndom, ok alla þá, ok leiddo þá til Konúngs. Sagdi þá Eyvindr allann atburd um sínar ferdir. Sidan lét Konúngr taka þá alla, ok flytja í flædiskér ok binda þar. Lét Eyvindr sva líf sitt,

sitt, ok allir þeir. Er þat síðan kallat Skrattasker.

## Kap. LXXI.

### Frá Olafi Konúngi ok vjelom Odins.

Sva er sagt, þá er Olafr Konúngr var á veizlonni á Ögvaldsnesi, at þar kom eitt qvöld madr gamall ok ordspakr mjök, hafdi hött síðan; hann var einsýnn; kunni sá madr segja af öllom löndom. Hann kom sér í tal við Konúng; þótti Konúngi gaman mikit at rædom hans, ok spurdi hann margra luta, en gestrinn fékk orlausn til allra spurnínga, ok sat Konúngr lengi um qveldit. Þá spyr Konúngr, ef hann vissi, hverr Ögvaldr sá hafdi verit, er nesit ok bærinn var vidkendr? Gestrinn segir: at Ögvaldr var Konúngr, ok hermadr mikill, ok blet kú eina mest, ok hafdi hann hana med sér, hvargi er hann fór, ok þótti honom þat heilnæmligt, at drecka jafnan mjólk hennar. Ögvaldr Konúngr bardiz vid Konúng þann er Varinn hét. Í þeirri orrosto féll Ögvaldr Konúngr; var hann hér heygdr skammt frá bænom, ok settir upp bautasteinar, þeir er enn standa hér. En í annann haug skammt hédan, var lagin kýrin. Slíka luti sagdi hann, ok marga adra, frá Konúngom eda ödrom forutídindom. En er lengi var setit um nóttina, þá minnti Biskup Konúng á, at mál væri at gánga at sofa: gérdi Konúngr þá ok sva. En er hann var afklæddr, ok hafdi

 í reck-

i reckjo lagz, þá settiz gêstrinn á fótskörina, ok taladi enn lengi vid Konúng. Þótti Konúngi æ ords vant er annat var mælt. Þá mælti Biskup til Konúngs, segir at mál væri at sofa; gêrdi Konúngr þá sva, en gêstrinn géck út. Litlo sídar vaknadi Konúngr, ok spurdi þá eptir gêstinom, ok bad hann kalla til sín; en gêstr fannz þá hvergi. Eptir um morguninn lét Konúngr kalla til sín steikara, ok þann mann er dryckinn vardveitti, ok spyr ef nockorr ókunnr madr hefdi komit til þeirra? þeir segja: at þá er þeir skyldo matbúa kom þar madr nockorr, ok sagdi: at furdo íllt slátr sudo þeir til Konúngs bords; sídan fêck hann þeim tvær nautz sídor digrar ok feitar, ok sudo þeir þær med ödro slátri. Þá segir Konúngr: at þá vist alla skyldi ónýta; segir at þetta mundi engi annarr madr verit hafa, enn sá Odinn, er heidnir menn höfdo lengi átrúat; sagdi at Odinn skyldi þá engo áleidis koma at svíkja þá.

## Kap. LXXII.

### Þíng í Þrándheimi.

Olafr Konúngr dró þá saman lid mikit austan or landi um sumarit, ok hêlt lidi því nordr til Þrándheims, ok lagdi fyrst inn til Nidaróss. Sídan lét hann fara þíngbod um allann fjördinn, ok stefndi 8ta fylkna þíng á Frosto, en bændor snêro þíngbodi í herör, ok stefndo saman þegn ok þræl um allann Þrándheim.

heim. En er Konúngr kom til þíngs, þá var kominn bænda múgrinn med alvæpni. En er þíng var sett, þá taladi Konúngr fyrir lýdnom, ok baud þeim at taka vid kristni. En er hann hafdi litla hríd talat, þá kollodo bændor, ok bádo hann þegja, segja at ella mundo þeir veita hanom atgaungo, ok reka hann í brott, gérdo vér sva sögdo þeir, vid Hákon Adalsteins-fóstra, þá er hann baud oss þvílík bod, ok virdo vér þik ecki meira enn hann. En er Olafr Konúngr sá ædi bændanna, ok þat med, at þeir höfdo her sva mikinn, at ecki mátti vid-standa, þá veik hann sva rædunni, at hann snéri til samþyckis vid bændor, segir sva: ek vil at vér gerim sætt vora, sva sem vér hafom ádr lagt med oss, vil ek fara þar til, er þér hafit it mesta blót ydvart, ok sjá þar sido ydra; tökom þá rád vort um sidona, hverja vér viljom hafa, ok samþyckjom þá þat allir. En er Konúngr taladi linliga til bænda, þá mýkdoz hugir þeirra, ok fór sídan allt talit líkliga ok sáttgjarnliga; ok var þat rádit at lyktom, at vera skyldi midsumars blót inni á Mærinni, ok skyldo þar til koma allir höfdingjar ok ríkir bændor, sva sem sidvandi var til; þar skyldi ok koma Olafr Konúngr.

## Kap. LXXIII.

### Frá Járnskeggja.

Skeggi er nefndr ríkr bóndi; hann var kalladr Járn-Skeggi; hann bjó á Upp-

haugi á Yrjom. Skéggi taladi fyrst á þíngino í mót Olafi Konúngi, ok var mest fyrir bændom at mæla í móti kristninni. Þeir slito þíngino med þessom hætti; fóro þá bændor heim, en Konúngr á Hladir.

## Kap. LXXIV.
### Veizla á Hlødom.

Olafr Konúngr lá skipom sínom í Nid, ok hafdi 30 skipa, ok fritt lid ok mikit, en siálfr Konúngr var optliga á Hlødom, med hirdsveit sína. En er miøk leid at því, er blótit skyldi vera inn á Mærinni, þá gérdi Olafr Konúngr veizlo mikla á Hlødom, sendi bod inn á Strind ok upp í Gaulardal, ok út í Orkadal, ok baud til sín høfdingjom ok ødrom stórbændom. En er veizla var búin, ok bodsmenn hofdo til sótt, þá var þar et fyrsta qveld veizla føgr, ok veitt allkappsamliga; vóro menn miøk druknir. En eptir um nóttina sváfo allir menn þar í ró. Um morguninn eptir, er Konúngr var klæddr, lét hann syngja sér tídir, ok er messo var lokit, þá lét hann blása til húsþings: gengo þá allir menn hans af skipom ok fóro til þings. En er þing var sett; stód Konúngr upp, ok mælti sva: vér áttom þing inn á Frosto, baud ek þá búandom, at þeir skyldo láta skiraz; en þeir budo mér þar í mót, at ek skyldi hverfa til blóta med þeim, svá sem giørt hafdi Hákon Konúngr Adal-

steins-fóstri; kom þat ásamt med oss, at vér skyldom finnaz inn á Mœrinni, ok gêra þar blót mikit. En ef ek skal til blóta hverfa med ydr, þá vil ek gêra láta et mesta blót, þat sem tídt er, ok blóta mønnom; vil ek ecki til þess velja þræla edr íllmenni; skal til þess velja, at fá Godonnom ena ágætosto menn: nefni ek til þess Orm Lygro af Medalhúsom, Stirkár af Gimsom, Kár af Grýtingi, Asbjørn Þorbergsson af Ærnesi, Orm af Lyxo, Haldór af Skêrdingstedjo; ok þar med nefnir hann adra 5 þá er ágætastir vóro. Segir sva, at hann vill þessom blóta til árs ok fridar, ok lêt þegar veita þeim atgaungo. En er bændor sá, at þeir høfdo ecki lidskost vid Konúngi, þá bidja þeir sér grida, ok bjóda allt mál sitt á vald Konúngs. Semst þat á milli þeirra, at allir bændor, þeir er þar vóro komnir, lêto skiraz, ok veitto Konúngi svardaga til þess at halda rêtta trú, en leggja nidr blótskap allann. Hafdi Konúngr þá menn þessa alla í bodi sino, allt þar til er þeir fengo sono sina, eda brædor, edr adra náfrændor, í gisling til Konúngs.

## Kap. LXXV.

### Frá þingi í Þrándheimi.

Olafr Konúngr fór med øllo lidi sino inn í Þrándheim; en er hann kom inn á Mœri, þá vóro þar komnir allir høfdingjar Þrænda, þeir er þá stódo mest í móti kristninni, ok høfdo

þar

þar med sér alla stórbændor, þá er fyrr hefdo haldit upp blótom í þeim stad; var þar þá allfjølmennt af bændom, sem vandi var til, ok eptir því sem fyrr hafdi verit á Frosto þingi. Lét þá Konúngr krefja þings, ok gengo hvarirtveggjo med alvæpni til þings. En er þing var sett, þá taladi Konúngr, ok baud mennom kristni. Járnskéggi svarar máli Konúngs af hendi bænda, segir hann, at bændor vildo enn sem fyrr, at Konúngr bryti ecki løg á þeim; viljom vér, Konúngr, segir hann, at þú blótir, sem hér hafa gért adrir Konúngar fyrir þér. At hans rædo gérdo bændor mikinn róm, ok søgdo at þeir vildo allt véra láta, sem Skéggi mælti. Þá segir Konúngr, at hann vill fara í hofit med þeim, ok sjá sido þeirra, er þeir blóta. Bóandom líkar þat vel; fara þá til hoffins hvarirtveggjo.

## Kap. LXXVI.

### Kristnadr Þrándheimr.

Olafr Konúngr gengr nú í hofit ok fáir menn med hanom, ok fáir af bændom. En er Konúngr kom þar sem godin vóro, þá sat þar Þórr, ok var mest tignadr af øllom godom, búinn gulli ok sylfri. Olafr Konúngr hóf upp refdi gullbúit, er hann hafdi í hendi, ok laust Þór sva at hann fell af stallinom. Sídan ljópo at Konúngs menn, ok svipto ofan øllom godom af støllonom. En medan Konúngr var inni í hofino, þá var drepinn Járn-Skéggi úti fyrir

ir hofsdyronom, ok gérdo þat Konúngs-menn. En er Konúngr kom út til lids síns, þá baud hann bændom tva kosti, annann þann, at þeir skyldo þá allir vid kristni taka, en ad ødrom kosti halda vid hann bardaga. En eptir lát Skeggja, þá vard engi forgángs-madr at í bónda lidi, til at reisa merki í mót Olafi Konúngi. Vard hinn kostr upptekinn, at gánga til handa Konúngi, ok hlýda því er hann baud. Þá lét Olafr Konúngr skira fólk allt, þat er þar var, ok tók gisla af bóndom til þess, at þeir skyldo halda kristni sína. Sídan lét Olafr Konúngr fara menn sína um øll fylki í Þrándheimi; mælti þá engi madr í mót kristninni. Var þá skirt allt fólk í Þrændaløgom.

## Kap. LXXVII.

### Bæar-gérd.

Olafr Konúngr fór lidi sino út til Nidaróss; þá lét hann reisa þar hús á Nidarbacka, ok skipadi sva, at þar skyldi vera kaupstadr; gaf monnom þar tóptir til at géra sér þar hús, en hann lét géra Konúngs gard upp frá Skipa-krók; lét hann þannog flytja um haustit øll faung, þau er þurfti til vetrseto, ok hafdi þar allmikit fjølmenni.

## Kap. LXXVIII.

### Qvanfáng Olafs Konúngs.

Olafr Konúngr gérdi stefnolag frændom Járn-Skéggja, ok baud þeim bætor. En þar vóro til svara margir gøfgir menn. Járn-Skéggi átti dóttor, er Gudrún er nefnd; ok kom þat at lyktom í sáttmál þeirra, at Olafr Konúngr skyldi fá Gudrúnar. En er brullaups stefna sú kom, þá gengo þau í eina reckjo Olafr Konúngr ok Gudrún. En hina fyrstu nótt, er þau lágo bædi samt, þegar Gudrúno var grunr á at Konúngr væri sofnadr, þá brá hún knífi, ok vildi leggja at hanom; en er Konúngr vard þessa varr, tok hann knífinn frá henni, ok steig upp úr hvílunni, ok géck til manna sinna, ok sagdi hvat ordit hafdi. Tók Gudrún þá ok klædi sín, ok allir þeir menn er henni høfdo þannog fylgt; fóro þau í brott leid sína, ok kom Gudrún ecki sídan í sama reckjo Olafi Konúngi.

## Kap. LXXIX.

### Gjørr Traninn.

Þetta sama haust lét Olafr Konúngr reisa lángskip mikit út á eyronom vid Nid; þat var sneckja; hafdi hann þar til smidi marga; en øndverdann vetr var skipit algért, var þat þrítugt at rúmatali, stafnhátt ok ecki mikit í sér; þat skip kalladi Konúngr Tranann. Eptir dráp Járnskéggja var lík hans flutt út á Yrjar, ok liggr hann í Skéggjahaugi á Austrátt.

## Kap. LXXX.

### Þángbrandr fór til Islands.

Þá er Olafr Konúngr Tryggvason hafdi verit tvo vetor Konúngr at Noregi, var med hanom saxneskr Prestr, sá er nefndr er Þángbrandr; hann var ofstopa-madr mikill ok víga-madr, en klerkr gódr ok madr vaskr; en fyrir sakir úspektar hans, þá vildi Konúngr ekki hann med ser hafa, ok fèck hanom sendiferd þá, at hann skyldi fara til Islands ok kristna landit; var hanom kaupskip fengit, ok er frá hans ferd þat at segja, at hann kom til Islands í Austfjørdo, í Alptafjørd hinn sydra, ok var eptir um vetrinn med Halli á Sído. Þángbrandr bodadi kristni á Islandi, ok af hans ordom lét Hallr skíraz, ok hjón hans øll ok margir adrir høfdíngjar, en miklo fleiri vóro hinir er í móti mælto. Þorvaldr Veili ok Vetrlidi skáld orto níd um Þángbrand, en hann drap þá báda. Þángbrandr dvaldiz tvo vetor á Islandi, ok vard þriggja manna bani ádr hann fór í brott.

## Kap. LXXXI.

### Frá Hauki ok Sigurdi.

Sigurdr er madr nefndr, en annar Haukr; þeir vóro háleyskir, ok høfdoz mjøk í kaupferdom. Þeir høfdo farit eitt sumar vestr til Englands; en er þeir komo aptr til Noregs, þá sigldo þeir nordr med landi; en á Nord-

mæri

mæri urdo þeir fyrir lidi Olafs Konúngs. En er Konúngi var sagt, at þar vóro komnir nockorir menn háleyskir, ok vóro heidnir; þá lét Konúngr kalla styrimenn til sín. Hann spurdi þá ef þeir vildi skiraz láta? en þeir qveda þar nej vid. Sídan taladi Konúngr fyrir þeim á marga vega, ok stodadi þat ecki. Þá hét hann þeim dauda edr meidslom; þeir skipadoz ecki vid þat. Þá lét hann setja þá í járn, ok hafdi med sér nockora hríd, ok vóro þeir í fiøtrom haldnir. Konúngr taladi optliga fyrir þeim, ok týdi þat ecki. Ok á einni nótt hurfo þeir á brott, sva at engi madr spurdi til þeirra, edr vissi med hverjom hætti þeir komoz í brott. En um haustit komo þeir fram nordr med Hárecki í Þjótto; tók hann vel vid þeim; vóro þeir þar um vetrinn med hanom í gódo yfirlæti.

## Kap. LXXXII.

### Frá Hárecki í Þjótto.

Þat var um varit einn gódann vedrdag, at Hárekr var heima, ok fátt manna á bænom, ok þótti hanom daufligt. Sigurdr mælti vid hann, ef hann vill, at þeir rói nockot, ok skémti sér? þat líkar Hárecki vel; gánga sídan til strándar, ok draga fram 6æríng einn, tók Sigurdr úr naustino segl ok reida, er fylgdi skipino, sva sem þeir vóro optliga vanir at fara, at hafa segl er þeir fóro at skémta sér. Hárekr gèck á skip, ok lagdi styri í lag. Þeir Sigurdr

urdr brædor fóro med alvæpni, sva sem þeir vóro vanir jafnan heima at gánga med bóanda; Þeir vóro bádir manna sterkastir. En ádr þeir gengi út á skipit, kostodo þeir út smjørlaupom nockorom, ok braudkassi, ok báro milli sín mikla munngáts bytto á skipit. Sídan réro þeir frá landi; en er þeir vóro skamt komnir frá eyonni, þá færa þeir brædor segl upp, en Hárekr styrdi; bar þá brátt frá eyonni. Þá gánga þeir brædor aptr, þar til er Hárekr sat. Sigurdr mælti til Háreks bónda: nú skalto kjósa hér um kosti nockora: sá er enn fyrsti, at láta ockor brædor fyrir ferd varri ráda ok stefno; hinn er annar, at vid manom binda þik; sá er hinn þridji, at vid manom drepa þik. Hárekr sá þá hvernog komit var hans máli; hann var andvígr ecki betr enn ødrom þeirra brædra, ef þeir væri jambúir; kaus hann því þann af er honom þótti nockoro vildastr, at láta þá ráda fyrir ferdinni: batt hann þat svardøgom vid þá, ok seldi þeim trú sína til þess. Sídan géck Sigurdr til stjórnar, ok stefndi sudr med landi: gæta þeir brædor þess, at þeir skyldo hvargi menn finna; en byri gaf sem best. Létta þeir ferdinni ecki fyrr enn þeir koma sudr í Þrándheim, ok inn til Nidaróss, ok finna þar Olaf Konúng. Sídan lét Olafr Konúngr kalla Hárek á tal vid sik, ok baud honom at láta skiraz. Hárekr mælti í móti. Þetta tala þeir Konúngr ok Hárekr marga daga, stundom fyrir mørgom mønnom, en

en stundom í einmæli, ok kémr hér ecki ásamt. En at lyktom segir Konúngr Hárekí: nú skalto fara heim, ok vil ek ecki granda þér at sinni; heldr þat til, at frændsemi er mikil milli ockar, ok þat annat, at þú munt kalla, at ek hafa með svikom fengit þik. En vit þat til sanns, at ek ætla mér í sumar at koma nordr þannog, ok vitja ydar Háleygjanna; skulot þér þá vita, hvert ek kann ressa þeim er neita kristninni. Hárekr lét vel yfir því, at hann qvæmi sem fyrst þadan í brott. Olafr Konúngr féck Hárekí skúto góda, ok réro á bord 10 menn edr 12; lét þat skip búa sem best at ollom faungom. Konúngr féck Hárekí 30 manna vaskra drengja ok velbúinna.

## Kap. LXXXIII.

### Daudi Eyvindar Kinnrifo.

Hárekr or Þjótto ferr þegar í brott or bænom sem fyrst mátti hann, en þeir Haukr ok Sigurdr vóro med Konúngi, ok léto skíraz bádir. Hárekr fór leid sína, þar til er hann kom heim í Þjótto. Hann sendi þegar ord Eyvindi Kinnrifo vin sínom, ok bad sva segja hanom, at Hárekr or Þjótto hafdi fundit Olaf Konúng, ok hafdi ecki kúgaz látit til þess at taka vid kristni; hitt annat bad hann segja hanom, at Olafr Konúngr ætlar um sumarit at fara nordr þannig med her á hendor þeim; segir Hárekr at þeir mano þar verda varhuga vid

vid at gjalda; bad Eyvind koma sem fyrst á sinn fund. En er þessi erindi voro borin Eyvindi, þá sier hann at yfrin naudsyn mun til vera, at gèra þar fyrir þat rád, er þeir verdi ecki uppnæmir fyrir Konúngi. Ferr Eyvindr sem skyndiligaz med létti-skúto, ok fáir menn á; en er hann kom til Þjótto, fagnar Hárekr hanom vel, ok þegar skjótt gánga þeir á tal Hárekr ok Eyvindr, annan veg frá bænom. En er þeir hafa litla hríd talat, þá koma þar menn Olafs Konúngs, þeir er Háreki høfdo nordr fylgt, taka þá høndom Eyvind, ok leida hann til skips med sér, fara sídan í brott med Eyvind. Létta þeir ecki fyrr sinni ferd, en þeir koma til Þrándheims, ok finna Oláf Konúng í Nidarósi. Var þá Eyvindi fylgt til tals vid Olaf Konúng. Baud Konúngr hanom at taka skirn sem ødrom mønnom. Eyvindr qvad þar nej vid; Konúngr bad hann blídom ordom at taka vid kristni, ok segir hanom marga skynsemi, ok sva Biskup; Eyvindr skipadiz ecki vid þat. Þá baud Konúngr hanom gjafir ok veizlor stórar; en Eyvindr neiti øllu því. Þá hèt Konúngr hanom meidslom eda dauda; ecki skipadiz Eyvindr vid þat. Sídan lèt Konúngr bera inn munnlaug fulla af glódom, ok setja á qvid Eyvindi, ok braz brátt qvidrinn sundr. Þá mælti Eyvindr: takit af mér munnlaugina, ek vil mæla ord nockor áèr ek dey, ok var sva gèrt. Þá spurdi Konúngr: vilto nú, Eyvindr, trúa á Krist? nei! segir

hann, ek má enga skírn fá; ek em einn andi, qviknadr í manns líkam, med fjølkyngi Finna, en fadir minn ok módir fengo ecki fyrr barn átt. Sídan dó Eyvindr, ok hafdi verit hinn fjølkunngasti madr.

## Kap. LXXXIV.

### Kristnat Hálogaland.

En um varit eptir lét Olafr Konúngr búa skip sín ok lid, þá hafdi hann sjálfr Trønona; hafdi Konúngr þá mikit lid ok fridt; en er hann var búinn, héllt hann lidino út eptir firdi, ok sídan nordr fyrir Byrdo, ok sva nordr á Hálogaland. En hvar sem hann kom vid land edr eyjar, þá átti hann þíng, ok baud hann þar ello fólki, at taka skírn ok rétta trú; bar þá engi madr traust til at mæla í móti, ok kristnadiz þá land allt, þar sem hann fór. Olafr Konúngr tók veizlo í Þjótto at Háreks, þá var hann skírdr ok allt lid hans; gaf Hárekr Konúngi stórar gjafir at skilnadi, ok gérdiz hans madr, ok tók veizlor af Konúngi, ok lends manns rétt.

## Kap. LXXXV.

### Fall Þóris Hjartar.

Raudr hinn Rammi er nefndr bóndi einn, er bjó í firdi þeim er Salpti heitir, í Godey. Raudr var madr størraudigr, ok hafdi

hafdi marga húskarla; hann var ríkr madr; fylgdi hanom mikill fjøldi Finna, þegar er hann þurfti. Raudr var blótmadr mikill, ok mjøk fjølkunnigr; hann var vin mikill þess manns, er fyrr var nefndr, Þórir Hjørtr. Vóro þeir bádir høfdingjar miklir. En er þeir spurdo at Olafr Konúngr fór med her manns sunnan um Hálogaland, þá samna þeir her samann, ok bjóda skipom út, ok fá lid mikit. Raudr hafdi dreka mikinn ok gullbúinn høfot á, var þat skip þrítugt at rúmatali, ok mikit at því. Þórir Hjørtr hafdi ok mikit skip; þeir halda lidi því sudr í móti Olafi Konúngi, ok þegar er þeir hittaz, leggja þeir til orrosto vid Konúng; vard þar mikill bardagi, ok gérdiz brátt mannfall, ok snéri því í lid Háleygja, ok rudoz skip þeirra; ok þvi nærst sló á þá felmt ok ótta. Reri Raudr med dreka sinn út til hafs, ok því nærst lét hann draga upp segl sitt. Raudr hafdi jafnan byr, hvert er hann vildi sigla, ok var þat af fjølkyngi hans; er þat at segja skjótaz af ferd Rauds, at hann sigldi heim í Godey. Þórir Hjørtr flýdi inn til lands, ok ljópo þar af skipom. En Olafr Konúngr fylgdi þeim, ljópo þeir ok af skipom ok ráko þá ok drápo. Vard Konúngr enn fremstr sem jafnan, þá er slikt skyldi þreyta; Konúngr sá hvar Þórir Hjørtr ljóp; hann var allra manna fóthvatastr; Konúngr rann eptir hanom, ok fylgdi hanom Vigi hundr hans. Þá mælti Konúngr: Vigi! tak hjørtinn. Vigi ljóp fram eptir

Þóri ok þegar uppá hann. Þórir nam stad vid, þá skaut Konúngr kesjo at Þóri; Þórir lagdi sverdi til hundsins, ok veitti honom sár mikit, en jamnskjótt fló kesja Konúngsins undir hönd Þóri, sva at út stód um adra sídona; lét Þórir þar líf sitt, en Vigi var borinn sárr til skipa. Olafr Konúngr gaf grid ollom monnom þeim er bádo, ok kristni vildo taka.

## Kap. LXXXVI.

### Ferd Olafs Konúngs til Godeya.

Olafr Konúngr hèllt lidi síno nordr med landi, ok kristnadi allt fólk, þar sem hann fór; en er hann kom nordr at Salpti, ætladi hann at fara inn í fjordinn, ok finna Raud; en hret vedrs ok staka-stormr lá innan eptir firdi, ok lá Konúngr þar til viko, ok hèllz et sama hreggvidri innan eptir firdinom, en et ytra var bláfaudi byrr at sigla nordr med landi. Sigldi þá Konúngr allt nordr í Omd, ok géck þar allt fólk undir kristni. Sídan snýr Konúngr ferd sinni aptr sudr; en er hann kom nordan at Salpti, þá var regg vedrs út eptir firdi ok sjádrif; Konúngr lá þar nockorar nætor, ok var vedr et sama. Þá taladi Konúngr vid Sigurd Biskup, ok spurdi eptir ef hann kynni þar nockot rád tilleggja. Biskup sagdi at hann mundi freista, ef Gud vill sinn styrk tilleggja, at sigra þenna fjanda krapt.

Kap.

## Kap. LXXXVII.
### Frá Sigurdi Biskupi ok píníngo Rauds.

Sigurdr Biskup tók allann messo-skrúda sinn, ok gèck fram í stafn á Konúngs skipi, lèt tendra kérti, ok bar reykelsi; setti rôdokross upp í stafninn; las þar gudspjall ok margar bœnir; støkdi vígdo vatni um allt skipit, sídan bad hann taka af tjøldin, ok róa inn á fjørdinn. Konúngr lèt þá kalla til annara skipa, at allir skyldo róa inn á fjørdinn eptir hanom. En er rôdr var greiddr á Trønunni, þá gèck hún inn á fjørdinn, ok kéndo þeir enganu vind á sèr, er því skipi réro, ok sva stód tóptin eptir í varrsilganum, at þar var logn. En sva laust sjárokan brott frá tveggja vegna, at hvergi sá fjøllin fyrir. Reri þá hvert skip eptir ødro þar í logninu; fóro þeir sva allann dag, ok eptir um nóttina, komo litlo fyrir dag inn í Godeyar. En er þeir komo fyrir bœ Rauds, þá flaut þar fyrir landi dreki hans sá inn mikli. Olafr Konúngr gèck þegar upp til bœarins med lid sitt, veitti þar atgaungo lopti því, er Raudr svaf í, ok bruto upp; hljópo menn þar inn; var þá Raudr handtekinn ok bundinn, en drepnir þeir menn adrir er þar vóro inni, en sumir handteknir. Þá gengo Konúngs menn at skála þeim er húskarlar Rauds sváfo í, vóro þar sumir drepnir, en sumir bundnir, sumir bardir. Lèt

þá Konúngr leida Raud fyrir sik, ok baud hanom at láta skíraz; mun ek þá, segir Konúngr, ecki taka af þér ego þína, vera heldr vin þinn, ef þú kannt tilgæta. Raudr æpti á móti því, segir, at aldri skyldi hann á Krist trúa, ok gudlastadi mjøk. Konúngr vard þá reidr, ok sagdi, at Raudr skyldi hafa hinn versta dauda. Þá lét Konúngr taka hann ok binda opinn á slá eina, lét setja kefli á millom tanna hanom, ok lúka sva upp munninum; þá lét Konúngr taka lyngorm einn, ok bera at munni hanom, en ormrinn vildi ecki í munninn, ok reyktiz frá í brott, því Raudr blés á móti hanom. Þá lét Konúngr taka hvannnjóla trumbo, ok setja í munn Raudi; en sumir menn segja, at Konúngr léti lúdr sinn setja í munn hanom, ok lét þar í orminn; lét sídan bera at utan slá-járn glóanda; røkdiz þá ormrinn í munn Raudi, ok sídan í hálsinn, ok skar út um sídona; lét Raudr þar líf sitt. Olafr Konúngr tók þar ofa mikit fé í gulli ok sylfri, ok ødro lausafé, í vapnom ok margskonar dýrgripom. En menn alla þá er fylgt høfdo Raudi lét Konúngr skíra, en þá er þat vildo ecki, lét hann drepa edr qvelja. Þá tók Olafr Konúngr dreka þann, er Raudr hafdi átt, ok stýrdi sjálfr, þvíat þat var miklo meira skip ok frídara enn Tranan; fram var á dreka høfot, en aptr krókr, ok fram af sem spordr; ok hvartveggi svírinn, ok allr stafninn var med gulli lagdr; þat skip kalladi Konúngr Orm-

Orminn; þvíat þá er segl var á lopti, skyldi þat vera fyrir vængi drekans; var þetta skip fríðaz í Noregi øllom. Eyar þær er Raudr bygdi héto Gilling ok Hæring, en allar saman heita þær Godeyar, ok Godeya-straumr fyrir nordan, ok milli meginlands. Olafr Konúngr kristnadi fjørd þann allann; ferr sídan leid sína sudr med landi, ok vard í þeirri ferd margt til tídinda, þat er í frásøgn er fært, er troll ok íllar vættir glettoz vid menn hans, ok stundom vid hann sjálfann. En vér viljom hit heldr rita um þá atburdi, er Olafr Konúngr kristnadi Noreg, edr ønnor þau lønd, er hann kom kristni á. Olafr Konúngr kom lidi sino þat sama haust í Þrándheim, ok hèllt til Nidaróss, ok bjó sér þar til vetrseto. Þat vil ek nú nærst rita láta, at segja frá íslendskom mønnom.

## Kap. LXXXVIII.

### Frá Jslendingom.

Þetta sama haust komo til Nidaróss utan af Jslandi, Kjartan Olafsson Høskuldssonar, ok dóttorson Egils Skallagríms-sonar, er einn hefir kalladr verit mannvænstr madr, þeirra er fædst hafi á Jslandi. Þar var þá ok Haldór son Gudmundar á Mødruvøllom, ok Kolbeinn son Þórdar Freysgoda, bródor Brenno-Flosa; ok Sverttingr son Runólfs Goda: þessir vóro allir heidnir; ok margir adrir, sumir ríkir, en sumir úríkir.

Þá komo ok af Islandi gøfgir menn, er kristni høfdo tekit af Þángbrandi, Gissor Hvíti son Teits Ketilbjarnarsonar; en módir hans var Alof, dóttir Bødvars Hersis, Víkinga-Kárasonar; bródir Bødvars var Sigurdr, fadir Eiriks Bjódaskalla, fødor Astridar, módor Olafs Konúngs. Hjalti hét madr íslendzkr Skeggjason; hann átti Vilborgo dóttor Gissorar Hvíta; Hjalti var ok kristinn madr, ok tók Olafr Konúngr feginsamliga vid þeim mágom Gissori ok Hjalta, ok vóro þeir med hanom. En þeir íslendskir menn er fyrir skipom rédo, ok heidnir vóro, þá leitado þeir til brottsiglingar, þegar er Konúngr var í bænom; þvíat þeim var sagt, at Konúngr naudgadi øllom til kristni; en vedr géck í þrá þeim, ok rak þá aptr undir Nidarhólm. Þeir rédo þar fyrir skipom Þórarinn Nefjúlfsson, Hallfredr skáld Ottarsson, Brandr hinn Ørvi, Þórleikr Brandsson. Þetta var sagt Olafi Konúngi, at Islendíngar vóro þar nockorom skipom, ok heidnir allir, ok vildo flýja fund Konúngs. Þá sendi Konúngr menn til þeirra, ok bannadi þeim braut at halda; bad þá leggja inn til bæar, ok gørdo þeir sva, en báro ecki af skipom sínom. Þeir átto kaupstefno, ok héldo torg vid Konúngs bryggjor. Um varit leitodo þeir til brautsiglingar þrisvár, ok gaf þeim aldri, ok lágo vid bryggjor. Þat var einn gódann vedrdag, at margir menn fóro á sund, ok skémta sér; einn var sá madr, er

þar

þar bar lángt af ǫdrom of allar íþróttir. Kjartan mælti vid Hallfred Vandrædaskáld, at hann skyldi reyna sund vid þennann mann; en hann telz undan. Kjartan mælti: ek skal þá freista; kastar af sér klædonom, ok verpr sér á sund; legdz at þessom manni, ok grípr um fót hanom, ok færir hann nidr; koma upp; ok hǫfdoz engi ord vid: fara nidr ǫdro sinni, ok ero miklo lengr nidri, enn hit fyrra sinn; koma enn upp, ok þegja; fara þegar nidr þridja sinni, þar til er Kjartani þykir allt mál upp, ok er þá ecki þess kostr, ok kénnir þá afls-munar; ero nidri, þar til er Kjartan er mjǫk þrotinn; koma þá upp ok leggjaz at landi; spyrr hinn norræni madr, hverr Islendíngr væri at namni? Kjartan nefnir sik; hinn mælti: þú ert vel sundfær; edr ertu íþróttamadr at fleirom lutom? Kjartan svarar: þat er lítil íþrótt. Hinn Norræni mælti: hví spyrdo einkis í mót? Kjartan svarar: ek ætla mik engo skipta, hverr þú ert, edr hvat þú heitir. Hinn svarar: ek mon þá segja þér; hér er Olafr Tryggvason. Hann spurdi Kjartan margs af Islandi; en hann segir allt of léttliga. Sidan ætlar Kjartan braut at gánga skjótliga. Konúngr mælti: hér er skickja, er ek vill géfa þér Kjartan, en Kjartan þá skickjona, ok packadi hanom forkunnar vel.

## Kap. LXXXIX.
### Skírdir íslendskir menn.

Þá kom Michjáls-messa; lét Konúngr þá halda mjök til, at syngja messó hátidliga. Islendíngar gengo til, ok hlyddo saung fögrom, ok klucknahljódi. En er þeir komo til skipa sinna, sagdi hverr þeirra hvernig líkat hafdi atferd kristinna manna. Kjartan lét vel yfir, en flestir adrir löstodo. En sva fór þar, sem mælt er: at mörg ero Konúngs eyro. Var Konúngi þetta sagt. Þá gérdi hann þegar um daginn mann eptir Kjartani, ok bad hann koma til sín. Kjartan géck til Konúngs med nockora menn; Konúngr fagnadi hanom vel. Kjartan var allra manna mestr ok frídastr, ok vel ordi farinn; en er þeir Konúngr höfdo fám ordom vidskiptz, þá baud Konúngr Kjartani at taka vid kristni. Kjartan segir, at hann vill því ecki neita, ef hann skal þá hafa vinátto Konúngs; Konúngr heitir hanom vinátto sinni fullkominni, ok semja þeir Kjartan þá sáttmál milli sín. Annann dag eptir var Kjartan skírdr, ok Bolli Þorleiksson frændi hans, ok allt föroneyti þeirra. Var Kjartan ok Bolli í bodi Konúngs, medan þeir varo í hvítavadom, ok var Konúngr allkjærr til þeirra, ok þótto þeir ágætir menn, hvar sem þeir komo.

Kap.

## Kap. XC.

### Skírdr Hallfredr Vandrædaskáld.

Olafr Konúngr gèck einn dag úti á stræti, en menn nockorir gengo í móti hanom, ok sá er fyrstr gèck, fagnadi Konúngi. Konúngr spurdi þann mann at nafni; sa nefndiz Hallfredr. Þá mælti Konúngr: erto skaldit? hann sagdi: kann ek yrkja. Þá mælti Konúngr: þú mant vilja taka kristni, ok gèraz sídan minn madr? hann segir: kostr skal á því vera, at ek man skíraz láta, ef þú, Konúngr, veitir mér siálfr gudsifjar; af engom manni ödrom vil ek þat þyggja. Konúngr svarar: ek vil þat-gèra. Var þá Hallfredr skírdr, ok héllt Konúngr hanom undir skírn. Sídan spurdi Konúngr Hallfred: vilto nú gèraz minn madr? Hallfredr sagdi: ek var fyrr hirdmadr Hákonar Jarls; nú vil ek ecki gèraz þér handgenginn, ok engom ödrom höfdíngjom, nema þú heitir mér því, at mik hendi enga þá hluti, er þú rekir mik frá þér. Sva at eino er mér sagt, segir Konúngr, at þú ert ecki sva vitr eda spakr, at mér er örvænt, at þú gèrir þá hluti, er ek vil fyrir engann mun vidsæma. Drepto mik þá, segir Hallfredr. Konúngr mælti: þú ert Vandrædaskáld, en minn madr skalto nú vera. Hallfredr svarar: hvat gèfr þú, Konúngr, mér at nafnfesti, ef ek skal heita Vandrædaskáld? Konúngr gaf hanom sverd, ok fylgdi engi umgèrd. Konúngr mælti: yrk nú víso um sverdit, ok lát sverd vera í hverjo víso ordi. Hallfredr qvad: Eitt

Eitt er sverd þat er sverda
Sverdaudgan mik gerdi
Fyrir svip-njørdom sverda
Sverdótt mun nú verda.
Mana van-sverdat verda,
Verdr em ek þriggja sverda,
Jardar leggs ef yrdi
Umgerd at því sverdi.

Þá fèck Konúngr hanom umgérd ok mælti: ecki er sverd í hverjo vísu ordi. Hallfredr svarar: þrjú ero ok í eino. Sva er þat, segir Konúngr. Af Hallfredar qvædom tøkom vér hellz vísindi, ok sannindi, þat er sagt er frá Olafi Konúngi Tryggvasyni.

## Kap. XCI.

### Þángbrandr kom aptr frá Islandi til Olafs Konúngs.

Þetta sama haust kom Þángbrandr Prestr aptr af Islandi til Olafs Konúngs, ok sagdi sínar farar ecki sléttar; segir at Islendíngar hefdi gért níd um hann, en sumir vildo drepa hann, ok lét enga von, at þat land mundi kristit verda. Olafr Konúngr vard sva ódr ok reidr, at hann lét blása ollom íslendskom mønnom saman, þeim er þar vóro í bænom, ok mælti sídan, at alla skyldi drepa. En Kjartan ok Gissor ok Hjalti, ok adrir þeir er þá høfdo vid kristni tekit, gengo til hans, ok mælto: ecki manto, Konúngr! vilja sva gánga á bak ordom þínom, þvíat þú mælir sva, at engi madr skal sva mikit hafa gért til reidi þinnar, at ecki vilto þat uppgéfa, þeim er skiraz vilja, ok láta af heidni.

heidni. Nú vilja þessir allir íslendskir menn, er hér ero nú, skíraz láta. En vér manom finna bragd þat til, er kristni mun vidgángaz á Islandi. Ero hér margra ríkra manna synir af Islandi, ok mano fedor þeirra mikit lidsinni veita at þesso máli. En Þángbrandr Prestr fór þar, sem hér med ydr, vid ofstopa ok manndráp, ok þolto menn hanom þar ecki slíkt. Tók þá Konúngr at lyda á slíkar rædor. Vóro þá skírdir allir íslendskir menn, þeir sem þar vóro þá.

## Kap. XCII.

### Frá íþróttom Olafs Konúngs.

Olafr Konúngr var mestr íþrótta-madr í Noregi, þeirra er menn hafa frásagt, um alla luti; hverjom manni var hann sterkari ok fimari, ok ero of þat margar frásagnir ritadar. Ein sú, er hann géck í Smalsarhorn, ok festi þar upp skjøld sinn í ofanverdt bjargit; ok enn þat, er hann hjálp hirdmanni sínom, þeim er ádr hafdi klifit bjargit, sva at hverki mátti hann komaz upp né ofan; en Konúngr géck til hans, ok bar hann undir hendi sér allt ofan á jøfno. Olafr Konúngr géck eptir árom útbyrdis, er menn hans réro á Orminom. Ok hann lék á þrimr handsøxom, sva at jafnan var eitt á lopti, ok hendi æ medalkaflann; hann géck fyrir bord á skipi síno; hann va jafnt bádom høndom, ok skaut tveimr spjótom senn. Olafr Konúngr var allra manna gladastr ok leikinn mjøk, blídr ok lít-

illátr, ákafamadr mikill of alla luti, stórgjøfull, suudrgerda-madr mikill; fyrir øllom mønnom um frœknleik í orrosto; allra manna grimmastr, þá er hann var reidr, ok qvaldi úvini sína mjøk; suma brendi hann í eldi; suma lét hann ólma hunda rifa í sundr; suma lemja edr kasta fyrir håbjørg: vóro af þeim søkom vinir hans ástúdgir mjøk vid hann, en úvinir hans hrœddoz vid hann; var því mikil framqvœmd hans, at sumir gérdo hans vilja med blído ok vinátto, en sumir fyrir rœdslosakir.

## Kap. XCIII.

### Skirdr Leifr Eiríksson.

Leifr son Eiríks Rauda, þess er fyrstr bygdi Grœnland, var þetta sumar kominn af Grœnlandi til Noregs, fór hann á fund Olafs Konúngs, ok tók vid kristni; ok var um vetrinn med Olafi Konúngi.

## Kap. XCIV.

### Fall Gudrødar Konúngs Gunnhildar sonar.

Gudrødr son Eiríks Blódøxar, ok Gunnhildar Konúnga-módor, hafdi verit í hernadi í vestrløndom sídan er hann flýdi land fyrir Hákoni Jarli. En á þesso sumri er nú er ádr frásagt, þá er Olafr Konúngr Tryggvason hafdi 4 vetor rádit fyrir Noregi, þá kom

Gudrødr til Noregs, ok hafdi mørg herſkip; hann hafdi þá ſiglt út af Englandi; ok er hann kom í landvon vid Noreg, þá ſtefndi hann ſudr med landino, þángat er hanom var minni von Olafs Konúngs; ſiglir Gudrødr ſudr til Víkurinnar. En þegar er hann kom til lands, tók hann at herja ok brjóta undir ſik landsfólk, en beiddi ſér vidtøko. En er landsmenn ſá at herr mikill var kominn á hendor þeim, þá leita menn ſér grida ok ſætta, ok bjóda Konúngi, at þíngbod ſkuli fara yfir land, ok bjóda hanom heldr vidtøko, enn þola her hans; ok væri þar løgd freſt á, medan þíngbod færi yfir; krafdi þá Konúngr viſtagjalds, medan ſú bidandi ſkyldi vera. En bændor kjóſa hinn koſt heldr, at búa Konúngi veizlor, þá ſtund alla, er hann þurfti til þeſs; ok tók Konúngr þann koſt, at hann fór um land at veizlom med ſumt lid ſitt, en ſumt gætti ſkipa hans. En er þetta ſpyrja þeir brædor Hyrníngr ok Þorgeirr, mágar Olafs Konúngs, þá ſamna þeir ſér lidi, ok ráda ſér til ſkipa; fara ſídan nordr í Víkina, ok koma á einni nótt, med lidi ſíno, þar ſem Gudrødr Konúngr var á veizlo; veita þar atgaungo med eldi ok vapnom; féll þar Gudrødr Konúngr, ok fleſtallt lid hans. En þat er á ſkiponom hafdi verit, var ſumt drepit, en ſumt komz undan ok flýdi víds vegar. Vóro þá daudir allir ſynir Eiríks ok Gunnhildar.

U Kap.

## Kap. XCV.

### Gjørr Ormrinn Lángi.

Hann vetr eptir, er Olafr Konúngr hafdi komit af Hálogalandi, lét hann reisa skip mikit inn undir Ladhömrom, pat er meira var miklo, enn onnor. þau skip, er þá vóro í landino, ok ero enn þar backastockar, sva at sjá má; þat var at lengd fjórar álnar hins átta tígar, er graslægt var. Þorbergr Skafhøgg, er nefndr sá madr, er stafnasmidr var at skipino; en þar vóro margir adrir at; sumir at fella, sumir at telgja, sumir saum at slá, sumir til at flytja vido: vóro þar allir lutir vandadir mjek til: var skipit bædi lángt ok breidt, ok bordmikit, ok stórvidat. En er þeir báro skipit bordi, þá átti Þorbergr naudsynja erindi at fara heim til bús sins, ok dvaldiz þar mjek lengi. En er hann kom aptr þá var skipit fullborda. Fór Konúngr þegar um qveldit, ok Þorbergr med hanom, ok sjá þá skipit, hvernog ordit var: ok mælti hverr madr, at aldri hefdi sjed lángskip jam-mikit, edr jam-frídt.: ferr þá Konúngr aptr í bæinn. En snemma eptir um morguninn, ferr Konúngr enn til skipsins, ok þeir Þorbergr; vóro þá smidar þar ádr komnir; stódo þeir allir ok hefdoz ecki at. Konúngr spurdi: hví þeir færi sva? þeir segja, at spillt var skipino, ok madr mundi gengit hafa ødromegin frá stafni til lyptingar, ok sett í bordit ofan hvert skyli-hogg at ødro. Geck Kon-

Konúngr þá til, ok sá at satt var; mælti þegar, ok svardi um, at sá madr skyldi deya, ef Konúngr vissi, hverr fyrir øfundar-sakir hefdi spillt skipino: en sá er mér kann þat segja, skal mikil gœdi af mér hljóta. Þá segir Þorbergr: ek mun kunna segja ydr, Konúngr, hver þetta verk mun gért hafa. Mér er ecki þess at ødrom manni meiri von, segir Konúngr, at þetta happ muni henda, enn at þér, at verda þess vís, ok kunna mér segja. Segja mun ek þér, Konúngr, sagdi hann, hver gërt hefir, ek hefi gërt. Þá svarar Konúngr: þá skalto bæta, sva at jamvel sé sem ádr var, þar skal líf þitt vidliggja. Sidan gëck Þorbergr til ok telgdi bordit, sva at øll gengo or skyli-høggin. Konúngr mælti þá, ok allir adrir, at skipit væri miklo fridara á þat bord, er Þorbergr hafdi skorit; bad Konúngr hann þá sva gëra á bædi bord, ok bad hann hafa mikla þøck fyrir. Var þá Þorbergr høfotsmidr fyrir skipino, þar til er algjørt var; var þat dreki, ok gërr eptir því, sem dreki sá, er Konúngr hafdi haft af Háleygalandi, en þetta skip var miklo meira, ok at øllom lutom meir vandat. Konúngr kalladi þetta skip Orm hinn Lánga, en hinn Orm inn Skamma. Á Orminom Lánga vóro 4 rúm ok 30. Høfudit ok krókrinn var allt gullbúit: sva vóro há bordin sem á hafskipom. Þat hefir skip verit best gërt, ok med mestom kostnadi í Noregi.

## Kap. XCVI.

### Frá Eiríki Jarli Hákonarsyni.

Eiríkr Jarl Hákonarson ok brædor hans, ok margir adrir gofgir menn, frændor þeirra, fóro af landi á brott, eptir fall Hákonar Jarls. Fór Eiríkr Jarl austr í Sviþjód, á fund Olafs Svía-konúngs, ok fengo þeir þar gódar vidtøkor. Veitti Oláfr Konúngr þar Jarli fridland, ok veizlor stórar, sva at hann mátti þar vel halda sik í landi, ok lid sitt. Þess getr Þórdr Kolbeinsson:

Meinrennir brá manna, etc. (sjá bls. 262.)
Hafdi ser vid særi, etc. (sjá somu bls.)

Lid mikit sotti af Noregi til Eiríks Jarls, þat er landflótta vard fyrir Olafi Konúngi Tryggvasyni; tók Eiríkr Jarl þá þat ráð, at hann réd sér til skipa, ok fór í hernad, at fá sér fjár ok lidi síno. Hann héllt fyrst til Gotlands, ok lá þar vid lengi um sumarit, ok sætti þar kaupskipom, er sigldo til landsins, edr víkingom; stundom gèck hann uppá landit, ok herjadi þar vída med sjánom. Sva segir í Banda-drápo:

Mærr vann miklo fleiri
Málm hríd jofurr sídan
Adr fragom þat adra
Eiríkr und sik geira
Þá er gard vala gerdi
Gotland vala straudar
Virvils vítt of herjat
Vedrmildr ok semr hildi.

Sídan sigldi Eiríkr Jarl sudr til Vindlands, ok hitti hann fyrir Staurinom víkinga skip

nock-

nockor, ok lagdi til orrosto vid þá: þar fick Eirikr Jarl sigr, en drap víkingana. Sva segir í Banda-drápo:

Stærir let at Stauri Sleit at sverda móti
Stafn vigg í høfn liggja Svørd víkinga hørdo
(Gramr vælti sva gumna) Unda már fyrir eyri;
Gunnblidr ok red sídan. Jarl Gud vordo hjarli.

## Kap. XCVII.

### Hernadr Eiriks í Austrveg.

Eiríkr Jarl sigldi um haustit aptr til Svíþjódar, ok var þar vetr annann; en at vári bjó hann her sinn, ok sigldi sídan í Austrveg. En þá er hann kom í ríki Valdimars Konúngs, tók hann at herja ok drepa mannfólkit, ok brenna allt þar sem hann fór, ok eyddi landit; hann kom til Aldeigjoborgar, ok settiz þar um, þar til er hann vann borgina, drap þar margt fólk, en braut ok brendi borgina alla, ok sídan fór hann vída herskildi um Gardaríki. Sva segir í Banda-drápo:

Oddhrídar fór eyda Aldeigjo braust ægir
Ox hríd at þat sídan (Os nunnaz skil) gunna
Log fágandi lægis (Sú vardhildr med holdom
Land Valdamars brandi. Hord) komto austr í Gards.

Eiríkr Jarl var í þessom hernadi ellom samt 5 sumor; en er hann kom or Gardaríki, fór hann herskildi um alla Adalsýslo ok Eysýslo, ok þar tók hann 4 víkinga skeidor af Dønom, ok drap allt af. Sva segir í Banda-drápo:

Frá ek hvar fleina sævar
Fur herdir styr gerdi
Endr í eyasundi
Eiríkr und sik geira.
Raud fur gjafall fjórar
Fólk meidr Dana skeidar
(Ver frágom þat) vaga
Vedr mildr ok seimr hildi.

Attot hjaldr þar er høldar
Hlunn viggs í bæ runno
Sæti njørdr vid Sauta
Gunnblidr ok red sídan.
Herskildi fór hildar
(Hann þverdi frid manna)
Afs ok allar sýslor
Jarl gud verdo hjarli.

Eiríkr Jarl fór til Danmerkor, þá er hann hafdi einn vetr verit i Svia-veldi; hann fór á fund Sveins Tjúguskeggs Dana Konúngs, ok bad til handa ser Gydo dóttor hans, ok var þat at ráđi gërt; fécк þá Eiríkr Jarl Gydo. Vetri sídar átto þau son er Hákon hét. Eiríkr Jarl var á vetrom i Danmørk, en stundom í Svía-veldi, en í hernadi á sumrom.

## Kap. XCVIII.

### Kvanfáng Sveins Konúngs.

Sveinn Dana-konúngr Tjúguskegg átti Gunnhildi, dóttor Burislafs Vinda-konúngs. En í þenna tima, sem nú var ádr frásagt, var þá þat til tídinda at Gunnhildr drottníng tók sótt ok andadiz, en litlo sídar fécк Sveinn Konúngr Sigridar hinnar Stórrádo, dóttor Skøglar-Tosta, módor Olafs ens Sænska Svía-konúngs. Tókoz þar þá med tengdom Konúnga kærleikar, ok med øllom þeim Eiríki Jarli Hákonarsyni.

## Kap. XCIX.

### Kvanfáng Burisleifs Konúngs.

Burislafr Vinda-konúngr kærdi mál þat fyrir Sigvalda Jarli mági sínom, at sættargérd sú var rofin, er Sigvaldi Jarl hafdi gért milli Sveins Konúngs ok Burislafs Konúngs, er Burislafr Konúngr skyldi fá Þyri Haraldsdóttor, systor Sveins Konúngs; en þat rád hafdi ecki framgengit, þvíat Þyri setti þar þvert nej fyrir, at hún mundi giptaz vilja Konúngi heidnom ok gomlom. Nú segir Burislafr Konúngr Jarli, at hann vilji heimta þann máldaga, ok bad Jarl fara til Danmerkur, ok hafa Þyri drottníngo til sín. Sigvaldi Jarl lagdiz þá ferd ecki undir höfot, ok fer á fund Sveins Dana-konúngs, ok ber þetta mál upp fyrir hann; ok kémr Jarl sva fortölom sínom, at Sveinn Konúngr fær í hendor hanom Þyri systor sína, ok fylgdi henni konor nockorar, ok fóstrfadir hennar, er nefndr er Ozorr Akason, ríkr madr ok nockorir menn adrir; kom þat í einkamál med Konúngi ok Jarli, at eignir þær í Vindlandi, er átt hafdi Gunnhildr drottníng, skyldi þá hafa Þyri til eignords, ok þar med adrar stórar eignir í tilgjöf sína. Þyri grét sárliga, ok fór mjök naudig. En er þau Jarl komo í Vindland, þá gérdi Burislafr Konúngr brullaup sitt, ok feck Þyri drottníngar. En er hún var med heidnom mönnom, þá vildi hún hvarki þyggja mat

nè dryck at þeim, ok fór sva fram sjø nætor.

## Kap. C.

### Olafr Konúngr fèck Þyri drottníngar.

En þá var þat á einni nótt, at Þyri drottníng ok Øzorr ljópoz í brott í nátt-myrkri, ok þegar til skógar; er þat skjótaz af þeirra ferd at segja, at þau koma fram í Danmørk, ok þorir Þyri þar fyrir engan mun at vera, fyrir þá sok, at hon veit, ef Sveinn Konúngr bródir hennar spyr til hennar þar, at hann mun skjótt senda hana aptr til Vindlands. Fara þau allt huldo høfdi, þar til er þau kome í Noreg; létti Þyri ecki ferdinni, fyrr enn þau koma á fund Olafs Konúngs: tók Konúngr vid þeim vel, ok vóro þau þar í gódom fagnadi. Sagdi Þyri Konúngi allt um sin vandrædi. ok bidr hann hjálp ráda, ok fridar í hans ríki. Þyri var kona ordsnjøll, ok virdiz Konúngi vel rædor hennar. Sá hann, at hon var frid kona, ok kèmr í hug, at þetta mani vera gott qvanfáng, ok víkr þannoq rædunni, ok spyr ef hon vill giptaz hánom. En sva sem þá var hennar rádi komit, þótti henni vandi mikill or at ráda; en í annan stad sá hon hvarso farsælligt gjaford þetta var, at giptaz sva ágætom Konúngi, ok bad hann ráda fyrir sér ok síno rádi. Ok sva sem um þetta var talat, þá fèck Olafr Konúngr Þyri drottníngar. Þetta brullaup var gèrt um haustit, þá er Kon-

Konúngr hafdi komit nordan af Hálogalandi. Var Olafr Konúngr ok Þyri drottning í Nidarósi um vetrinn. En eptir um varit þá kærdi Þyri drottning opt fyrir Olafi Konúngi, ok grét sárliga, þat er eignir hennar vóro sva miklar í Vindlandi, en hon hafdi ecki fjárlut þar í landi, sva sem drottníngo sæmdi: stundom bad hon Konúng fegrom ordom, at hann skyldi fá henni eign sína; segir, at Burislafr Konúngr var sva mikill vin Olafs Konúngs, at þegar er þeir fynniz, mundi Konúngr fá Olafi Konúngi allt þat er hann beiddiz. En er þessar rædo urdo varir vinir Olafs Konúngs, þá letto allir Konúng þessarar farar. Sva er sagt, at þat var einn dag snimma um varit, at Konúngr gékk eptir stræti, en vid torg gékk madr í móti hánom med hvannir margar, ok undarliga stórar þann tíma várs. Konúngr tók einn vann-njóla, mikinn í hönd sér, ok gékk heim til herbergis Þyri drottníngar; Þyri sat inn í stofunni, ok grét er Konúngr kom inn. Konúngr mælti: sje hér hvann-njóla mikinn drottníng, er ek géf þér; hon laust vid hendinni, ok mælti: stærrom gaf Haraldr Gormsson, en minnr ædradiz hann at fara af landi, ok sækja eign sína, enn þú gérir nú; ok reyndiz þat þá, er hann fór híngat í Noreg, ok eyddi mestan luta lands þessa, en eignadiz allt at skyldom ok skøttom; en þú þorir ecki at fara í gégnum Dana-veldi fyrir Sveini Konúngi bródor mínom. Olafr Konúngr ljóp upp

 vid,

vid, er hon mælti þetta, ok mælti hátt, ok svardi vid: aldrei skal ek hræddr fara fyrir Sveini Konúngi bródor þínom, ok ef ockrir fundir verda, þá skal hann fyrir láta.

## Kap. CI.

### Utbod Olafs Konúngs.

Olafr Konúngr stefndi þíng í bænom litlo sídar: hann gérdi þá bert fyrir allri alþýdo, at hann mundi leidángr úti hafa um sumarit fyrir landi, ok hann vill nefnd hafa or hverjo fylki, bædi at skipom ok lidi: segir hann hverso mørg skip hann vill þadan hafa or firdinom. Sídan gérir hann ordsending bædi nordr ok sudr med landi, et ytra ok et efra, ok lætr lidi útbjóda. Olafr Konúngr lætr þá setja fram Orminn Lánga, ok øll ønnr skip sín bædi stór ok smá. Styrdi hann sjálfr Orminom Lánga. Ok þá er menn vóro þar rádnir til skipanar, þá var þar sva mjøk vandat lidit ok valit, at engi madr skyldi vera á Orminom Lánga ellri enn sextogr, edr yngri enn tvítogr; en valdir mjøk at afli ok hreysti, Þar vóro fyrst tilskoradir hirdmenn Olafs Konúngs, þvíat þat var valit af innanlands mønnom ok utanlands, allt þat er sterkaz var ok fræknaz.

## Kap. CII.

### Manntal á Orminom.

Ulfr Raudr hét madr, er bar merki Olafs Konúngs, ok í stafni var á Orminom,

ok annar Kolbjørn Stallari; Þorsteinn Uxafótr, ok Vikar af Tíundalandi, bródir Arnljóts Gellina. Þessir vóro á ransinni í sorom: Vakr elfski Raumason, Bersi hinn Sterki Bollason, An Skyti af Jamtalandi; Þrándr Rami af Þelamørk, ok Uþyrmir bródir hans. Þeir Háleygir, Þrándr Skjálgi ok Øgmundr Sandi, Løðver Lángi or Salltvik, ok Hárekr Hvassi; þeir Innanþrændir: Kètill Hani, Þorfinnr Eisli, Hávardr ok þeir brædor or Orkadal. Þessir vóro í forirrúmi: Bjørn af Studlo, Bárkr or Fjørdom, Þorgrímr or Hvini Þjóðólfsson, Asbjørn ok Ormr, Þórdr or Mardarløg, Þorsteinn Hvíti af Ofrostødom, Arnór Mærski, Hallsteinn ok Haukr or Fjørdom, Eyvindr Snákr, Bergdórr Bestill, Hallkèll af Fjølom, Olafr Drengr, Arnfinnr Sygnski, Sigurdr Bildr, Einarr Hördski, ok Finnr; Kètill Rygski, Grjótgardr Røskvi. Þessir vóro í krappa-rúmi: Einarr Þambarskelfir, hann þótti þeim ecki lutgengr, þviat hann var 18 vetra; Hallsteinn Hlífarson, Þórólfr, Ivarr Smetta, Ormr Skógarnef, ok margir adrir menn mjøk ágætir varo á Orminom, þótt vèr kunnom ecki at nefna. Atta menn vóro í hálf-rými á Orminom, ok var valit einom manni ok einom. 30 manna vóro í fyrir-rúmi. Þat var mál manna, at þat mannval er á Orminom var, bar ecki minna af ødrom mønnom um fridleika ok afl ok

ok fræknleik, enn Ormrinn Lángi af ødrom skipom. Þorkéll Nefja bródir Konúngs stýrdi Orminom Skamma; Þorkéll Dyrdill ok Jósteinn módorbrædor Konúngs hafdo Trønona, ok var hvarttveggja þat skip alvel skipat. Ellifo stórskip hafdi Olafr Konúngr or Þrándheimi, ok umfram tvitogsessor ok smærri skip ok vistar birdínga.

## Kap. CIII.

### Kristnat Island.

En er Olafr Konúngr hafdi miøk búit lid sitt or Nidarósi, þá skipadi hann mønnom um øll Þrændaløg i sýslor ok ármenníngar; þá sendi hann til Islands Gitzorr Hvíta ok Hjallta Skéggjason at boda kristni á Islandi, ok féck med þeim Prest þann er Þormódr er nefndr, ok fleiri vígda menn; en hafdi eptir med sér at gisling 4 íslendska menn, þá er honom þótto ágætastir, Kjartan Olafsson, Haldórr Gudmundarson, Kolbein Þórdarson, Sverting Runólfsson. Ok er þat sagt af ferd þeirra Gitzorar ok Hjalta, at þeir komo til Islands fyrir Alþíng, ok fóro til þíngs, ok á því þíngi var kristni i løg tekin á Islandi, ok þat samar var skírt allt landsfólk.

## Kap. CIV.

### Kristnat Grænland.

Olafr Konúngr sendi ok þat sama var Leif Eiriksson til Grænlands, at boda þar

kristni, ok fór hann þat sumar til Grænlands; hann tók í hafi skipsögn þeirra manna, er þá vóro ófærir, ok lágo á skipsflaki, ok þá fann hann Vínland it Góða, ok kom um haustit til Grænlands, ok hafdi þannog med sér Prest ok kennimenn, ok fór til vistar í Brattahlíd til Eiríks fødor síns. Menn kollodo hann sídan Leif hinn Heppna. En Eiríkr fadir hans segir, at þat var samskulda, er Leifr hafdi borgit skipsögn manna í hafi, ok þat er hann hafdi flutt skè-manninn til Grænlands, þat var Prestrinn.

## Kap. CV.

### Frá sigling Bjarna Herjúlfssonar.

Herjúlfr var Bárdarson Herjúlfssonar: hann var frændi Ingólfs landnáma-manns. Þeim Herjúlfi gaf Ingólf, land á milli Vogs ok Reykjaness. Herjúlfr bjó fyrst á Drepstocki; Þorgérdr hét kona hans, en Bjarni son þeirra; ok var hinn efnilegasti madr. Hann fýstist utan þegar á únga aldri: vard honom gott, bædi til fjár ok mannvirdíngar, ok var sinn vetr hvert utanlands edr med fedr sínom. Brátt átti Bjarni skip í førom; hinn sídasta vetr, er hann var í Noregi, þá brá Herjúlfr til Grænlands ferdar med Eiríki, ok brá búi síno. Med Herjúlfi var á sudreyskr madr kristinn, sá er orti Hafgérdíngar-drápo; þar er þetta stef í:

Mína bidr ek munka reyni
Meina-lausann farar-bæina

Haidis

Hæidis haldi hattar foldar
Hallar drottinn yfir mer stalli.

Herjúlfr bjó á Herjúlfsnesi, ok var hinn gøfgasti madr. Eiríkr Raudi bjó í Brattahlíd; hann var þar med mestri virdíngo, ok luto allir til hans. Þessi vóro børn Eiríks: Leifr, Þorvaldr ok Þorsteinn, en Freydís hét dóttir hans: hún var gipt þeim manni er Þorvaldr hét, ok bjúggo þau í Gørdom, sem nú er Biskupsstóll. Hún var svarri mikill, en Þorvaldr var litilmenni: var hún mjøk géfin til fjár. Heidit var fólk á Grænlandi í þann tíma. Þat sama sumar kom Bjarni skipi síno á Eyrar, er fadir hans hafdi brott siglt um vorit: þau tídindi þótto Bjarna mikil, ok vildi ecki bera af skipi síno. Þá spurdo hásetar hans hvat er hann bæriſt fyrir? en hann svarar: at hann ætladi at halda sidvenjo sinni, ok þyggja at fødr sínom vetrvist, ok vil ek halda skipino til Grænlands, ef þér viljit mér fylgd veita. Allir qvádoz hans rádom fylgja vilja. Þá mælti Bjarni: úvitrlig mun þykja vor ferd, þar sem engi vor hefir komit í Grænlands haf. En þó halda þeir nú í haf, þegar þeir vóro búnir; ok sigldo 3 daga, þar til er landit var vatnat; en þá tók af byrina; ok lagdi á norræni ok þokor, ok visso þeir ecki hvert þeir fóro, ok skipti þat mørgom dægrom. Eptir þat sá þeir sól, ok mátto þá deila ættir. Vinda nú segl, ok sigla þetta dægr, ádr þeir sá land; ok ræddo um med sér, hvat landi þetta mun vera. En Bjarni qvedz hyggja,

ja, at þat mundi ecki Grænland. Þeir spyrja hvert hann vill sigla at þesso landi, edr ecki? þat er mitt ráð at sigla í nánd vid landit; ok sva gera þeir; ok sá þat brátt, at landit var ófjøllótt ok skógi vaxit, ok smár hædar á landino. Þeir léto landit á bakborda, ok léto skaut horfa à land. Sidan sigla þeir 2 dægor, ádr þeir sá land annat. Þeir spyrja: hvert Bjarni ætladi þat enn Grænland? hann qvadz ecki heldr ætla þetta Grænland, enn et fyrra; þvíat jøklar ero miklir sagdir á Grænlandi. Þeir nálgodoz brátt þetta land, ok sá þat var slétt land ok vidi vaxit. Þá tók af byr fyrir þeim; þá rædd o hásetar þat, at þeim þótti þat ráð, at taka þat land. En Bjarni vill þat ecki; þeir þóttoz bædi þurfa vid ok vatn: at engo ero þér því úbyrgir, segir Bjarni; en þó feck hann at því nockot ámæli af hásetom sínom. Hann bad þá vinda segl; ok sva var gert; ok setto framstafn frá landi, ok sigla í haf útsynnings byr 3 dægor; ok sá þá land it þridja. En þat land var hátt ok fjøllótt, ok jøklar á. Þeir spyrja þá, ef Bjarni vill at landi láta þar? en hann qvadz ecki þat vilja, þvíat mér litz þetta ógagnvænligt. Ná lægdo þeir ecki segl sitt; halda med landino fram, ok sá, at þat var eyland; setto enn stafn vid því landi, ok héldo í haf hinn sama byr, en vedr óx í hønd, ok bad Bjarni þá svipta, ok ecki sigla meira, en bædi dygdi vel skipi þeirra ok reida. Sigldo nú 3 dægor; þá sa þeir land it fjórda. Þá spurdo þeir Bjarna, hvert hann ætladi þetta vera

vera Grænland edr ecki? Bjarni svarar: þetta er líkaz því, er mér er sagt frá Grænlandi. Hér munom vér at landi halda. Sva gêra þeir, ok taka land undir einhverjo nesi, at qveldi dags, ok var þar bátr á nesino. En þar bjó Herjúlfr fadir Bjarna á því nesi; ok af því hefir nesit nafn tekit, ok er sídan kallat Herjúlfsnes. For Bjarni nú til fødr síns, ok hættir nú siglingo, ok er med fødr sínom medan Herjúlfr lifdi; ok sídan bjó hann þar, eptir fødr sinu.

## Kap. CVI.

### Frá landafundi Leifs Eiríkssonar.

Þat er nú þesso nærst, at Bjarni Herjúlfsson kom utan af Grænlandi á fund Eiríks Jarls, tók Jarl vid honom vel. Segir Bjarni frá ferdom sínom, er hann hafdi lønd sied: ok þótti hann verit háfa úforvitinn, er hann hafdi ecki af þeim løndom at segja; ok fécck hann af því nockot ámæli. Bjarni gêrdiz hirdmadr Jarls, ok fór út til Grænlands um sumarit eptir, ok var nú mikil umræda um landaleitan. Leifr son Eiríks Rauda or Brattahlíd, fór á fund Bjarna Herjúlfssonar, ok kaupir skip af honom, ok réd þar til háseta, sva at þeir vóro hálfr fjórdi togor manna saman. Leifr bad Eirik fødr sinn, at hann mundi enn fyrir vera førinni. Eiríkr taldiz heldr undan: qvedz þá heldr hníginn í aldr, ok qvedz minna mega vid vesi øllo, enn var. Leifr qvad hann enn

enn mundo mestri heill styra, af heim frændom; ok þetta lét Eirikr eptir Leifi, ok rídr heiman, þá er þeir ero at ollo búnir; ok þá skamt var at fara til skipsins, drepr hestrinn fæti, sá er Eirikr reid, ok fèll hann af baki, ok lestiz fótr hans. Þá mælti Eirikr: ecki mun mér ætlat at finna lönd fleiri enn þetta, er nú byggjom vèr; munom vær nú ecki lengr fara allir samt. Fór Eiríkr heim í Brattahlid, en Leifr rédz til skips, ok félagar hans med honom, hálfr fjórdi togr manna. Þar var sudrmadr einn í ferd, er Tyrker hét. Nú bjúggo þeir skip sitt, ok sigldo í haf, þá er þeir vóro búnir; ok fundo þá þat land fyrst, er þeir Bjarni fundo sídarst. Þar sigla þeir at landi, ok kostudo ackérum; ok skúto báti, ok fóro á land, ok sá þar ecki gras. Joklar miklir vóro allt it efra; en sem ein hella væri allt til joklanna frá sjónum; ok syndiz þeim þat land vera gædalaust. Þá mælti Leifr: ecki er oss þat nú ordit um þetta land, sem Bjarna, at vær hafom ecki komit á landit; ok mun ek nú géfa nafn landino, ok kalla Helloland. Sídan fóro þeir til skips, ok sigldo í haf, ok finna land annat; sigla enn at landi, ok kasta ackérom; skjóta sídan báti, ok gánga á landit; þat land var slétt ok skógi vaxit, ok sandar hvitir vída, þar sem þeir fóro, ok ósæbratt. Þá mælti Leifr: af kostom skal þesso landi nafn géfa, ok kalla Markland. Fóro sídan ofan aptr til skips sem skjótast. Nú sigla þeir þadan aptr í

haf landnyrdíngs vedr: ok vóro úti 2 dægor, ádr þeir sá land; ok sigldo at landi, ok komo at ey einni er lá nordr af landino, ok gengo þar upp, ok sáz um í gódo vedri, ok fyndo þat, at degg var á grasino, ok vard þeim þat fyrir, at þeir tóko höndom sínom í deggina, ok brugdo í munn sér: ok þóttoz ecki jafnsætt kent hafa, sem þat var. Sídan foro þeir til skips síns, ok sigldo í sund þat, er lá milli eyarinnar ok nesś þesś er nordr gèck af landino; stefndo í vestr ætt fyrir nesit. Þar var grunnsævi mikit at fjøro sjóvar, ok stód þá uppi skip þeirra: ok var þá lángt til sjóar at sjá frá skipino. En þeim var sva mikil forvitni á at fara til landsins, at þeir nento ecki þesś at bída, at sjór félli undir skip þeirra: ok runno til lands, þar er á ein féll or vatni eino. En þegar sjór féll undir skip þeirra, þá tóko þeir bátinn, ok réro til skipsins, ok flutto þat upp í ána: sídan upp í vatnit, ok køstudo þar ackérom, ok báro af skipom húdføt sín, ok gérdo þar búdir: tóko þat rád sídan, at búaz þar um þann vetr, ok gerdo þar hús mikil. Hvarki skorti þar lax í ánni né í vatnino; ok stærra lax, enn þeir hefdi fyrr sjet. Þar var sva gódr landkostr, at því er þeim sýndiz, at þar mundi engi fénadr fódr þurfa á vetrom: þar komo engi frost á vetrom, ok litt rénudo þar grøs. Meira var þar jafndægri, enn á Grænlandi edr Islandi; sól hafdi þar eyktar stad ok dagmála stad um skamm-degi. En er þeir høfdo lokit húsgérd sinni; þá mælti Leifr vid føruneyti

sitt:

sitt: nú vil ek skipta láta lidi voro í 2 stadi, ok vil ek kanna láta landit; ok skal helmingr lids vera vid skála heima; en annar helmíngr skal kanna landit: ok fara ecki lengra enn þeir megi koma heim at kveldi, ok skiliz ecki. Nú gërdo þeir sva um stund. Leifr gërdi hmist, at hann fór med þeim, edr var heima at skála. Leifr var mikill madr ok sterkr, skøruligr at sjá, vitr madr, ok gódr hófsmadr um alla hluti.

## Kap. CVII.

### Leifr er á því landi um vetrinn, ok kalladi þat Vín-land. Siglir sídan heim til Grænlands aptr, ok hjálpar skip-brotz mønnom.

Neins hverjo kveldi bar þat til tídinda, at mans var vant af lidi þeirra, ok var þat Tyrker sudrmadr. Leifr, kunni því stórilla: þvíat Tyrker hafdi mjøk lengi verit med þeim fedgom, ok elskat mjøk Leif í barnæsko. Leifr taldi nú mjøk á hendor føronautom sínom, ok bjóz til ferdar at leita hans, ok 12 menn med honom. En er þeir vóro skamt komnir frá skála, þá gëck Tyrker í mót þeim; ok var honum vel fagnat. Leifr fann þat brátt, at fóstra hans var skap gott: hann var bratt leitr, ok laus-eygr, smáskilligr í andliti, lítill vexti ok vesal-ligr; en íþrótta madr á allzkonar hagleik. Þá mælti Leifr til hans: hví varto sva seinn, fóstri minn! ok fráskili føruneytino? hann tal-

adi þá fyrst lengi á þyrsko, ok skant marga vega augnnom, ok grétti sik; en þeir skildo ecki hvat hann sagdi. Hann mælti þá á norræno, er stund leid: ek var genginn ecki miklo lengra enn þit; kann ek nockor nýnæmi at segja: þvíat ek fann vínvid ok vínber. Mun þat satt, fóstri minn? qvad Leifr: at víso er þat satt, qvad hann; þvíat ek var þar fæddr, er hvarki skorti vínvid né vínber. Nú svofo þeir af þá nótt; en um morguninn mælti Leifr vid hásetа sína: nú skal hafa tvennar sýslor fram, ok skal sinn dag hvert; lesa vínber, eda hoggva vínvid, ok fella morkina, svo at þat verdi farmr til skips míns; ok þetta var ráds tekit. Sva er sagt, at eptir-bátr þeirra var fylldr af vínberjom. Nú var hegginn farmr á skipit. Þar vóro ok hveiti-akrar sjálfsánir, ok þau tré er mosor heita: ok høfdo þeir af øllo þesso med sér nockor merki; sum tré sva mikil at í hús vóro løgd. Ok er vorar, þá bjuggoz þeir, ok sigldo brott, ok gaf Leifr nafn landino eptir landskostom, ok kalladi Vínland. Sigla nú sídan í haf, ok gaf þeim vel byri, þar til er þeir sá Grænland, ok fjøll undir jøklom. Þá tók einn madr til máls, ok mælti vid Leif: hví stýrir þú sva mjøk undir vedr skipino? Leifr svarar: ek hygg at stjórn minni, en þó nú at fleira, edr hvat sjái þér til tídinda? þeir qvádoz ecki sjá, þat er tídindom sætti. Ek veit ecki, segir Leifr, hvart ek sje skip, edr sker. Nú sjá þeir, ok qvádo sker vera. Hann sá því framar enn þeir, at hann sá menn í skerino. Nú vil

ek

ek, at vér beitom undir vedrit, segir Leifr, sva at náim til þeirra; ef menn ero þurftugir at ná vorom fundi, ok er naudsyn á at duga þeim. En med því, at þeir sé ecki fridmenn, þá egom vér allann kost undir oss, en þeir ecki undir sér. Nú sækja þeir undir skérit, ok lægdo segl sitt, ok køstudo akkéri, ok skuto litlom báti ødrom er þeir høfdo haft med sér. Þá spurdi Tyrker: hver þar rédi fyrir lidi? sa qvedz Þórir heita, ok vera norrænn madr at kyni: edr hvert er þitt nafn? Leifr segir til sín. Ertu son Eiríks Rauda or Brattahlíd? segir hann. Leifr qvad sva vera. Nú vil ek, segir Leifr, bjóda ydr øllom á mitt skip, ok fémunom þeim er skipit má vidtaka. Þeir þágo þann kost; ok sigldo sídan til Eiríksfjardar med þeim farmi, þar til er þeir komo til Brattahlídar; báro farminn af skipi. Sídan baud Leifr Þóri til vistar med sér, ok Gudrídi kono hans, ok 3 mønnom ødrom; en fékk vistir ødrom hásetom, bædi Þóris ok sínom féløgom. Leifr tók 15 menn or skérino. Hann var sídan kalladr Leifr hinn Heppni. Leifi vard nú bædi gott til fjár ok mannvirdingar. Þann vetr kom sótt mikil í lid Þóris ok andadiz hann Þórir, ok mikill luti lids hans. Þann vetr andadiz ok Eiríkr Raudi. Nú var um-ræda mikil um Vínlands før Leifs, ok þótti Þórvaldi bródr hans of úvída kannat hafa verit landit. Þá mælti Leifr vid Þórvald: þú skalt fara med skip mitt bródir, ef

ef þú vill, til Vínlands: ok vil ek þó, at skipit fari ádr eptir vidi þeim er Þórir átti í skérino. Ok sva var gërt.

## Kap. CVIII.

### Frá Þórvaldi Eiríkssyni bródr Leifs ok Skrælingjom i Vinlandi.

Nú bjóz Þórvaldr til þeirrar ferdar med 30 manna, med umrádi Leifs bródr síns. Sídan bjuggo þeir skip sitt, ok hêldo i haf ok er engi frásøgn um ferd þeirra, fyrr enn þeir koma til Vínlands, til Leifs búda, ok bjuggo þar um skip sitt, ok sáto um kyrrt þann vetr, ok veiddo fiska til matar sér. En um vorit mælti Þórvaldr, at þeir skyldo búa skip sitt, ok skyldi eptir-bátr skipsins, ok nockorir menn med, fara fyrir vestan landit, ok kanna þar um sumarit. Þeim sýndiz landit fagurt ok skógótt; ok skammt milli skógar ok sjóar: ok hvítir sandar. Þar var eyótt mjøk ok grunnsævi mikit. Þeir fundo hverki manna-vistir né dýra, en í eyo einni vestarliga, fundo þeir kornhjálm af trê: ecki fundo þeir fleiri manna-verk; ok fóro aptr ok komo til Leifs búda at hausti. En at sumri ødro fór Þórvaldr fyrir austan med kaupskipit, ok hit nyrdra fyrir landit. Þá gërdi at þeim vedr hvast fyrir andnesi eino; ok rak þá þar upp, ok brutu kjølinn undan skipino, ok høfdo þar tøf lánga, ok bætto skip sitt. Þá mælti Þórvaldr vid førunauta sína:

nú

nú vil ek at vid reisim hér upp kjelinn á nesino, ok kallim Kjalarnes, ok sva gérdo þeir. Sídan sigla þeir þadan í braut, ok austr fyrir landit, ok inn í fjardarkjapta þá þar ero nærstir, ok at høfda þeim er þar gékk fram: hann var allr skógi vaxinn. Þá leggja þeir fram skip sitt í lagi, ok skjóta-bryggjom á land; ok gengr Þórvaldr þar á land upp, med alla føronauta sína. Hann mælti þá: hér er fagurt, ok hér vilda ek bœ minn reisa: gánga sídan til skips, ok sjá á sandinom inn frá høfdanom þrjár hædir, ok fóro til þángat, ok sjá þar húdkeipa þrjá, ok þrjá menn undir hverjom. Þá skipto þeir lidi síno, ok høfdo hendor á þeim øllom; nema einn komst í brott med keip sinn. Þeir drepa hina 8, ok gánga sídan aptr á høfdann, ok sjáz þar um; ok sjá inn í fjørdinn hædir nockrar, ok ætlodo þeir þat vera bygdir. Eptir þat sló á þá høfga sva miklom at þeir máttó ecki vøko halda, ok sofna þeir allir. Þá kvom kall yfir þá, sva at þeir vøknudo allir; sva segir kallit: Vaki þú, Þórvaldr, ok allt føroneyti þitt, ef þú villt líf þitt hafa; ok far þú á skip þitt ok allir menn þínir, ok farit frá landi sem skjótaz. Þá fór innan eptir firdinom útal húdkeipa, ok løgdo at þeim. Þórvaldr mælti þá: vér skulom færa út á bord vígfleka, ok verjaz sem best; en vega lítt í mót. Sva gêra þeir. En Skrælingjar skuto á þá um stund; en flýa sídan í brott sem ákafaz, hverr sem mátti. Þá spurdi Þórvaldr menn sína, ef þeir væro

 nock-

nockot sárir? þeir qvádoz ecki sárir vera. Ek hefi fengit sár undir hendi, segir hann, ok fló ør milli skipsbordsins ok skjaldarins, undir hond mér; ok er hér ørin, ok man mik þetta til bana leida. Nú ræd ek, at þér búit ferd ydra sem skjótaz, aptr á leid, en þér skulot færa mik á høfda þann, er mér þótti byggiligr vera; má þat vera, at mér hafi satt á munn komit, at ek muni þar búa um stund. Þar skulo þér mik grafa, ok setja krossa at høfdi ok fótom, ok kallit þér þat Krossanes jafnan sídan. Grænland var þá kristnat, en þó andadiz Eirikr Raudi fyrir kristni. Nú andadiz Þórvaldr, ok gérdo þeir allt eptir því, sem hann hafdi mælt, ok fóro sídan ok hitto føronauta sína; ok søgdo hvorir ødrom slík tídindi sem vísso, ok bjuggo þar þann vetr, ok fengo sér víuber ok vínvid til skips síns. Nú búaz þeir þadan um vorit aptr til Grænlands, ok komo skipi síno í Eiríksfjørd, ok kunno Leifi at segja mikil tídindi.

## Kap. CIX.

### Frá Þorsteini Eiríkssyni bródr Leifs ok hans Vínlands ferd.

Þat hafdi gérz til tídinda medan á Grænlandi, at Þorsteinn í Eiríksfirdi hafdi qvongaz ok fengit Gudridar Þorbjarnardóttor, er átt hafdi Þórir Austmadr, er fyrr var frá sagt. Nú fýstiz Þorsteinn Eiríksson at fara

fara til Vínlands, eptir liki Þórvalds bródr sins; ok bjó skip hit sama, ok valdi hann lid at afli ok vexti, ok hafdi med sér hálfann 3ja tog manna, ok kono sína Gudrídi; ok sigla í haf þegar þau ero búin, ok or landsýn. Þau velkti úti allt sumarit, ok visso ecki hvar þau fóro; ok er vika var af vetri, þá tóko þeir land í Lýsofirdi á Grænlandi, í hinni vestri bygd. Þorsteinn leitadi þeim um vistir, ok fèck vistir øllom hásetom sínom, en hann var vistlaus ok kona hans. Nú vóro þau eptir at skipi tvø nockorar nætor. Þá var enn úng kristni á Grænlandi. Þat var einn dag, at menn komo at tjaldi þeirra snemma; sá spurdi er fyrir þeim var, hvat manna væri í tjaldino? Þorsteinn svarar: tveir menn, segir hann; edr hverr spyr at? Þorsteinn heiti ek, ok er ek kalladr Þorsteinn Svartr; en þat er erindi mitt hingat, at ek vil bjóda yckor bádom hjónom til vistar til mín. Þorsteinn q:adst vilja hafa umrædi kono sinnar; en hún bad hann ráda, ok nú játar hann þesso. Þá mun ek koma eptir yckor á morgin med eyki; þvíat mik skortir ecki til, at veita yckor vist: en fásinni er mikit med mér at vera; þvíat tvø erom vid þar hjón, þvíat ek er einþyckr mjøk; annann sid hefir ek ok, enn þèr hafit, ok ætla ek hann þó betra er þèr hafit. Nú kom hann eptir þeim um morgininn med eyki, ok fóro þau med Þorsteini Svarta til vistar, ok veitti hann þeim vel.

Gudridr var skörulig kona at sjá, ok vitr kona, ok kunni vel at vera med ókunnom mönnom. Þat var snemma vetrar, at sótt kom í lid Þorsteins Eiríkssonar, ok andadiz þar margr förunautr Þorsteins. Hann bad géra kistor at likom þeirra er öndudoz, ok færa til skips, ok búa þar um; þvíat ek vil láta flytja til Eiríksfjardar at sumri öll likin. Nú er þess skammt at bída, at sótt kémr í híbýli Þorsteins, ok tók kona hans sótt fyrst, er hét Grímhildr; hún var ákafliga mikil, ok sterk sem karlar, ok þó kom sóttin henni undir. Ok brátt eptir þat tok sóttina Þorsteinn Eiríksson, ok lágo þau bædi senn; ok andadiz Grímhildr kona Þorsteins Svarta En er hún var daud, þá géck Þorsteinn fram úr stofunni eptir fjöl at leggja á likit. Gudridr mælti þá: verto litla hríd í brott Þorsteinn minn, segir hún. Hann qvad sva vera skyldo. Þá mælti Þorsteinn Eiríksson: med undarligom hætti er nú um húsfreyo vora, þvíat nú örglaz hún upp vid ólnboga, ok þokar fótom sínom frá stocki, ok þreifar til skóa sinna. Ok í því kom Þorsteinn bóndi, ok lagdiz Grímhildr nidr í því; ok brakadi þá í hverjo tré í stofunni. Nú gérir Þorsteinn kisto at liki Grímhildar, ok færdi í brott, ok bjó um: hann var bædi mikill madr ok sterkr, ok þurfti hann þess alls, ádr hann kom henni brott af bænom. Nú elnadi sóttin Þorsteini Eiríkssyni, ok andadiz hann. Gudridr kona hans kunni því litt: þá vóro þau öll í stofunni. Gudridr hafdi

setit

setit á stóli frammi fyrir becknom, er hann hafdi legit Þorsteinn bóndi hennar. Þá tók Þorsteinn bóndi Gudrídi í fáng sér af stólinom, ok settiz í beckinn annann med hana, gégnt líki Þorsteins, ok taladi um fyrir henni marga vega, ok huggadi hana, ok hét henni því, at hann mundi fara med henni til Eiríksfjardar med líki Þorsteins bónda hennar, ok førunauta hans: ok svo skal ek taka hingat hjón fleiri þér til huggunar ok skémtunar. Hún þackadi honom. Þorsteinn Eiríksson settiz þá upp ok mælti: hvar er Gudrídr? þrjá tíma mælti hann þetta; en hún þagdi. Þá mælti hún vid Þorstein bónda: hvert skal ek svar veita þesso máli edr ecki? hann bad hana ecki svara. Þá géck Þorsteinn bóndi yfir gólfit, ok settiz í stólinn; en Gudrídr sat í knjám honom; ok þá mælti Þorsteinn bóndi: hvat vilto nafni? segir hann. Hann svarar, er stund leid: mér er annt til þess, at segja Gudrídi forløg sín, til þess at hún kunni þá betr andláti míno; þvíat ek er kominn til gódra hvíldarstada. En þat er þér at segja Gudrídr, at þú munt giptaz íslendskom manni, ok muno lángar vera samfarar yckar, ok margt manna mun frá yckor koma þroskasamt, bjart ok ágætt, sætt ok ilmat vel; muno þit fara af Grænlandi til Noregs, ok þadan til Íslands, ok géra bú á Íslandi; þar muno þit lengi búa, ok munto honom lengr lifa; þú munt utan fara, ok gánga sudr, ok koma út aptr til Íslands til búz þíns: ok þá mun þar

kirkja

kirkja reist vera, munto þar vera ok taka Nunno vigslo, ok þar munto andaz; ok þá hnígr Þorsteinn aptr, ok var búit um lík hans, ok fært til skips. Þorsteinn bóndi efndi vel vid Gudrídi, allt þat er hann hafdi heitit. Hann seldi um vorit jörd sína ok qvikfé, ok for til skips med Gudrídi, med allt sitt: bjó skipit, ok fécc menn til, ok fór sídan til Eiríksfjardar Vóro nú líkin jerdot at kirkjo. Gudrídr fór til Leifs í Brattahlíd; en Þorsteinn Svarti gérdi bú í Eiríksfirdi, ok bjó þar medan hann lifdi: ok þótti vera hinn vaskasti madr.

## Kap. CX.

### Frá Þorfinni Karlsefni er hann kom til Vínlands, ok frá Skrælingjom.

Þat sama sumar kom skip af Noregi til Grænlands, sá madr hét Þorfinnr Karlsefni, er þvi skipi stýrdi; hann var son Þórdar Hesthöfda, Snorrasonar, Þórdarsonar frá Höfda. Þorfinnr Karlsefni var stórаudigr at fé, ok var um vetrinn í Brattahlíd, med Leifi Eiríkssyni. Brátt felldi hann hug til Gudrídar, ok beiddi hennar; en hún veik til Leifs svörom fyrir sik, sídan var hún honom fastnot, ok gért brúdkaup þeirra á þeim vetri. Hin sama var umræda á Vínlands fer, sem fyrr, ok fýsto menn Karlsefni mjök þeirrar ferdar, bædi Gudrídr ok adrir menn. Nú var rádin ferd hans, ok réd hann sér skipverja 60 karla,

60 karla, ok konor 5. Þann máldaga gérdo þeir Karlsefni ok háſetar hans, at jefnom hend-om ſkyldi þat hafa, allt þat er þeir fengi til gæda. Þeir hefdo med ſér allskonar fénad; þvíat þeir ætludo at byggja landit, ef þeir mætti þat. Karlsefni bad Leif húſa á Vín-landi; en hann qvadſt ljá mundo húſin, en géfa ecki. Sídan héldo þeir í haf ſkipino, ok koma til Leifs-búda med heilo ok höldno, ok báro þar upp húdfat ſín. Þeim bar brátt í hend-or mikil faung ok gód; þvíat reidor var þá upprekin, bædi mikil ok gód; fóro til ſídan, ok ſkáro hvalinn; ſkorti þá ecki mat. Fénadr géck þar á land upp: en þat vard brátt, at gradfé vard úrigt, ok gérdi mikit um ſik. Þeir hefdo haft med ſér gridúng einn. Karlsefni lét fella vido, ok telgja til ſkips ſíns; ok lagdi vid-inn á bjarg eitt til þurkanar. Þeir hefdo öll gædi af landkoſtom, þeim er þar vóro, bædi af vínberjom, ok allzkonar veidom ok gædom. Ept-ir þann vetr hinn fyrſta kom ſumar; þá urdo þeir varir vid Skrælingja, ok fór þar úr ſkógi fram mikill flockr manna. Þar var nær naut-fé þeirra; en gradúngr tók at belja ok gjalla ákafliga hátt: en þat hræddoz Skrælingjar, ok lögdo undan med byrdar ſínar; en þat var grávara ok ſafali ok allzkonar ſkinnavara; ok ſnúa til bæar Karlsefnis, ok vildo þar inn í húſin. En Karlsefni lét verja dyrnar. Hvor-igir ſkildo annars mál. Þá tóko Skrælingj-ar ofan bagga ſína, ok leyſto, ok budo þeim,

ok vildo vopn helst fyrir; Karlsefni bannadi þeim at selja vopnin. Ok nú leitar hann ráds med þeim hætti, at hann bad konor bera út búnyt: þá vildo þeir kaupa þat, en ecki annat. Nú var sú kaupfør Skrælingja, at þeir báro sinn varníng í brott í møgom sínom; en Karlsefni ok førunautar hans høfdo eptir bagga þeirra ok skinnavøro; fóro þeir vid svabúit í brott. Nú er frá því at segja, at Karlsefni lætr géra skípgard ramligann um bæ sinn, ok bjugg=oz þar um. I þann tíma fæddi Gudrídr sveinbarn, kona Karlsefnis, ok hét sá sveinn Snorri. A ondverdom ødrom vetri, sva komo Skrælingjar til móts vid þá; ok vóro miklo fleiri enn fyrr, ok høfdo slíkann varnat sem fyrr. Þá mælti Karlsefni vid konor: nú skulo þér bera út slíkann mat, sem fyrr var rífastr, en ecki annat. Ok er þeir sá þat, þá køstudo þeir bøggunom sínom inn yfir skípgardinn. En Gudrídr sat í dyrom inni, med vøggo Snorra sonar síns: þá bar skugga á dyrin, ok géck þar inn kona í svørtom námkyrtli, heldr lág, ok hafdi dregil um høfot, ok ljósjørp á hár, føl-leit ok mjøk eygd, sva at ecki hafdi jafnmikil augo séd, í einom manshausi. Hún géck þar at er Gudrídr sat, ok mælti: hvat heitir þú? segir hún. Ek heiti Gudrídr; edr hvert er þitt heiti? Ek heiti Gudrídr, segir hún. Þá rétti Gudrídr húsfreya hønd sína til hennar, at hún sæti hjá henni; en þat bar allt saman, at þá heyrdi Gudrídr brest mikinn, ok var þá kon-

an horfinn; ok í þvi var ok veginn einn Skrælingr af einom húskarli Karlsefnis; þviat hann hafdi viljat taka vopn þeirra; ok fóro nú í brott, sem tídaz; en klædi þeirra lago þar eptir ok varningr. Engi madr hafdi kono þessa sjed utan Gudrídr ein. Nú munom vér þurfa til ráda at taka, segir Karlsefni; þvi ek hygg at þeir muni vitja vor hit þridja sinni, med úfridi ok fjølmenni. Nú skulom vér taka þat rád, at 10 menn fari fram á nes þetta ok syni sik þar; en annat lid vort skal fara í skóg ok hoggva þar rjódr fyrir nautfé vort, þá er lidit kémr fram úr skoginom. Vér skulom ok taka gridúng vorn ok láta hann fara fyrir oss. En þar er sva háttat, er fundr þeirra var ætladr, at vatn var ødromegin, en skógr á annann veg. Nú vóro þessi rád høfd, er Karlsefni lagdi til. Nú komo Skrælingjar í þann stad, er Karlsefni hafdi ætlat til bardaga. Nú vard þar bardagi, ok féll fjøldi af lidi Skrælingja. Einn madr var mikill ok vænn í lidi Skrælingja, ok þótti Karlsefni at hann væri høfdingi þeirra. Nú hafdi einn þeirra Skrælingja tekit upp øxi eina, ok leit á um stund, ok reiddi at félaga sínom, ok hjó til hans: sá féll þegar daudr. Þá tók sá hinn mikli madr vid øxinni, ok leit á um stund, ok varp henni sídan sem lengst mátti hann á sjóinn: en sídan flya þeir á skóginn, sva hverr sem fara mátti; ok lykr þar nú þeirra vidskiptom. Vóro þeir Karlsefni þar þann vetr allan; en at vori, þá lysir Karlsefni, at hann

vill

vill ecki þar vera lengr; ok vill fara til Grænlands. Nú búa þeir ferd sína, ok hefdo þadan mørg gædi, í vínvidi ok berjom ok skinnavøro. Nú sigla þeir í haf ok komo til Eiriksfjardar skipi síno heilo, ok vóro þar um vetrinn.

## Kap. CXI.

### Frá Freydísi Eiríksdóttor, ok Vínlands ferd hennar, ok údádom.

Nú tekz umræda at nýjo um Vínlands ferd; þvíat sú ferd þótti góð, bædi til fjár ok virdíngar. Þat sama sumar kom skip af Noregi til Grænlands, er Karlsefni kom af Vínlandi; því skipi stýrdo brædor tveir, Helgi ok Finnbogi, ok vóro þann vetr á Grænlandi; þeir brædor vóro íslendskir at kyni, ok or Austfjørdom. Þar er nú til at taka, at Freydís Eiríksdóttir gérdi ferd sína heiman or Gørdom, ok fór til fundar vid þá brædor Helga ok Finnboga, ok beiddi þá, at þeir færi til Vínlands med farkost sinn, ok hafa helmíng gæda allra vid hana, þeirra er þar fengiz. Nú játto þeir því. Þadan fór hon á fund Leifs bródor síns, ok bad at hann gæfi henni hús þau, er hann hafdi géra látit á Vínlandi. En hann svarar hino sama; qvedz ljá mundo hús, en gefa ecki. Sá var máldagi med þeim brædrom ok Freydísi, at hverir skyldo hafa 30 vígra manna á skipi, ok konor umfram. En Freydís brá af því þegar,

ar, ok hafdi 5 mønnom fleira, ok leyndi þeim, ok urdo þeir brædor ecki fyrr vid þá varir, enn þeir komo til Vinlands. Nú léto þau í haf, ok høfdo til þess mælt ádr, at þau mundi samflota hafa, ef sva vildi verda: ok var þess litill munr. En þó komo þeir brædor nockoro fyrri, ok høfdo uppborit faung sín til Húsa Leifs. En er Freydís kom at landi, þá rydja þeir skip sitt, ok bera upp til húss faung sín. Þá mælti Freydís: hví báro þér inn faung ydar hér? Þviat vér hugdom, segja þeir, at haldaz muni øll áqvedin ord med oss. Mér lédi Leifr húsanna, segir hún, en ecki ydor. Þá mælti Helgi: þrjóta mun ockor brædor illsko vid þig: báro nú út faung ok gërdu sér skála, ok setto þann skála firr sjónum á vatnsstrøndom, ok bjuggo vel um; en Freydís lét fella vido til skips síns. Nú tók at vetra, ok tølodo þeir brædor, at takaz mundo upp leikar ok veri høfd skémtan; sva var gërt um stund, þar til er menn bároz verra í milli; ok þá gërdiz sundrþycki med þeim, ok tókoz af leikar; ok engar gërdoz komor milli skálanna: ok fór sva fram lengi vetrar. Þat var einn morgin snemma at Freydís stód upp or rúmi síno, ok klæddiz, ok fór ecki í skóklædin; en vedri var sva farit, at døgg var fallin mikil. Hún tók kápo bónda síns ok fór í; en sídan gëck hún til skála þeirra brædra, ok til dyra; en madr einn hafdi útgengit litlo ádr, ok lokit hurd aptr

Y á mit-

á midjann klofa. Hún lauk upp hurdinni, ok stód í gatt um stund, ok þagdiz en Finnbo i lá innstr í skálanom ok vakti. Hann mælti: hvat viltu hingat, Freydís? Hún svarar: ek vil at þú standir upp, ok gángir út med mér, ok vil ek tala vid þik; sva gerir hann. Þau ganga at tré, er lá undir skála vegginom, ok settoz þar nidr. Hversu likar þer? segir hún. Hann svarar: gódr þyki mér landskostr; en illr þyki mér þústr sá, er var í millom er; þvíat ek kalla ecki hafa til ordit. Þá segir þú sem er, segir hún, ok sva þyki mér. En þat er erindi mitt á þinn fund; at ek vilda kaupa skipom vid yckor brædor, þvíat þit hafit meira skip enn ek, ok vilda ek í brott hédan. Þat mun ek láta gángaz, ef þér líkar þá vel. Nú skilja þau vid þat; gengr hún heim, en Finnbogi til hvílo sinnar. Hún stigr upp í rúmit køldom fótom, ok vaknar hann Þorvaldr vit, ok spyr: hví at hún væri sva køld ok vot? Hún svarar med miklom þjósti: ek var gengin, segir hún, til þeirra brædra, at fala skip at þeim, ok vilda ek kaupa meira skip; en þeir urdo vit þat sva illa, at þeir børdo mik, ok léko sárliga: en þú vesæll madr, munt hverki vilja reka né rétta minnar skammar né þinnar: ok mun ek þat nú finna, at ek er brotto af Grænlandi: ok mun ek gera skilnat vid þik, utan þú hefnir þessa. Ok nú stódz hann ecki átelor hennar, ok bad menn uppstanda sem skjótaz, ok taka vopn sín: ok sva gera þeir, ok fara þegar til

skála

skála þeirra brædra, ok gengo inn at þeim sofandom, ok tóko þá, ok færdo í bønd, ok leiddo svo út hvern sem bundinn var. En Freydis lét drepa hvern sem út kom. Nú vóro þar allir karlar drepnir; en konor vóro eptir, ok vildi engi þær drepa. Þá mælti Freydis: fái mér øxi í hønd; svo var gert. Sidan vegr hún at konom þeim 5 er þar vóro, ok gêck af þeim daudom. Nú fóro þau til skála sins eptir þetta it illa verk; ok fanzt þat eitt á, at Freydís þóttiz allvel hafa umrádit; ok mælti vid félaga sína: ef oss verdr audit at koma til Grænlands, segir hún, þá skal ek þann mann ráda af lífi, er segir frá þessom atburdom. Nú skulo vér þat segja, at þau búi hér eptir, þá er vér fórom í brott. Nú bjuggo þeir skipit snemma um vorit, þat er þeir brædor høfdo átt, med þeim øllom gædom, er þau mátto til fá, ok skipit bar: sigla sidan í haf, ok urdo vel reidfara; ok komo í Eiríksfjørd skipi sino snemma sumars. Nú var þar Karlsefni fyrir, ok hafdi albúit skip-sitt til hafs, ok beid byrjar: ok er þat mál manna, at ecki mundi audgara skip gengit hafa af Grænlandi enn þat er hann stýrdi. Freydis fór nú til búss sins; þvi þat hafdi stadit medan úskatt: hún fêck mikinn feng fjár øllo føroneyti sino; þviat hún vildi leyna láta údadom sinom. Sitr hún nú í búi sino. Ecki urdo allir svo haldinordir, at þegdi yfir údádom þeirra edr illsko, at ecki kæmi upp um sídir

ir fyrir Leifi bródor hennar; ok þótti honom þessi saga allill. Þá tók Leifr 3 menn af lidi þeirra Freydísar, ok píndi þá sagnar á, um þenna atburd allann jafnsaman: ok var med eino móti sögn þeirra. Ecki nenni ek, segir Leifr, at géra þat at vid Freydísi systor mína, sem hún veri verd; en spá mun ek þeim þess, at þeirra afqvæmi mun litt at þrifom verda. Nú leid þat sva fram, at eagom þótti um þau vert þadan í frá, nema íllz.

## Kap. CXII.

### Frá Þorfinni Karlsefni ok hans ættboga.

Nú er at segja frá því, er Karlsefni býr skip sitt, ok sigldi brott or landi: honom fórst vel, ok kom til Noregs med heilo ok höldno, ok sat þar um vetrinn, ok seldi varníng sinn: ok hafdi þar gott yfirlæti, ok þau bædi hjón, af hinom gøfgaztom mønnom í Noregi. En um vorit eptir bjó hann skip sitt til Islands; ok er hann var albúinn, ok skip hans lá til byrjar fyrir bryggjonom, þá kom þar at þeim Sudrmadr einn, ættadr af Brimom or Saxlandi; hann falar at Karlsefni húsasnotro hans. Ek vil ecki selja, sagdi hann. Ek vil géfa þér vid hálfmørk gulls, segir Sudrmadr. Karlsefni þótti vel vidbodit; ok keypto sídan. Fór Sudrmadr brott med húsasnotrona: en Karlsefni vissi ecki hvat tré var. En þat var mausor,

kom-

kominn af Vinlandi. Ná siglir Karlsefni í haf, ok kom skipi síno fyrir nordan land í Skagafirdi; ok var þar uppseit skip hans um vetrinn. En um vorit keypti hann Glaumbœar land, ok gérdi bú á; ok bjó þar medan hann lifdi, ok var hit mesta gøfugmenni, ok er margt manna frá honom komit ok Gudrídi kono hans, ok gódr ættbogi. Ok er Karlsefni var andadr, tók Gudrídr vid búss vardveitslo, ok Snorri son hennar, er fœddr var á Vinlandi. Ok er Snorri var qvongadr, þá fór Gudrídr utan, ok gêck sudr; ok kom út aptr til búss Snorra sonar síns, ok hafdi hann þá látit gêra kirkju í Glaumbœ. Sídan vard Gudrídr Nunna, ok einseto-kona, ok var þar medan hún lifdi. Snorri átti son, þann, er Þorgeir hêt; hann var fadir Jngveldar, módor Brands Biskups. Dóttir Snorra Karlsefnissonar hêt Hallfrídr: hún var módir Runólfs, fedor Þorláks Biskups. Bjørn hêt son Karlsefnis ok Gudrídar; hann var fadir Þórunnar módor Bjarnar Biskups. Fjøldi manna er frá Karlsefni komit, ok er hann kynsæll madr ordinn. Ok hefir Karlsefni gêrst sagt allra manna atburdi um farar þessar, er nú er nockot ordi ákomit.

## Kap. CXIII.

### Røgnvaldr Jarl sendi menn til Olafs Konúngs.

Olafr Konúngr ok Þyri drottníng sáto í Nidarósi um vetrinn, er Konúngr hafdi kristnat Hálogaland. Þyri drottníng hafdi um sumarit ádr fædt sveinbarn, er þau Olafr Konúngr átto: sa sveinn var bædi mikill ok efniligr, ok kalladr Haraldr eptir módor-fedr sínom. Unno þau Konúngr ok drottníng þeim sveini mikit; ok hugdo gott til, at hann mundi vaxa upp, ok taka arf eptir fødr sinn; en hann lifdi ecki fullt ár, frá því er hann var fæddr. Þotti þeim badom þat mikill skadi. Þann vetr var margt íslendskra manna med Olafi Konúngi, sem fyrr er ritat, ok margir adrir gøfgir menn. Þá var ok med hirdimni Ingibjørg Tryggvadóttir, systir Olafs Konúngs, hún var frid synom, litillát ok blíd vid alþydo, fastræk ok drenglundot í skapi, ok allvinsæl. Hún var vel til íslendskra manna, þeirra er þar vóro; en Kjartan Olafsson var henni kærastr: þvíat hann hafdi lengst af þeim verit med Konúngi; þótti honom ok opt skémtiligt at tala vid hana; þvíat hún var bædi vitr, ok snjøll í máli. Olafr Konúngr var jafnan glادr, ok kátr vid sína menn, ok leiddi mjøk at spurníngom, um hátto ok høfdingskap ríkra manna, af hinom nærsto lendom, ef menn komo til hans af Danmørk edr Sviþjód. Hallfredr

fredr Vandræda-skáld hafdi komit um sumarit austan af Gautlandi; hafdi hann verit med Rögnvaldi Jarli Ulfsyni, er þá var kominn til ríkis í vestra Gautlandi. Ulfr fadir Rögnvalds var bródir Sigridar hinnar Stórrádo: vóro þeir systkyna synir Olafr Konúngr Sænski ok Rögnvaldr Jarl. Segir Hallfredr Olafi Konúngi margt af Jarli; sagdi at hann var hraustr höfdingi ok stjórnsamr, örr af peníngom, drenglyndr ok vinhollr: sagdi Hallfredr þat ok med, at Jarl vildi hallaz til vinátto vid Olaf Konúng; ok hafdi þat talat, at hann vildi bidja Ingibjargar Tryggvadóttor. Á þeim vetri komo austan af Gautlandi sendimenn Rögnvalds Jarls, ok fundo Olaf Konúng nordr í Nidarósi; báro þar fram erindi Jarls fyrir Konúng, öll slík, sem Hallfredr hafdi ádr ordi ákomit, at Jarl vildi vera fullkominn vin Olafs Konúngs; ok þar med mælti Jarl til mægda vid Konúng, ok vildi fá Ingibjargar systor hans. Flutto sendimenn hér med Konúngi berar jarteiknir af Jarli, at þeir fóro med sönnom hans erindom. Tók Konúngr vel þeirra máli; en segir at Ingibjörg mundi miklo ráda sjálf um gjaford sitt. Sidan taladi Konúngr þetta mál vid systor sína, ok spurdi, hverso henni væri um þetta gefit? hún svarar sva: ek hefi verit med ydr um hríd, ok hafi þér veitt mér bródorliga umsjá, ok elskuliga sæmd í alla stadi, sídan er þér komot í land þetta. Fyrir þvi vil ek játta

ydvarri forsjó um gjaford mitt: vænti ek at þér giptit mik ecki heidnom manni. Konúngr segir sva skyldi vera. Atti Konúngr þá tal vid sendimenn; ok var þesso rádit ádr þeir færi brott, at Rögnvaldr Jarl skyldi koma til móts vid Olaf Konúng um sumarit austr í landi, ef hann vildi géra vid hann vináttu fullkomna; skyldo þeir þá sjálfir tala med sér þessi rád, er þeir finndoz. Fara þá sendimenn Jarls austr aptr med þessom erindom, en Olafr Konúngr sat um vetrinn í Nidarósi, med mikilli rausn ok fjölmenni.

## Kap. CXIV.

### Olafr Konúngr byrjar ferd sína til Vindlands.

Olafr Konúngr fór um sumarit, med lidi síno sudr med landi, um Stad. Þar í ferd var med honom Þyri drottníng ok Ingibjörg Tryggvadóttir, systir Konúngs. Sótto þá til fundar vid hann vinir hans margir ok ríkismenn, þeir er til ferdar vóro búnir med Konúngi. Var þar hinn fyrsti madr Erlíngr Skjálgsson mágr hans, ok hafdi hann skeid ena miklo: hún var 30 at rúma-tali, ok var þat skip allvel skipat. Þá komo ok til Konúngs mágar hans Hyrníngr, ok Þorgeirr, ok stýrdi hvartveggi miklo skipi. Margir adrir ríkismenn fylgdo hanom. Fór hann öllom þernom sudr med landi; en er Konúngr kom

sudr

sudr á Rogaland, dvaldist hann þar; þvíat Erlingr Skjálgsson hafdi búit hanom virduliga veizlo á Sóla. Þá kom austan af Gautlandi Rögnvaldr Jarl Ulfsson, á fund Olafs Konúngs, at vitja einkamála þeirra, er ord ok sendibod hafdi í millom farit um vetrinn; at hann skyldi fá Ingibjargar, systor Konúngs; tók Olafr Konúngr þá vel vid hanom Var þá talat um þetta mál; sagdi Olafr, at hann vildi halda öll sín ord þar um, ok gipta hanom Ingibjörgo systor sína; ef hann vildi taka trú rétta, ok kristna allt sitt undirfólk, þat er hann var yfirskipadr. Jarl játti því; var hann þá skírdr ok allt hans föroneyti: var þá aukin veizla sú er Erlingr hafdi gjöra látit: gékk Jarl at þeirri veizlo, at ega Ingibjörgo Tryggvadóttor; hafdi Olafr Konúngr þá gipt allar systor sínar: bjóst Jarl til heimferdar, ok Ingibjörg; fékk Konúngr Jarli kénnimenn, at kristna fólk á Gautlandi, ok kénna því rétta sido. Skildo þeir Konúngr ok Jarl med hinom mesta kærleik.

## Kap. CXV.

### Ferd Olafs Konúngs til Vindlands.

Eptir gipting Ingibjargar systor sinnar, bjóz Olafr Konúngr sem hvatligaz or landi med lid sitt; hafdi hann frídt lid ok mikit; hann hafdi 60 lángskipa, er hann fór or landi, ok sigldi sudr fyrir Danmörk gégnom Eyrar-

sund, ok sva til Vindlands - Hann gérdi stefno-lag vid Burisläf Konúng, ok funnoz þeir Konúngarnir: tölodo þeir þá um eignir þær, er Olafr Konúngr heimti, ok fóro allar rædr likliga milli Konúnga, ok gódr greidskapr gér á þeim eignom er Olafr Konúngr þóttiz þar ega. Dvaldiz Olafr Konúngr þar lengi um sumarit ok fann þar marga vini sina.

## Kap. CXVI.

### Samtök Svía- ok Dana-konúnga ok Eiriks Jarls í mót Olafi Konúngi Tryggvasyni.

Sveinn Konúngr Tjúguskégg átti þá Sigridi hina Stórráda, sem fyrr er ritit. Sigridr var hinn mesti úvin Olafs Konúngs Tryggvasonar, ok fann þat til saka, at Olafr Konúngr hafdi slitit einka-málom vid hana, ok lóstit hana í andlit, sva sem fyrr er ritit. Hún eggjadi mjök Svein Konúng til at halda orrosto vid Olaf Konúng Tryggvason, ok segir at þat væri ærin sök vid Olaf Konúng, er hann hafdi lagz med Þyri systor hans at ólofi ydro, ok mundo ecki hinir fyrri frændor ydrir slíkt þola; hafdi Sigridr drottníng slíkar fortölor optliga í munni, ok kom hún sva sínom fortölom, at Sveinn Konúngr var fullkominn at géra þetta. Ok snimma um varit sendi Sveinn Konúngr menn austr í Svíþjód, til Olafs Svía-konúngs mágs sins, ok Eiriks Jarls, ok lét segja þeim, at Olafr

Olafr Noregs Konúngr hafdi leidángr úti, ok ætladi at fara um sumarit til Vindlands. Fylgdi þat ordsendíngo Dana-konúngs, at þeir Svía-konúngr ok Eirikr Jarl skyldo her úti hafa ok fara til móts vid Svein Konúng, skyldo þeir þá allir samt leggja til orrosto vid Olaf Konúng Trygrvason. En Svía-konúngr ok Eirikr Jarl vóro þessarar ferdar albúnir, ok drógo þá saman skipa-her mikinn af Svía-veldi, ok fóro því lidi sudr til Danmerkor, ok komo þar sva, at Olafr Konúngr Tryggvason hafdi ádr austr um siglt. Þess getr Haldórr Ukristni, er hann orti um Eirik Jarl:

Ut baud jøfra hneitir
Elmódr af Svíþjódo,
(Sunnr hellt gramr til gunnar)
Gunnbliks lidi miklo;
Hverr vildi þá hølda
Hræ gæitunga feitir
(Már feck á sjá sára
Sylg) Eiriki fylgja.

Þeir Svía-konúngr ok Eirikr Jarl héldo til móts vid Dana-konúng, ok høfdo þá allir saman úgrynni hers.

## Kap. CXVII.

### Svikrædi Sigvalda Jarls.

Sveinn Konúngr þá er hann hafdi sendt til Svíþjódar eptir herinom, þá sendi hann Sigvalda Jarl til Vindlands, at njósna um her ok ferdir Olafs Konúngs Tryggvasonar, ok gildra sva til, at fundr þeirra Sveins Konúngs mætti verda ok Olafs Konúngs. Ferr þá Sigvaldi Jarl leid sína, ok kom fram á Vind-

Vindlandi; fór til Jómsborgar, ok sídan á fund Olafs Konúngs Tryggvasonar; vóro þar mikil vináttо mál þeirra á milli: kom Jarl sér í hinn mesta kjærleika vid Konúng. Astridr kona Jarls, dóttir Burislafs Konúngs, var vin mikill Olafs Konúngs Tryggvasonar, ok var þat mjøk af hinom fyrrom tengdom, er Olafr Konúngr hafdi átt Geiro systor hennar. Sigvaldi Jarl var madr vitr ok rádugr; en er hann kom sér í rádagérd vid Olaf Konúng, dvaldi hann mjøk ferd hans austan at sigla, ok fann til þess mjøk ymsa hluti. En lid Olafs Konúngs lét geysi illa; ok vóro mennirnir mjøk heimfúsir, er þeir lágo albúnir, en vedor byrvænlig. Sigvaldi Jarl feck njósn leyniliga af Danmørk, ok þá var austan kominn herr Svia-konúngs; ok Eirikr Jarl hafdi þá ok búinn sinn her, ok þeir høfdingiarnir mundo þá koma austr undir Vindland, ok þeir høfdo áqvedit, at þeir mundo bída þar Olafs Konúngs vid ey þá er Svold heitir; sva þat, at Jarl skyldi sva tilstilla, at þeir mætti þar finna Olaf Konúng.

## Kap. CXVIII.

### Ferd Olafs Konúngs af Vindlandi.

Þá kom pati nockr til Vindlands, at Sveinn Dana konúngr hefdi her úti, ok gérdiz brátt sá kurr, at Sveinn Dana-konúngr mundi vilja finna Olaf Konúng. En Sigvaldi Jarl segir sva Olafi Konúngi: ecki er þat rád Sveins Kon-

Konúngs, at leggja til bardaga vid þik med Dana-her einn saman, sva mikinn her sem þér hafit. En ef ydr er nockr grunr á því, at úfridr muni fyrir, þá skal ek fylgja ydr med míno lidi, ok þótti þat enn styrkr hvar sem Jómsvíkingar fylgdo hefdíngjom; man ek fá þér 11 skip vel skipot. Konúngr játadi þesso; var þá litit vedr ok hagstædt; lét Konúngr þá leysa flotann, ok blása til brottlogo; drógo menn þá segl sín, ok gengo meira smáskipin oll, ok sigldo þau undan á hafit út. En Jarl sigldi nær Konúngs skipino, ok kalladi til þeirra, bad Konúng sigla eptir sér, mér er kunnaz, segir hann, hvar djúpaz er um eya-sundin: en þér manot þess þurfa, med þau hin stóro skipin. Sigldi þá Jarl fyrir med sínom skipom; hann hafdi 11 skip, en Konúngr sigldi eptir hanom med sínom stórskipom; hafdi hann ok þar 11 skip, en allr annar herinn sigldi út á hafit. En er Sigvaldi Jarl sigldi utan at Svold, þá réri í móti þeim skúta ein; þeir segja Jarli, at herr Dana-konúngs lá þar í hofninni fyrir þeim. Þá lét Jarl hlada seglonom á skipom sínom, ok róa þeir inn undir eyna. Haldór Ukristni segir sva:

Ona fór ok eino
Unnviggs Konúngr sunnan
Sverd raud mætr at mordi
Meidr sistigom skeida;
Þá er hún lagar hreina
Hafdi jarl ofkrafda
Sætt geck seggja ættar
Sundr skánunga fundar.

Hér segir, at þeir Olafr Konúngr ok Sigvaldi Jarl hofdo 70 skipa, ok eino meirr, þá er þeir sigldo sunnan.

## Kap. CXIX.

### Frá tali Konúnganna.

Sveinn Dana-konúngr ok Olafr Svía-konúngr, ok Eiríkr Jarl, vóro þar þá med allann her sinn; þá var fagrt vedr ok bjart sólskin, gengo þeir nú á hólminn allir hefdingjar, med miklar sveitir manna, ok sá er skipin sigldo út á hafit, miøk mørg saman, ok nú sjá þeir hvar siglir eitt mikit skip ok glæsiligt. Þá mælte bádir Konúngarnir: þetta er mikit skip ok akafa fagrt; þetta mun vera Ormr hinn Lángi. Eiríkr Jarl svarar: ecki er þetta Ormr hinn Lángi; ok sva var sem hann sagdi; þetta skip átti Eindridi af Gimsom. Litlo sídar sjá þeir, hvar annat skip sigldi, miklo meira enn hit fyrra. Þá mælti Sveinn Konúngr: hræddr er Olafr Tryggvason nú, ecki þorir hann at sigla vid hefudin á skipi síno. Þá segir Eiríkr Jarl: ecki er þetta Konúngs skip, kénni ek þetta skip ok seglit, þvíat stafat er seglit; þetta er Erlíngr Skjálgsson, látom sigla þá; betra er oss skard ok missa i flota Olafs Konúngs enn þetta skip þar sva búit. En stundo sídar sá þeir ok kéndo skip Sigvalda Jarls, ok viko þau þannog undir hólmann. Þá sá þeir hvar sigldo 3 skip, ok var eitt mikit skip; mælti þá Sveinn Konúngr: bidr þá gánga til skipa sinna, þvíat þá ferr Ormr hinn Lángi. Eiríkr Jarl segir: mørg hafa þeir ennor stór skip ok glæsilig, enn Orm hinn Lánga, bídom enn. Þá mælte miøk margir

mènn,

menn, ecki vill Eirîkr Jarl nú berjaz, ok hefna fødor sins; þetta er skømm mikil, sva at spyrjaz mun um øll lønd, ef vèr liggiom hèr med jam-miklo lidi, en Olafr Konûngr siglir á hafit út hèr hjá oss sjálfom. En er þeir høfdo þetta talad um hríd, þá sá þeir hvar sigldo 4 skip, ok eitt af þeim var dreki allmikill, ok mjøk gullbúinn. Þá stód upp Sveinn Konûngr, ok mælti: hátt mun Ormrinn bera mik í qvøld; þvi hanom skal ek stýra; þá mælto margir: at Ormrinn var furdo mikit skip ok frídt, ok rausn mikil at láta géra slíkt skip. Þá mælti Eirîkr Jarl, sva at nockorir menn heyrdo: þótt Olafr Konûngr hefdi ecki meira skip enn þetta, þá mundi Sveinn Konûngr þat aldri fá af hanom, med einom saman Dana-her. Dreif þá fólkit til skipanna, ok ráko af tjøldin, ok ætlodo at búaz skjótliga. En er høfdingjar ræddo þetta ámilli sín, sem nú er sagt, þá sá þeir hvar sigldo 3 skip allmikil, ok et fjórda sidaz, ok var þat Ormr hinn Lángi. En þau hino stóro skip, er ádr høfdo siglt, ok þeir hugdo at Ormrinn væri, þá var hit fyrra Tranan, en it sídara Ormr hinn Skammi. En þá er þeir sá Orminn Lánga, kendo allir, mælti þá engi í mót, at þar mundi sigla Olafr Tryggvason; gengo þá til skipanna, ok skipado til atløgunnar. Vóro þat einkamál þeirra høfdingjanna, Sveins Konúngs ok Olafs Konúngs ok Eirîks Jarls, at sinn þridjúng Noregs skyldi eignaz hverr þeirra, ef þeir felldi Olaf Konûng Tryggvason; en sá þeirra høfdingja, er fyrst

gengi

gengi á Orminn, skyldi hann eignaz ok allt þat hlutskipti, er þar féckz, ok hverr þeirra þau skip er sjálfr hrydi. Eirikr Jarl hafdi Barda einn geisi mikinn, er hann var vanr at hafa í víking; þar var skégg á ofanverdo bardino hvarotveggja; en nidr frá járnspaung þyck, ok sva breid sem bardit, ok tók allt í sjá ofan.

## Kap. CXX.

### Frá lidi Olafs Konúngs.

Þá er þeir Sigvaldi Jarl réro inn undir hólmann, þá sá þeir þat Þorkéll Dyrdill af Trønonni, ok adrir skipstjórnar menn, þeir er med hanom fóro, at Jarl snéri s'nom skipom undir hólmann; þá hlódo þeir ok seglom, ok réro eptir hanom, ok kollodo til þeirra, ok spurdo: hví þeir fóro sva? Jarl segir: at hann vill bída Olafs Konúngs, ok er meiri von at úfridr sé fyrir oss, léto þeir þá fljóta skipin, þar til er Þorkéll Nefja kom med Orminn Skamma, ok þau 3 skip, er honom fylgdo, ok vóro þeim sögd en sømo tídindi. Lódo þeir þá ok sínom seglom, ok léto fljóta, ok bido Olafs Konúngs. En þá er Konúngrinn sigldi inn at hólmanom, þá réri allr herinn innan fyrir þá, ok út á sundit. En er þeir sá þat, þá bádo þeir Konúnginn sigla leid sína, en leggja ecki til orrosto vid sva mikinn her. Konúngr svarar hátt, ok stód upp í lyptingunni: láti ofan seglit; ecki skulo minir menn hyggja á flótta; ek hefi aldri flúit

í orr-

í orrosto; rádi Gud fyrir lífi míno, en aldri mun ek á flótta leggja. Var sva gért, sem Konúngr mælti. Sva segir Hallfredr:

Geta skal máls þess er mæla
Menn at vapna senno
Dólga fangs vid drengi
Dádoflgan gram qvádo;
Badat her tygdar hyggja
Hueckir sína recka
(Þess lifa þjódar sessa
Þróttar ord) á flótta.

## Kap. CXXI.

### Lagt saman skipom Olafs Konúngs.

Olafr Konúngr lét blása til samlogo ollom skipom sínom; var Konúngs skip í midjo lidi; en þar á annat bord Ormrinn Skammi, en á annat bord Tranan. En þá er þeir tóko at tengja stafnana, þá bundo þeir saman stafnana á Orminom Lánga ok Orminom Skamma; en er Konúngr sá þat, kalladi hann hátt, bad þá leggja fram betr it mikla skipit, ok láta þat ecki aptaz vera allra skipa í herinom. Þá svarar Ulfr hinn Raudi: ef Ormrinn skal því lengra framleggja, sem hann er lengri enn onnor skip, þá mun ávint verda um ſorin í dag. Konúngr svarar: ecki vissa ek, at ek ætti stafnbúann bædi raudann ok ragann. Ulfr svarar: ver þú ecki meir baki lypt-

íagnna; enn ek man stafninn. Konúngr héllt á boga, ok lagdi ør á streng, ok snéri at Ulfi. Ulfr mælti: skjót annann veg, Konúngr, hann og sem meiri er þorfin; þér vinn ek þat er ek vinn.

## Kap. CXXII.

### Frá Olafi Konúngi.

Olafr Konúngr stód í lypting á Orminom; bar hann hátt mjøk; hann hafdi gylltann skjöld ok gullrodinn hjálm; var hann mjøk audkéndr frá ødrom mønnom; hann hafdi raudann kyrtil stuttann yfir bryńjo. En er Olafr Konúngr sá at ridlodoz flockarnir, ok upp vóro sett merki fyrir høfdíngjom, þá spurdi hann: hverr er høfdingi fyrir lidi því, er gégnt oss er? hanom var sagt, at þat var Sveinn Konúngr Tjúguskégg, med Dana-her. Konúngr svarar: ecki hrædomz vér bleydor þær; engi er hugr í Dønom: en hverr er fyrir lidi því, er hægra veg er frá Dønom? hanom var sagt, at þat var Olafr Konúngr med Svía-her. Olafr Konúngr segir: betra væri Svíom héima, ok sleikja um blót-bolla sína, enn gánga á Orminn Lánga undir vopn ydor. En hvarir ega þau stóro skip, er þar liggja út á bakborda Dønom. Þar er, segja þeir, Eiríkr Jarl Hákonarson. Þá svarar Olafr Konúngr: hann mun þyckjaz ega vid oss skapligann fund, ok af því lidi er oss van snarprar orrosto, þvíat þat ero Nordmenn, sem vér erom.

## Kap. CXXIII.

### Upphaf orrostunnar.

Sídan greida Konúngar atródrinn: lagdi Sveinn Konúngr sitt skip móti Orminom Lánga, en Olafr Konúngr Sænski lagdi þar út frá, ok stack stefnom at yzta skipi Olafs Konúngs Tryggvasonar, en ödrumegin lagdi at Eiríkr Jarl. Tókz þar þá hörd orrosta. Sigvaldi Jarl lét skotta vid sín skip, ok lagdi ecki til orrosto. Sva segir Skúli Þorsteinsson; hann var þá med Eiriki Jarli:

Fylgdak Frísa dólgi
Feck ek úngr þar er spiör súngo
(Nú fidr öld at ek eldumz)
Aldr bót ok Sigvalda.
Þars til móts vid mæti
Málm þíngs í dyn hjálma
Sunnr fyrir Svoldrar mynni
Sár lauk rodinn bárom.

Ok enn segir frá þessom tídindom Hallfredr:

Þar hyck víst til miök misto
(Mörg kom drótt á flótta)
Gram þann er gunni framdi
Gengis þrænskra drengja.
Næfr vá einn vid jöfra
Allvaldr tva snjalla
Frægr er slikt at segja
Sidr en Jarl hinn þridja.

## Kap. CXXIV.
### Flótti Sveins Konúngs ok Olafs Konúngs.

Þessi orrosta var hin snarpasta, ok allmannskæð. Frambyggjar á Orminom Lánga ok Orminom Skamma ok Trønonni færdo ackéri ok stafnljá í skip Sveins Konúngs; en átto vapnin at bera á þá nidr undir fætor sér; hrudo þeir øll þau skip, er þeir fengo haldit. En Konúngrinn Sveinn, ok þat lid er undan komz, flýdi á ønnor skipin: ok því nærst løgdo þeir frá or skotmáli. Ok fór þessi herr, sva sem gat Olafr Konúngr Tryggvason. Þá lagdi þar at í stadinn Olafr Svía-konúngr; ok þegar er þeir komo nær stórskipunom, þá fór þeim sem hinom, at þeir léto lid mikit, ok sum skip sín, ok løgdo frá vid svabúit. En Eirikr Jarl síbyrdi Bardanom vid it yzta skip Olafs Konúngs, ok raud þat ok hjó þegar þat or tengslom: en lagdi þá at því, er þar var nærst, ok bardiz til þess, er þat var rodit. Tók þá lidit at hlaupa af hinom smærrom skipunom, ok uppá stórskipin. En Jarl hjó hvert or tengslom, sva sem hrodit var. En Danir ok Svíar løgdo þá í skotmál, ok øllom megin at skipom Olafs Konúngs. En Eirikr Jarl lá ávallt síbyrdt vid skipin, ok átti høgg-orrosto. En sva sem menn féllo á skipom hans, þá gengo adrir upp í stadinn, Danir ok Svíar. Sva segir Haldórr:

Gerdiz,

Gerdiz snárpra sverda
Slito drengir frid lengi
Par gullin spjor gullo
Gángr of Orm hinn Lánga;
Dólgs qvádo fram fylgja
Fráns leggbíta hánom
Sænska menn at sennó
Sunnr ok danska runna.

Pá var orrosta hinn snarpasta, ok féll þá mjøk lidit, ok kom sva at lyktom, at øll vóro rodin skip Olafs Konúngs Tryggvásonar, nema Orminn Lángi; var þar þá allt lid komit, þat er vígt var hans manna. Pá lagdi Eiríkr Jarl Bardanom at Orminom síbyrdt, ok var þar þá enn høgg-orrosta. Sva segir Haldórr:

Fjørd kom heldr í harda
Hnitv reyr-saman dreyra
(Túngl skároz þá tíngla
Tángar) Ormr hinn Lángi
Pá er bord mikinn Barda
Brynflagds regin lagdi
Jarl vann hjálms at hólmi
Hríd vid Fafnis sídv.

## Kap. CXXV.

### Frá Eiríki Jarli.

Eiríkr Jarl var í fyrirrúmi á skipi síno, ok var þar fylkt med skjaldborg. Var þar þá bædi høgg-orrosta ok spjótom lagt, ok kastat

ollo því er til vapna var: en sumir skutu boga-skoti edr handskoti. Var þá sva mikill vapna-burdr á Orminn, at varla mátti hlífom fyrir sik koma, er sva þyckt flugo spjót ok ørvar; þvíat øllom megin lágo þ herskip at Ormin-om. En menn Olafs Konúngs vóro þá sva ódir, at þeir ljópo uppá bordin til þess, at ná med sverds-høggom at drepa fólkit. En margir legdo ecki sva undir Orminn, at þeir vildo í høgg-orrosto vera. En Ol.fs Konúngs menn g.ngo flestir út af bordonom; ok gádo ecki ann-ars, en þeir berdiz á sléttom velli; ok sucko nidr med vapnom sínom. Sva segir Hallfredr:

Sucko nidr af nadri
Naddfárs í bøð sárir
Baugs gerdøt vid vægjaz
Verkendor megin serkjar;
Vanr mun Ormr þótt Ormi
Alldýrr Konúngr stýri
Hvars hann skrídr med lid lýda
Lengi slíkra drengja.

## Kap. CXXVI.

### Frá Einari Þambarskélfi.

Einarr Þambarskélfir var á Orminom aptr í krappá-rúmi: hann skaut af boga; ok var allra manna hardskeytastr. Einarr skaut at Eiríki Jarli, ok laust á styris-hnack-ann, fyrir ofan høfot Jarli; ok geck allt uppá reyrbøndin. Jarl leit til ok spurdi: ef þeir

vissi

visi hverr þar skaut? en jamskjótt kom ønnor ør, sva nær Jarli, at flaug milli sídunnar ok handarinnar, ok sva aptr í høfdafjølina, at lángt stód út broddrinn. Þá mælti Jarl vid þann mann, er sumir nefna Finn, en sumir segja at hann væri finnskr; sá var hinn mesti bogmadr: skjótto mann þann inn mikla í krappa-rúmino! Finnr skaut; ok kom ørin á boga Einars midjann, í því bili er Einarr dró it þridja 'sinn bogann: brast þá boginn í tva luti. Þá mælti Olafr Konúngr: hvat brast þar sva hátt? Einarr svarar: Noregr ør hendi þér, Konúngr! ecki mun sva mikill brestr ordinn, segir Konúngr: tak boga minn, ok skjót af, ok kastadi boganom til hans. Einarr tók bogann, ok dró þegar fyrir odd ørvarinnar, ok mælti: ofveikr, ofveikr allvalds boginn, ok kastadi aptr boganom: tók þá skjøld sinn ok sverd, ok bardiz røskliga.

## Kap. CXXVII.

### Olafr Konúngr fær mønnom sínom skørp sverd.

Olafr Konúngr Tryggvason stód í lypting á Orminom, ok skaut optaz um daginn, stundom bogaskoti, en stundom gaflokom, ok jafnan tveim í senn. Konúngr sá fram á skipit, ok sá sína menn reida sverdin, ok heggva tídt; ok sá at illa bito: mælti þá, hátt: hvert reidit þér sva sljáliga sverdin, er ek sé at ecki

bíta ydor? Madr svaradi: sverd var eru slæ ok brotin mjøk. Þá gêck Konúngr ofan í fyrirrúmit, ok lauk upp hásætis kistuna; tók þar úr mørg sverd hvæss, ok fêck mønnom sínom: en er hann tók nidr inni hægri hendi, þá sá menn at blód rann ofan undan brynstúkunni; en engi veit hvar hann var sárr.

## Kap. CXXVIII.

### Uppgánga á Orminn.

Mest var vørnin á Orminom, ok mannskædoz af fyrir-rúms mønnom, ok stafnbúom; þar var hvartveggja valit mest mannfólkit, ok hærst bordin. En lid fêll fyrst um midt skip. Ok þá er fátt stód upp mannanna um siglo skeidit, þá red Eiríkr Jarl til uppgaungunnar, ok kom uppá Orminn vid 15da mann. Þá kom í móti hanom Hyrníngr, mágr Olafs Konúngs, med sveit manna, ok vard þar hinn hardasti bardagi, ok lauk svo, at Jarl røck ofan aptr á Bardann: en þeir menn, er honom høfdo fylgt, fêllo sumir, en sumir vóro særdir. Þess gêtr Þórdur Kolbeinsson:

Þar var hjálmads herjar
Hroptz vid drærgar tóptir
Ord fêck gott er gerdi
Grams vor ok blám hjørvi.
Høll bílar, hárra fjalla
Hyrníngr ádr þat fyrniz.

Þá vard enn hin snarpasta orrosta, ok féllo þá margir menn á Orminom. En er þynntiz skipan á Orminom til varnarinnar, þá réd Eirikr Jarl í annat sinn til uppgaungo á Orminn: vard þá enn hørd vidtaka. En er þetta sá stafnbúar á Orminom, þá gengo þeir aptr á skipit, ok snúaz til varnar móti Jarli, ok veita harda vidrtøko. En fyrir því, at þá var sva mjøk fallit lid á Orminom, at vída vóro aud bordin; tóko þá Jarls menn vída upp at gánga: en allt þat lid, er þar stód upp til varnar á Orminom, sótti aptr á skipit, þar til sem Konúngr var ok snériz þá enn til varnar. Sva segir Haldórr Ukristni, at Eirikr Jarl eggjadi þá sína menn:

Het á heiptar nýta
Hugreifr med Oleifi
Aptr størk þjód á þóptor
Þengill sína drengi.
Þá er haf vita høfdo
Hallands of gram snjallan
(Vard fyrir Vinda myrdi
Vapneidr) lokit skeidom.

## Kap. CXXIX.

### Rodinn Ormrinn Lángi.

Kolbjørn Stallari géck upp í lypting til Konúngs; þeir høfdo mjøk líkann klæda-búnat ok vapna. Kolbjørn var ok allra manna mestr ok frídastr. Vard nú enn í fyrir-rúm-

ino hin snarpasta orrosta. En fyri þá sok, at þá var sva mikit fólk komit uppá Orminn af lidi Jarls, sem vera mátti á skipino; en skip hans legdo at ollom megin utan at Orminom, en litit fiolmenni til varnar, móti sva miklom her. Nú þótt þeir menn væri bædi sterkir ok fræknir, þá féllo nú flestir á litilli stundo. En Olafr Konúngr sjálfr, ok þeir Kolbjørn Stallari bádir, ljópo þá fyrir bórd, ok á sitt bord hvarr; en Jarls menn hofdo lagt at utan smáskútor, ok drápo þá er á kaf ljópo. Ok þá er Konúngr sjálfr hafdi á kaf laupit, vildo þeir taka hann hondom, ok færa Eiriki Jarli. En Olafr Konúngr brá yfir sik skildinom, ok steyptiz í kaf; en Kolbjørn Stallari skaut undir sik skildinom, ok hlífdi sér sva vid spjótom, er lagt var af skipom þeim, er undir lágo, ok féll hann sva á sjáinn, at skjoldrinn vard undir hanom; ok komz hann þvi ecki i kaf sva skjótt: ok vard hann handtekinn, ok dreginn upp i skútuna, ok hugdo þeir, at þar væri Konúngrinn. Var hann þá leiddr fyrir Jarl; en er þess vard Jarl varr, at þar var Kolbjørn, en ecki Olafr Konúngr, þá vóro Kolbirni grid géfin. En i þessi svipan ljópo allir fyrir bord af Orminom, þeir er þá vóro á lifi, Oláfs Konúngs menn; ok segir Hallfredr sva, at Þorkell Nefja Konúngs bródir ljóp sidast allra manná fyrir bord:

Ugrædir sá auda
Armgrjóts Trøno skjóta

(Hann

(Hann raud geir at gunni:
Gladr) ok báda Nadra.
Adr hjaldr Þorinn hjeldi
Hugframr i bod ramri
Snotr af snæris vitni
Sunds Þórketill undan.

## Kap. CXXX.

### Eya-søgn.

Sva var fyrr ritat, at Sigvaldi Jarl kom til føroneytis vid Olaf Konúng í Vindlandi; ok hafdi Jarl 10 skip; en þat ellifta, er à vóro menn Astrídar Konúngs dóttor, kono Sigvalda Jarls. En þá er Olafr Konúngr hafdi fyrir bord laupit, þá æpti herinn allr sigr-óp: ok þá lusto þeir árom í sjá Sigvaldi Jarl ok hans menn, ok réro til bardaga. Þess gétr Haldórr Ukristni:

Drógoz vítt at vagi
Vinda skeidor ok gíndo
Þridja hanzrs á þjódir
Þunn galkn í járn-munnom.
Gnýr vard á sjá sverda
Sleit orn gera beito
Dýrr vo drengja stjóri
Drótt kom morg á flótta.

En sú Vinda-sneckjan er menn Astrídar vóro á, réri brott, ok aptr undir Vindland; ok var þat þegar rædá margra manna, at Olafr

Konúngr mundi steypt hafa af sér brynjonni í kaf, ok kafat sva út undan lángskiponom, lagst sídan til Vinda-sneckjonnar, ok hefdi menn Astridar flutt hann til Vindlands; ok ero þar margar fráságnir um ferdir Olafs Konúngs gërvar sídan af sumom mønnom. En á þessa leid segir Hallfredr:

Veit ek eigi hitt hvart heita
Húngrdeyfi skal ek leyfa
Dynsædinga daudan
Dýr bliks eda þó kyqvan.
Alls sannliga segja
Sárr mun Gramr at hváro
Hætt er til hans at fretta
Hvartveggja mer seggir.

En hvernog sem þat hefir verit, þá kom Olafr Konúngr Tryggvason aldrigi sídan til ríkis í Noregi. En þó segir Hallfredr Vandræda-skáld á þessa leid:

Samr var árr of æfi
Oddbragds hinn er þat sagdi
At lofdà Gramr lifdi
Læfiyggs sonar Tryggva.
Vera qvedr øld or eli
Olaf kominn stála;
Menn geta máli sønno,
Mjøk er verr enn sva, ferri.
Mundot þess alls þegnar
Þrótthardan Gram sótto
Frá ek med lýda lidi

Land her þar skop verda.
At mundjokuls mundi
Margdýrr koma síþrir
Geta þickjaz þess gotnar
Glikligs or styr slikom.
Enn segir audar kenni
Austr i málma gnaustan
Seggor frá sárom Tiggja
Sumr eda brot of komnom.
Nú er sannfregit sunnan
Siklings or styr miklom
Kann ek eigi margt vid manna
Mord veisanar ordi.

## Kap. CXXXI.

### Frá Eiriki Jarli Hákonarsyni.

Eirikr Jarl Hákonarson eignadiz Orminn Lánga med sigrinom, ok lutskipti mikit; ok styrdi Jarl Orminom frá fundinom. Sva segir Haldórr:

Hjálmfaldinn bar hilmi
Hríngs at miklo þingi
(Skeidor glæsto þá þjódir)
Þángat Ormr hinn Lángi.
En sudr at gný gunnar
Gladr tók Jarl vid Nadri
Adr vard egg at rjóda
Ættgódr Hemings bródir.

Sveinn

Sveinn son Hákonar Jarls, hafdi þá fest Hólmfríði dóttor Olafs Svía-konúngs. En er þeir skipto Noregs veldi milli sín, Sveinn Dana-konúngr ok Olafr Svía-konúngr, ok Eiríkr Jarl, þá hafdi Olafr Konúngr 4 fylki í Þrándheimi ok Mœri hvaratveggjo, ok Raumsdal, ok austr Ránríki frá Gautelfi ok til Svinasunds. Þetta ríki féck Olafr Konúngr í hendor Sveini Jarli, með þvílíkom formála, sem fyrr hefdo haft skattkonúngar edr Jarlar af Yfir-konúngom. En Eiríkr Jarl hafdi 4 fylki í Þrándheimi, ok Hálogaland ok Naumodal, Fjördo ok Fjalir, Sogn ok Hördaland ok Rögaland, ok Nordan-Agdir allt til Lidandisness. Sva segir Þórdr Kolbeinsson:

Veit ek fyrir Erling utan
Ar at Hersar váro
Lofat Fasta tý-flestir
Farlands vinir Jarla;
En ept víg frá veigs
Vel ek ord at styr nordan
Land eda lengra stundo
Lagdiz sudr til Agda.
Allvalds nuto aldir
Una likar vel sliko

Skyldr

Skyldr letz hendi at halda
Hann af Noregs mönnom.
En Sveinn Konúngr sunnan
Sagdr er dandr hinn andi
(Fátt bilar flestra ýta)
Fár hans býir váro.

Sveinn Dána-konúngr hafdi þá enn Vikina, sva sem hann hafdi fyrr haft; en hann veitti Eiríki Jarli Raumaríki ok Heidmörk. Sveinn Hákonarson tók Jarldóm af Olafi enom Sænska. Sveinn Jarl var allra manna frídastr, er menn hafa sied. Eiríkr Jarl ok Sveinn Jarl léto bádir skíraz, ok tóko rétta trú; en medan þeir redo fyrir Noregi, léto þeir gëra hvern sem vildi um kristnihaldit: en forn lög héldo þeir vel, ok alla lands-sido: ok vóro menn vinsælir ok stjórnsamir. Var Eiríkr Jarl mjök fyrir þeim brædrom um forrád öll-

Endir eins Annars Heftis.

# Snorra Sturlusonar
# Heimskringla
edr
# Noregs Konúnga Søgur.

## Fyrsta Hefti.

Selst almennt innfest fyrir 32 skildínga.

Leirárgordum vid Leirá, 1804.

Prentad á kostnad Islands konúnglegu Uppfrædíngar Stiptunar,

af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord

## Til Lesarans.

Eptir ósk margra viturra Landsmanna, hefir hid konúnglega íslendska Lands-uppfrædingar Félag í áformi, ad útgéfa smámsaman í heftum Snorra Sturlusonar nafnfrægu **Noregs Konúnga Søgur**, og á eptir þeim **Sturlúngu**, til fródleiks og skémtunar námfúsum Almenníngi. Byrjanin er því hér med gjørd til prófs, og fleiri vidlík smá-hefti eda bindini munu hér eptir ódum útkoma, þá hentugleikar leyfa.

**Innrahólmi**, þann 1ta Febr. 1804.

M. Stephensen.

Snorra Sturlusonar

# Heimskringla

edr

# Noregs Konúnga Sögur.

Annad Hefti.

Selst almennt innfest fyrir 32 skildinga.

Leirárgördum vid Leirá, 1804.

Prentad á kostnad Islands konúnglegu Uppfrædíngar Stiptunar,

af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.